var og gert við Gvend loka; þegar hann gekk aftur og ætlaði að gera alt vitlaust á Hólum í Hjaltadal 1598, Hólamenn fóru til og grófu upp lík hans, stungu af honum höfuðið og brendu svo hræ hans til kaldra kola[1]). Þá var og líkið brent, til að mýgja afturgöngu Jóns Sýjusonar.[2]) Fleiri dæmi munu finnast um slíkt, en það síðasta sem eg veit um, er frá síðara hluta 19. aldar. Svo bar til á bæ einum á Vestfjörðum, að kerling ein gömul var að staulast ofan baðstofustigann, en datt í stiganum og hálsbrotnaði. Maður einn á heimilinu sá til hennar og varð að orði: »Þar fór hún til helvítis«. Kerling gekk þegar aftur og sótti svo gríðarlega að manni þessum, að hann hafði engan frið fyrir henni. Hann fór þá til kunnáttumanns nokkurs, og réð hann honum til að taka höfuðið af líkinu og setja við þjó henni. Maðurinn fór svo þangað sem kerling lá í kistu sinni, opnaði kistuna, murkaði hausinn af kerlingu, setti hann við þjó henni og lokaði svo kistunni. Tók þá af ásóknina. Maður þessi var enn á lífi 1901[3]).

Fátítt mun það vera, að draugar þurfi að eta, nema uppvakningar þeir, er vaktir eru upp volgir eða aðeins ódauðir, eins og Írafellsmóri. Þó eru þess dæmi um þá, sem ganga aftur í andarslitrunum, eins og Skupla, og um bóndann, sem ekki þurfti hníf við hangiketið[4]). Líkamlegri geta afturgöngurnar ekki orðið en þetta.

Enn er sú trú til, að ef þungaða konu dreymir dauðan mann, og hann biður að láta heita eftir sér, eða lofa sér að vera, að það sé hættulegt að verða ekki við þeirri bón. Og ef menn létu börn sín heita eftir einhverjum framliðnum, trúðu menn því, að þau »mundu hafa eitthvað af nafni«. Þetta eru óljósar leifar af hinni fornu trú um endurborna menn, sem áður er getið.

---

1) J. H. Bisk.s 2., 56—58.
2) Árb. 6, 135--36; J. Á. Þs. og æf. 2, 119
3) Hdr. Ó. Dav. eftir hdr. Sighv. Grímsson.
4) J. Á Þs. og æf. 1., 275—76; J. Þ. Þs. og mm. 153—55.

Af þessum dæmum úr þjóðtrú alþýðunnar á síðari tímum má sjá, að það fer ekkert dult, að hin gamla, heiðna trúarskoðun alþýðunnar, að sálir manna séu bundnar við líkið og lifi í því að minsta kosti á meðan það er ekki fúnað til fulls, hefir lifað hálfóafvitað nær óbreytt með fólkinu fram undir þennan dag[1]). Kenningar kirkjunnar lifðu í fólkinu, en hinn forni heiðindómur lifði þar líka — og það enn dýpra lífi. Að vísu er hin gamla, ramma drauga trú í heiðnum stíl víðast á förum, en þó mun ekki lifa svo lítið í kolunum enn sumstaðar, ef vel væri leitað. En það sem hún er horfin eða að hverfa, er ekki kirkjunni og hennar kenningum að þakka; ef svo væri, hefði hún öll sópast burt, þegar vald og ofsi kirkjutrúar og rétttrúnaður var svæsnast á 17. og 18. öld. En það megnaði hún ekki. Prestarnir trúðu á draugana í alþýðustíl eins og aðrir. Hin almenna mentun nýja tímans hefir rutt svo mörgu burtu á fáeinum áratugum, sem jafnmargar aldir unnu ekki bug á áður. Og þó sitja enn ótal heiðnar menjar í þjóðinni, miklu fleiri en nokkurn mann grunar, þangað til farið er að rannsaka það til hlítar. Þá ber margt á góma, sem mörgum manni mundi detta sízt í hug. Eitt af mörgu, sem eg hefi tínt saman er þessi alþýðutrú um annað líf.

Það er líkast því, að þessi trú manna hafi engum glundroða valdið, þegar henni sló saman við kirkjutrú manna. Trúin á hvorutveggja var jafnbjargföst. Og þó eru þær hvor annari svo gagnólíkar. Það væri verkefni fyrir sálarfræðing að greiða úr því fyrirbrigði í lífi mannsandans, hvernig þær komust báðar fyrir, án þess að ófriður yrði á milli.

Trúin á Valhöll og vistina að Heljar varð aldrei að alþýðutrú hér á landi. Ef svo hefði verið bæri meira á því í fornritum vorum; og það kæmi einhverstaðar fram í þjóðtrú vorri. En þess verður ekki vart. Óðinn mun aldrei hafa verið dýrkaður hér á landi, sízt til muna, á

---

[1]) Er ekki eitthvað skyld þessu sú kenning sumra guðfræðinga, að sálir manna sofi frá dauðanum til upprisunnar? Hvar sofa þær?

söguöld vorri. Freyr og Þór voru aðalguðirnir. En skáldunum var Óðinsdýrkunin og Valhöll og Hel kunn, og þegar fram á aldirnar leið, virðist talsvert meira bera á þeim fræðum en áður meðal fróðra manna. Og það kveður svo ramt, að áhrifa frá Eddu verður ekki svo lítið vart í lýsingum á dómsdegi og öðru lífi í sumum sálmum. Þær eru meir að segja svo líkamlegar, að ekki verður betur séð, en að líkami og sál njóti þar sælu alls jarðnesks munaðar í sameiningu, eða kenni þjáninga vansælunnar hvort með öðru. Þar var sælan meðal annars fólgin í fullsælu matar og drykkjar, en kvalirnar í óþolandi bruna, sulti og þorsta[1]). En þetta skildi fólkið, og trúði, af því að það skildi það. Hins sama kennir og fyllilega í mörgum guðsorðabókum frá 17. og 18. öld; virðist öll ástæða til að ætla að þessi blær trúarinnar muni eiga rót sína að rekja til fornra, heiðinna hugmynda, eins og margt í Dungalsleiðslu og fleiru.

Það mætti rita langt mál um þessar heiðnu menjar í hugsunarlífi, venju og siðum manna, en bæði þarf til þess ýtrari rannsóknir en mér hefir enn gefist kostur á að gera, og svo er ekki nema takmarkað rúm, sem maður hefir ráð á, það verður því að sitja við þetta stutta ágrip að sinni.

---

[1]) Sig. Jónss: Hugv.sálm. 45, 1—4; 48, 1., 4; 49, 2—11. o. m. fl.

*Jónas Jónasson.*

---

# Loftfaraljóð,

## »Ballonbrev« til sænskrar konu.

Eftir *Henrik Ibsen.*

*Matthías Jochumsson* íslenzkaði.

---

Dresden, í des. 1870.

Þá skal freista þess í dag
þó að hafi dregist lengi
og mín loforð aldrei fengi
efnd í neinum ljóðabrag.
Stokkhólmsborg ég kvaddi kraminn
kynjaskuld og þandi haminn
undan sól frá sænskum sprakka
suður á Nílar heitu bakka,
teygður römmu töfravaldi
til að lyfta Ísis-faldi.
Man eg »Lýru«-kvöldið kátt,
kvæðið síðan frá mér átt,
er því nú þinn réttvís réttur.
Réttur? hvað þá, herra trúr!
hann er löngu lögum úr:
hér á borð er hnefinn settur!
Samt er enn mitt svar: »Eg vil«.
Hlýt að ráða hvað eg segi,
hreint og beint, en Prússinn eigi.
Les nú, frú, með frjálsum yl
flóttamannsins þagnarspil.

Hér í Dresden hefst eg við,
held þó Parísborgar sið.
Digrir þýzkir þjóðmálsskúmar,
þá sem engin veröld rúmar;
vígagrobb með veifu á stöng,
»Wacht am Rhein« þeir kalla söng:
þetta skemtir þegar húmar;
vorkenn mér þótt vistin þröng
verði mér og tíðin löng.
Ölhúss stjórnardellan djúpa
deild er mér sem hundasúpa,
blaðaleirburð líka tíðum
láta menn með rómi stríðum
færa mér í fullum pottum,
franska villibráð úr rottum.

Verra hitt, er hljóð af tónum
hingað berst frá Noregsströnd
og mín vorgræn vonarlönd
skemd eg veit af skríl og flónum, —
heyri hvalablástra hvína,
heyri nídda framtíð mína;
vopnlaus þá eg varpa önd,
vonir fækka, ráðin dvína.

Þá — svo engu þurfi að ljúga —
þessar beyglur kenna mér
sendibréf að bjóða þér
og minn loftbelg láta fljúga.
Dúfur engar á eg til
er menn kalla vonarfugla,
hér við dufl og dáraspil
dafnar aðeins hrafn og ugla,
en að þiggja uglu og hrafna
orðsendingar brúðir hafna.

Þegar Löginn[1]) klakinn klæddi,
kólu tré og frostið mæddi,
fór eg suður fyrra haust,
fann að lokum Deltu naust.
Þar var sól og sumardagur,
svo hver geisli tundurfagur
aftur sendist sem á heiðum
sindrar ljós frá jökulbreiðum;
sykamór og pálminn prúði
prýddu land sem unga brúði,
upp á söndum Arabana
eygðum vér, með karavána.
Einn að norðan, er hann sá
úlfaldana, mælti þá:
»Eg sé skrímsl með ógnarhnútum,
ætli fólkið ríði strútum?«

Fljótið upp vor »Ferus« smó
forna leið frá Kairó;
loksins eftir lotu harða
lentum nærri *Keops* varða.
Hér á Frakka fimbulljón[2])
forni *sfinxinn* hvesti sjón,
er þess djarfa drottins orð
dunaði hæst á Nílarstorð.

Svo í Beni Hassans hauga
hoknir skriðum vér til drauga,
þá hefir tíðin annast illa;
alt er valt á tímans sjó,
einnig hér í Egiptó;
fullyrt er að ei sé villa
að af sjálfum Faraó
gerð sé Hassans gamla þró

[1]) Lögur = Mälaren, í Stokkhólmi. [2]) Napólon mikli **1800.**

þegar pabbi Pótifar
prýddi ráð hans hátignar —
eða' hans fyrri undirtylla,
ei sem vildi sifjum spilla,
Jósef ríkisvörður var.

Memnon stendur steins í líki,
stundum söng hinn forni raumur,
en er sóttum Hrungni heim,
kom ei bops úr karli þeim;
það er sýnt sú sögn er draumur,
kannske frá því Kambyses
karlinn skemdi og fólsku blés
í hann máske innanverðan,
eftir það sem dumban gerð' hann,
þess hafa stundum goldið greppar
geltnir ef að þóttu seppar.
Þá er að fylla þularstólinn
þögull, meðan rennur sólin.

Á þeim stóli stirður situr
stillir enn og sýnist vitur;
tekur drjúgum toll í skaut
tiggi hvers er fer þá braut,
því hann hylla hersar, jarlar,
háir, lágir, norskir karlar,
eins og eg, sem gól um Gaut.

En hver má í söng þér segja
sex og tveggja vikna draum;
þó að vers eg vildi rita,
veru lýsa, svita og hita,
Nílar gegnum nykrastraum?

Fyrst má ei með orðum tjá
alla risnu fljótinu á:
Alls voru fjórar arkir Nóa,
auk þess fagrar ferjur tvær
fluttu margar verur þær,
sem oss æ með yndi fróa.

En á »Ferus« bygðu borð
birnir þrír frá Dofrastorð,
ellefu hanar frá þeim frönsku,
folar átta þeirra spönsku,
eg hef frétt, að fákum þeim
finnist enginn jór um heim
undir víðu veldi sólar
vakrari að stíga en þeir *El-Ola*[1]);
hér að auk, ef alt skal greina,
okkar lötu matarsveina
tel ég asna; ofan úr Sviss
alibukkur gaf mér hniss;
þá var einn, ef því má trúa,
þeirra sem »und vatni« búa[2]).
Líka mátti líta grúa
villigalta þýzkra þjóða,
þjóra líka feiknastóra,
spaka nú, en vana vígum,
voru nú á friðarstígum;
bókmelir frá Brasilíu
birta sýndust fátt af nýju.
Enn má reikna allmörg smádýr
ótrúlega létt og og frá dýr;
svo var enn — nei, nú er nóg!

---

[1]) Spænskur dans. [2]) Hollendingar.

»Komið, hér er karavaninn!«[1])
kallar til vor dragómaninn;
nú skal ýmist austur stefnt
eða vestur, hvar sem vaninn
helztu rústir hefur nefnt.
Fram á gulum funaslettum
flogið er svo á vængjum léttum,
sem þó latir asnar eru
og úlfaldar í raun og veru.
Hér er ys og óp og gaman,
alls kyns skran er komið saman.
Sá sem þóttist þekkja »strút«
þusaðist mest og sat í kút:
»Á eg að sitja á svíni þessu,
sendimaður heimsins pressu!
Einhver Nílarnykrinn hér
næstum betur sómdi mér«.

*Luxor*, *Déndera*, *Sakkara*,
*Edfú*, *Assúan* og *Phile*
vil ég öllum fram hjá fara,
fyrst er bezt ég hugann hvíli
áður en byrjar sjálf *Sa-hara*.

Þú hefir heyrt, að þegar lestir
þylja brendar eyðimerkur
vofir yfir voði sterkur,
vindurinn *Samum*. Þá sem kestir
þyrlast öldur upp af sandi
eins og stórbrim berst að landi;
og er rokið rætur festir
rísa hryggir, mynda stræti;
milli fjörs og feigðar veður

---

1) Karavanar kallast eyðimarkalestirnar, en dragómanar **kallast túlkar Araba** (og Tyrkja).

lestin nú á feigum fæti,
fyrri alda leifar treður;
líf og hel þær hrikaþústir
hafa reist sem borgarrústir;
rifjahylki, hnútur, leggir
hlaðast upp sem skrípaveggir,
hausaskrifli, skorum stöfuð,
skaga fram sem súlna höfuð,
jötunsgin með tannatinda
turnaskörð og svalir mynda;
steindar tær og stirðir fingur
standa fram sem barnaglingur,
stundum eins og feigðarfána
flíkur sjást við loftið blána.

Hugsa þér nú öll þau undur
una í ró við hitans tundur,
hugsa þér þá grafargeima
gamla lífsins fornu daga,
þar er, sjáðu, þeirra saga.
Þetta er ferð — um suðurheima!

Þetta er hún — og þessi saga:
Það er mælt, í elztu daga
feikna stríðsher frækn og sterkur
færi þessar eyðimerkur.
Hofgoðarnir fremst í för
fluttu spjöld með goðasvör,
jöfurguðir, guðajöfrar
gengu næst, en mestir töfrar
*Ósíris* og *Ísis* fylgdu,
önnur goð sem lúta skyldu:
*Hórus*, *Thme* og *Hathor*, *Ptah*,
*Hammon Re* og *Ammon Ra*
uppi gnæfðu á úlföldunum,

allra stærstu þó, að vonum.
Síðan stefnir suður um land
sagður her, né ugði grand.
*Apis* fylgdi eftir Níl
óvígan með þrælaskríl, —
goðaþjór hins gamla lands,
gullin lýsti krúna hans.
Meðan entist urið land
áður en herinn lagði á Sand
reis upp hofa og hörga fjöld
hvar sem liðið festi tjöld.
Sfinxar, varðar, súlnamergð
sungu lengi um þessa ferð
sigurljóð, sem letri greypt
löngu hefur tíðin steypt.
Þó sjást enn svo undrast lýður
ægilegar pýramiður
standa yfir steindum gröfum,
storka tímans Rauðahöfum.

Og um herinn hermir sagan:
heiftarstormur norðri frá
féll yfir liðið fyrir dagan
firnasands með reginsjá;
klerkar ærast, kominn dauði,
karavanar beint í strand,
Faraós hús með her og auði
hrynur undir djúpan sand.
Síðan fornum hilmi hefur
haldið föstum dauðans spenning
og með frægum fylki sefur
fjögur þúsund ára menning.

Fram hjá þessum firna leifum
fórum vér að Nubíu kleifum,

allri rausn og alúð hrestir
Egiptanna jarlsins gestir.
*Fellah-* lest vér sáum svífa
sandsins haf við *Abydoss;*
*Karnaks* súlur sunnar hlífa
sands við roki létum oss.
Þar var nóg af beinabútum,
borgarrústum, tröllahnútum;
*Luxors* fundum háu höll,
þræla hræin hlekkjuð sáum
horfa fram úr klettum gráum.
En sú þögn! Og þó við dundi:
Þannig *transit gloria mundi*!

Síðan hefur land úr landi
lengi fylgt mér spurning sú,
sem ég ætla að svara nú
og sem fyrri fann minn andi:

Enn úr kerru þrumar Þór
þegar regin stríð oss boða,
enn er hinna grísku goða
máttur haldinn meginstór.
*Seifur* enn á sögustól
situr efst á Kapítól,
ýmist »tonans« eða »stator«,
veldur enn þá vindi og sól.
En þeir gömlu, *Hórus Hathor*,
hvorugs þeirra er lengur minst,
af þeim engin fjöður finst.

Svarið færist nær og nær:
Sá sem manndómsviljann vantar, —
sá sem aldrei í sig fær

ást og hatur, sorg og gleði,
eðlismerkin skýr og skær, —
þar af enginn gróður grær,
guðir, hetjur, gauð né fantar!

Er hún *Júnó* ekki sönn
er hún stendur há og grönn
lymskan ver hjá *Ledu* fleti?
eða *Mars* við ástar önn
undir gullnu töfraneti?

Goðin út' í Egiptó
voru n ö f n og ekkert annað,
því, að v i n n a var þeim bannað,
vera til, það var þeim nóg,
eða sitja eins og trúður,
eða stroknar, hljóðar brúður
inst við hofsins arinþró;
nef sem haukur hafði einn,
haminn annar bar af strúti;
daga og nætur, inni og úti
ótal guðir, þótt ei neinn
köllun hefði — leyfi að l i f a,
lifa og starfa, strita, svamla,
stríða sér til gagns og þrifa.

Fyrir því liggur landið gamla
fjögur þúsund eftir ár
eins og steindur smurlingsnár.

Sjáðu nú, mín fagra frú:
hér í þröngri herkvíinni
hef eg líka grafið inni

höfuð mitt og heilabú.
Eins og fjaðrafok á haustin
flýr öll gleði, jafnvel raustin.
En með köflum andinn grillir
aftur vor, sem skóginn gyllir;
yfir kæfða karavana
kný því vonar úlfaldana.

Lögum bundin lífsins göng
líkast skrúfuriðum ganga,
æði-sein er leiðin langa
upp á við, og afar þröng;
markið sýnist æ því ofar
eftir sem í lofti rofar.

Og nú finst mér að vér séum
orðnir líkir vargi' í véum
og vér stöndum enn á fróni
yfir höfði Faraóni.
Guðinn heldur gömlu sæti,
gildi manns og yfirlæti —
er ei það á feigum fæti? —
skrípaher, sem ærist, erjar,
úðrar, stritar, berst og herjar,
lofar miklu meir en efnir;
múgurinn aldrei veit hvert stefnir
Svo eru hlaðnir sigur-varðar
svo að skiljist framför jarðar,
þó að dynji sog í sárum,
svitalækjum, blóði og tárum.

Þetta gildir glíman harða
guð og kónginn sinn að jarða!

Hér er kominn karavaninn;
kannist ei við guðinn *Hórus?*
eða fánans fagra *chórus*,
sá er honum syngur vaninn?
Hvílík minnismerki reisa
menn þar sigurherrar geisa!
Gervöll þjóð á tjá og tundri,
börnin, konan hver og ein
helga vill sinn litla stein
sigurhofsins heildar undri.
Enginn efar trú sé teikningin
og tölur þær sem jafna reikninginn.

Alt er stórt og yfir það,
allur heimur starir hissa, —
eða hvað? mun engin skyssa
orðin hér ef gætt er að?
Efinn fer á stað að stikla,
staldrar við, og loksins spyr:
er þá m i k i ð þetta mikla?
Nei! því hvað er stórt við styr?
Ekki verksins brak og bylur,
heldur manndóms merkin full,
meira verð en rauðagull,
sem í afreksdáð sig dylur.

Þessir miklu þýzku skarar,
þeir sem geistust París mót —
hver mun sýkn í sigri farar,
sé það dæmt frá neðstu rót?
Hvar var kappans gullna gildi,
göfgin sú er aldir frægja,
hvar sem fólk sér mælir mót.

Mikla valdið — mun það nægja?
mikla kænskan — til að spæja?
hundaþvagan þykk og svöng
þótt hún rati á veiðarföng? —

Veiði þá og veiðarfæri
veit eg ekkert skáld er stæri,
um það eitt, sem á að lifa,
orka menn að kveða og skrifa.
Minnumst Gústaf Adólf á
og hans kappa, skoðum þá;
sjáum fangann suður í Bender,
sjáum Péturs Wessels þrótt
þegar hann brýtur borg um nótt,
og á »Kongadjúpi« Dana
drengi þá sem hlógu að bana:
aldaskifta »skírdagsslaginn«,
skáldmæringa nýársdaginn!

Því næst skoðum þessi hjú,
bæði Fritza, Blumenthala,
berserki og generala,
teljum eitt og tvö og þrjú:
Glögt eg þekki grafarfarfann
gegnum Prússans fánaklút,
sá og aldrei lyrfularfann
ljóssins álfum klekja út.
Silki þó um sinn þeir spinni,
samt þeir deyja í vefnum inni.

Vopnasigur sáttum eyðir,
sverðið Prússa slær og deyðir.
Aldrei sprettur andans lyfting
upp úr reiknings brotaskifting.
Enginn listaróður fæðist
ef, þá frelsisloginn glæðist,

vakna fegurð, von og þrá,
öllu er breytt í hundvís hylki
harðstjórans í hverju fylki,
eins og Moltke úr orra-óði
arnsúg skáldsins kæfði í blóði.

Svo eru ragnarökin hörð,
rík og dul í veröldinni:
sfinxinn, hann sem heldur vörð,
hnígur undir gátu sinni.

Reikningssigur! Sá fær dóminn —
sem vér heyrum annan róminn;
goðahyskið hremmir fjandinn
hvenær sem hann blæs á sandinn.
Bismark og hans æðstu kallar,
eins og Memnons súlur allar
setjast mun á sögustólinn
söngvalaus þó ljómi sólin.

En sem ég og jarlsins gestir
jólaboðsins nutum hrestir,
gleymdum öllu fornu fári
fagnandi því nýja ári,
hengdum fána hátt á stöng,
heyrðum Skurðsins vígslusöng,
nýrrar aldar helga hylling,
hrifnir djúpt af andans lyfting,
tveggja álfa eining, gifting:
eins og vér á Suez strönd
hlutum þessa fagnaðs fylling,
verður sama síðar meir,
er menn sigra loft sem leir,
gjörvöll lönd og lýðir mætast,
lofsöngvum og samúð kætast,
fyrirheitna foldin skær
færist óðum nær og nær.

Því að f e g u r ð þráir tíðin,
þótt því neiti Bismarks stríðin.

Hvort við munum hittast? Hvar?
Heilla frú mín, bréfsins dúfa,
hún er stopul; heyrðu ljúfa,
bíðum meiri birtingar.
Hér eg bíð og hýrist inni,
hanzka ber úr fáðu skinni,
hugsa lítt um heimsins æði,
rita ljóð á rósarblað.
Seint mun heima sefast reiðin,
sagt mun víst að eg sé heiðinn.
Eg hef beyg af borgarílnum,
bý sem lengst eg get frá skrílnum
vil því fá að vera í næði,
velkja ei mín brúðkaupsklæði.

Og svo: farðu, frú mín, vel!
Fljúgðu, gandreið, loftsins veg,
guða og skálda Garðaríki;
norður beint og niðr að sýki
nefndu, »Lögur«, gistu þar;
þar mér beini boðinn var
betri en upp við Dofra sel.
Far svo bæði fljótt og vel!

Belgur lyftist, byrjar för.
Beri' hann aftur mér þau svör,
að fluglétt hafi flutt minn sálm,
og fest sinn bát við Norðurmálm.

# Mál og menning.

Eftir *Bjarna Jónsson* frá Vogi.

(Alþýðufræðsla Stúdentafélagsins).

---

Háttvirtir áheyrendur!

Eigi skal hér um það rætt, hvert sé insta eðli hugsunar. En víst er um það hún er máttug í eðli. Þó mun það vera henni mestur aflgjafi að hún er ósýnileg og getur því dulist, þegar þörf krefur. Svo er þó hér sem oft verður, að mestu kostirnir eru á aðra hliðina ókostir, og getur svo farið stundum, að þeir yfirgnæfi. Svo er um ósýnileik hugsananna. Því að oss verður einmitt hans vegna erfitt að láta þær í ljósi við aðra, og liggur þar þó oft mikið við. Er það oft hið mesta tjón, að mennirnir geta eigi beinlínis s é ð fegurstu hugsjónirnar, því að þá yrði þær skýrari og fylgisælli, ef almenningur gæti s é ð þær í allri fegurð og skilið, að þær fá honum gnótt

»máls ok mannvits
or Mímis hjarta«.

En hugsanir skynjar engi, nema eftir merkjum og táknum. Verða þau aldrei svo ljós og nákvæm að hugsunin missi einskis í, þá er hún færir sig í skynjanlegan búning. Lætur Ibsen Játgeir, íslenzkt skáld, í »Konungsefnum« sínum, lýsa þessu, er hann segir að ó o r t k v æ ð i sé fegurst. Kvæðið rennur upp í hug skáldsins eins og skínandi dagsbrúnin færist yfir austurloftið, en þá undrafegurð megnar hann ekki að sýna öðrum. Þá geisladýrð sjá engi augu, nema hugskotssjónir skáldsins sjálfs, því að öðrum getur hann eigi gefið kost á að njóta fegurðarinnar

nema með táknum. En táknið er ekki hluturinn sjálfur, og verða því ortu kvæðin aldrei jafn fögur sem þau óortu.

Þessi ókostur hefir þó einn kost. Honum er fljótlýst með dæmi. Hugsum oss undurfagran foss. Engin lýsing í orðum má jafnast við það, að sjá fossinn. En ef fossinn hverfur og sjónarvottar að fegurð hans deyja, án þess að þeir hafi reynt að lýsa henni með merkjum eða táknum (þ. e. litum eða orðum), þá er öll vitneskja um þessa fegurð horfin og verður aldrei framar neinum til auðs né yndis. Svo færi og um hugsanir, ef þær geymdist eigi í skynjanlegum táknum, og mundum vér þá engi not hafa af hugsanaauði fyrirrennara vorra. En nú hafa tákn þeirra geymst og geymast löngu eftir þann tíma, er sú vitund sloknaði, sem alið hafði hugsunina.

Tákn hugsana eru mörg og harla ólík, og má þar hver maður athuga af eigin reynslu, hvernig hann kemst fyrir hug og vilja annara. En þau tákn, sem geymast, eru: myndir og mál. Þótt myndir geymist afarlengi, einkum úr eiri og steini, þá er þó málið lífseigara. Og engi saga um kyn mannanna er svo gömul, að málfræðin geti eigi bætt kafla framan við hana, nema sú saga, sem steingjörvingar kunna frá að segja.

Mynd sýnir aldrei nema eitt augnablik, og yrði oss því skjótt vant húsnæðis, ef segja ætti nákvæmlega frá langri sögu í myndum. Og sýnileg tákn mundu ætíð verða of umfangsmikil, þótt þau sé betri en ekki (sbr. málleysingja). Eyrað var hér betur fallið en augað, og hljóðið reyndist nákvæmast og handhægast tákn fyrir hugsanir. Hljóð flokkast saman í orð, en orð í tungumál. Tungurnar eru fullkomnasta tákn hugsana vorra.

Nokkur dæmi þess set eg hér, hversu geymin tungan er á hugsanir og fróð um sögu þjóðanna.

Orðtök, málshættir og einstök orð geyma þráfaldlega merkileg atriði úr menningarsögu og sögu þjóðanna, og jafnvel um gróður landanna. Eru fjölmörg dæmi slíks bæði í íslenzkri tungu og öðrum tungum, en hér er eigi

rúm til að telja mörg þeirra. Þó verður að nefna eitt eða tvö til skilningsauka.

Háttvirtir áheyrendur, athugið íslenzka orðið b r u l-l a u p. Í þessu orði er fyrra *l*-ið orðið til af hljóðlíking (assimilation), því að *ð* hljóð hefir þar líkst eftirfarandi *l*-hljóði og orðið eins. Orðið var upprunalega b r ú ð (h) l a u p Í þessu orði felst nú endurminning um þá tíma, sem voru áður en sögur gerðust, þá er hver maður nam sér konu eða rændi. Var þá oft þörf á að hraða ferðinni. En löngu eftir þann tíma, er menn rændu eigi framar konum, hélzt orðið og siðurinn, en þá var konuránið framið í leik. Brúðguminn kom þá á heimili brúðarinnar, þar sem brullaupsgestirnir voru saman komnir, tók brúðina og hljóp á stað með hana, og hinir eltu svo, alt í leik. Þetta mun nægja til þess að gera mönnum ljóst að þetta orð felur í sér merkilegan kafla úr menningarsögu þjóðanna.

Annað orð þýðir sama á vorum dögum. Það er orðið b r ú ð k a u p. Það orð segir oss greinilega frá því, að einu sinni var það venja, að »mey skal mundi kaupa«. Þar er annar sögukafli um sama menningar atriði.

Athugið nú og orðið h o l t. Allir vita að það þýðir nú grjóthæð eða grýttan og sendinn hól. En hvað þýddi þetta orð á landnámstíð? Þá þýddi það: s k ó g u r. Bæjanöfnin Holt, Hjarðarholt o. fl. sanna þetta, Svo segir í Laxdælasögu 24. kap.: váru þar ok skógar miklir nökkuru ofar en Höskuldsstaðir eru, fyrir norðan Laxá. Þar var höggvit rjóðr í skóginum, ok þar var nálega til gers at ganga, at þar safnaðist saman fé Ólafs, hvárt sem veðr vóru betri eða verri. Þat var á einu hausti, at í því sama h o l t i lét Ólafr bæ reisa ...«. Það hlýtur að þýða: at í þeim sama s k ó g i o. s. frv., því að áður var nefnt rjóður en eigi holt, og holt hefir aldrei getað verið sama sem rjóður. — Full sönnun þess, að holt sé skógur, er í þessum málshætti: »Oft er í holti heyrandi nær«. Ekki er hætt við því á þeim stöðum, sem nú nefnast holt. En í skógi getur heyrandi verið ósénn á næstu grösum. Þetta sést og á þýzka orðinu h o l z (= holt), sem er v i ð u r,

vanalega (höggvinn) eldiviður, en getur og (í fleirtölu) verið skógur. Gehölz er skógur. — Þér sjáið þá að orðið holt fræðir oss um að á landnámatíð hafi víða verið skógur, þar sem nú er enginn. Þetta vitum vér og af fornum ritum, en vér mundum og mega ráða það af þessu orði, þótt þau léti þess hvergi getið.

En sjá má þó enn skýrari merki þess, hvert stálminni tungan hefir. — Þegar tungur þjóðanna eru bornar saman, þá kemur það í ljós, að mannfólkið í heiminum skiftist í stóra kynflokka. Þetta sjáum vér raunar af öðrum einkennum, en bæði styrkir samanburður málanna það og er tungan þar að auki einna skýrasta og áreiðanlegasta einkennið. Vér, Íslendingar, erum ein lítil grein á afarstórum ættbaðmi, sem kvíslast víða og breiðir greinar sínar yfir mestan hluta Norðurálfu og mikil landflæmi vestan og sunnan á Austurálfu og norðurhluta Suðurálfu. Hefir hann og á síðustu öldum teygst yfir nokkurn hluta Eyjaálfunnar, suðurhluta Suðurálfu og mestan hluta Vesturheims. Margar eru greinar á þessum þjóðastofni, og verða þær eigi allar taldar hér. En tungur allra þessara þjóða eru náskildar og hafa málfræðingar skift þeim í tíu flokka: 1. Indverski flokkurinn, 2. íranski fl., 3. armenski fl., 4. gríski fl., 5. Illiríu fl., 6. ítalski fl., 7. keltneski fl., 8. germanski fl., 9. baltiski eða Litavíu fl. og 10. slafneski flokkurinn. Þessir flokkar eru þó aftur flokkaðir í stærri höfuðgreinir. Einn frægur málfræðingur reyndi að sýna ættbaðminn með skyldleika hlutföllum málanna innbyrðis og afstöðu þeirra við sameiginlegan stofn sinn, teiknaðan sem tré. En hvort sem menn fylgja nú hans greining eða nokkuð annari, þá eru menn sammála um að öll þessi mál hafi kvíslast út frá einu frummáli, og hafa menn reynt að búa það til eftir yngri málunum. Þetta frummál talaði sú þjóð, sem allar hinar eru frá komnar.

Hér eru nokkur dæmi þess, hversu menn rekja saman málin:

I. Nafnorð og

| Eintala | Frummálið | Fornindv. | Gríska |
|---|---|---|---|
| Nefnifall | *maté(r) | matá | μήτηρ (mētēr) |
| Ávarpsfall | *máter | mátar | μῆτερ (mēter) |
| Þolfall | *matérm̥ | mātáram | μητέρα (mētera) |
| Eignarfall | *matrés -ós og *matr̥s | mātúr | μητρός, μητέρος (mētros, mēteros) |
| Firringarfall | *matrés -ós og *matr̥s | mātúr | μητρός, μητέρος (mētros, mēteros) |
| Þágufall | *matraí | mātré | [μητέρι, — τρί] (mēteri, — tri) |
| Staðarfall | *matéri — trí | mātári | μητέρι, — τρί (mēteri, — tri) |
| Verkfærisfall | ? | mātrá | [μητέρι, — τρί] (mēteri, — tri) |
| Tvítala Nefnifall Þolfall | ? | mātárāu —— ā | μητέρε (mētere) |
| Fleirtala Nefnifall | *matéres | mātáras | μητέρες (mēteres) |
| Þolfall | *matr̥ns | matr̥ʃ | μητέρας (mēteras) |
| Eignarfall | *matróm | mātr̥ṇam | μητέρων (mēterōn) |
| Staðarfall | *matr̥su | matr̥ʃu | μητράσι (mētrasi) |
| Þágufall Firringarfall | bh- og m-mynd | matr̥bhyas | μητράσι (mētrasi) |
| Verkfærisfall | bh- og m-mynd | mātr̥bhiʃ | [μητράσι] (mētrasi) |

nafnorðabeyging.

| Latneska | Fornslavn. | Gotneska | Íslenzka |
|---|---|---|---|
| *māter* | *mati* | *fadar* »*faðir*« | *móðir* |
| *māter* | *[mati]* | *fadar (?)* | *móðir* |
| *mātrem* | *matere* | *fadar (?)* | *móður* |
| *matris* | *matere* | *fadrs* | *móður* |
| *[matre]* | *matere* | *fadrs* *[fadr]* | *móður* |
| *matri* | *materi* | *[fadr]* | *móður* |
| *matre* | *materi* | *fadr* | *móður* |
| *matre* | *matereja* | *fadr* | *móður* |
| | *materi* | | |
| *mātrēs* | *materi* lit. *móters* | *fadrjus* | *mæður* |
| *mātrēs* | *materi* | *fadruns* | *mæður* |
| *mātrum* | *materö* | *fadrē* | *mæðra* |
| *[mātribus]* | *materechö* | *[fadrum]* | *[mæðrum]* |
| *mātribus* | *materemö* | *fadrum* | *mæðrum* |
| *[mātribus]* | *materemi* | *fadrum* | *mæðrum* |

II. Dæmi úr

| Eintala | Frummálið | Fornindv. | Gríska |
|---|---|---|---|
| Nefnifall | **so* | *sá* | ὁ<br>*(ho)* |
| Þolfall | **tom*<br>**tod* hk. | *tám*<br>*tád* | τὸν, το<br>*(ton, to)* |
| Eignarfall | **tesio* | *tásya* | τοῖο τοῦ<br>*(tojo tū)* |
| Firringarfall | **tōd*<br>**tosmōd* | *tād* (atvo.)<br>*tásmād* | τῶδε<br>*(tōde)* |
| Þágufall | **tosmōi* | *tasmāi* | τῷ<br>*(tō)* |
| Staðarfall | **toi*<br>**tosmi* | *tásmin* | ποῖ, τεῖδε ao., [τῷ]<br>*(poī, teīde, tō)* |
| Verkfærisfall | **tom*<br>**toimi* | av. *kam ta*<br>*téna* | τῷ, τῇδε ao., τῷ<br>*(tō, tede, tō)* |
| Tvítala<br>Nefnifall<br>Þolfall | **tou *to*<br>**toi* hk. | *taú tá*<br>*té* | τώ *(tō)*<br>τώ *(tō)* |
| Fleirtala<br>Nefnifall | **toi* | *té* | τοί, οἱ<br>*(toj, hoj)* |
| Þolfall | **tons*<br>**ta* hk. | *tān*<br>*tá, táni* | τονς, τούς, τά<br>*(tons, tūs, ta)* |
| Eignarfall | **toisōm* | *teſam* | τῶν<br>*(tōn)* |
| Staðarfall | **toisu* | *téſu* | τοῖσι [τοῖς]<br>*(tojsi tojs)* |
| Þágufall<br>Firringarfall | **toi-bh-m.* | *tebhyas* | [τοῖσι, τοῖς]<br>*(tojsi, tojs)* |
| Verkfærisfall | **tois*<br>**toi-bh-m.* | *taíſ*<br>*tebhiſ* | τοῖς, [τοῖσι]<br>*(tojs, tojsi)* |

f o r n ö f n u m.

| Latneska | Fornslavn. | Gotneska | Íslenzka |
|---|---|---|---|
| *iste* | *tŏ* | *sa* | *sá* |
| *istum*<br>*istud* | *tŏ*<br>*to* | *þan-a*<br>*þat-a* | *þann*<br>*það* |
| *istīus* | *togo* *ceso*<br>lit. *tõ* | *þis* | *þess* |
| *istō(d)* | *togo* [*ceso*]<br>lit. *tõ* | [*þis*]<br>*þamma* | *þeim*<br>*því* |
| [*isti*] | *tomu*<br>lit. *tamui* | *þamma* | *þeim*<br>*því* |
| *hi-c* ao.<br>[*istō(d)*] | *tomě* | *þei* ao.<br>[*þamma*] | *þar* ao.<br>[*þeim*] |
| *quō* ao.<br>[*isto(d)*] | *temě* | *þe* ao.<br>[*þamma*] | *þeim*<br>*því* |
| | *ta*<br>*te* | | |
| *istī* | *ti* | *þai* | *þeir* |
| *istōs*<br>*ista* | *ty*<br>*ta* | *þans*<br>*þō* | *þá*<br>*þau* |
| *istōrum* | *techŏ* | *þize* | *þeira* |
| *istīs* | *techŏ* | [*þaim*] | *þeim* |
| [*istis*] *ībus* | *temŏ* | *þaim* (?) | *þeim* |
| *istīs* | *temi* | *þaim* | *þeim* |

| | | Frummálið | Fornindv. | Gríska |
|---|---|---|---|---|
| Nútíð | Eintala | 1. **bherō* | *bhárāmi* | φέρω *(fero)* |
| | | 2. **bheresi* | *bhárasi* | φέρεις *(fereis)* |
| | | 3. **bhereti* | *bhárati* | φέρει *(ferei)* |
| | Fleirtala | 1. **bheromes(i)* | *bharamās(i)* | φέρομες, -μεν *(feromes, -men)* |
| | | 2. **bherete* | *bháratha* | φέρετε *(ferete)* |
| | | 3. **bheronti* | *bháranti* | φέρουσι *(ferūsi)* |
| | Tvítala | 1. **bheroves* | *bháravas* | [φέρομες, -μεν] *(feromes, -men)* |
| | | 2. **bheretes* | *bháratas* | φέρετον *(fereton)* |
| | | 3. **bheretes* | *bharatas* | φέρετον *(fereton)* |
| Þátíð | Eintala | 1. **ebherom* | *ábharam* | ἔφερον *(eferon)* |
| | | 2. **ebheres* | *ábharas* | ἔφερες *(eferes)* |
| | | 3. **ebheret* | *ábharat* | ἔφερε *(efere)* |
| | Fleirtala | 1. **ebherom* | *ábharāma* | ἐφέρομεν *(eferomen)* |
| | | 2. **ebherete* | *ábharata* | ἐφέρετε *(eferete)* |
| | | 3. **ebheront* | *ábharan* | ἔφερον *(eferon)* |
| | Tvítala | 1. **ebherow-* | *ábharāva* | [ἐφέρομεν] *(eferomen)* |
| | | 2. **ebheretom* | *ábharatam* | ἐφέρετον *(efereton)* |
| | | 3. **ebheretam* | *abharatam* | ἐφερέτην *(eferetēn)* |

| Latneska | Fornslavn. | Gotneska | Íslenzka |
|---|---|---|---|
| *fero, ago* | *bera* | *baira* | *ber* |
| *fers, agis* | *berefi* | *bairis* | *ber* |
| *fert, agit* | *beretö* | *bairiþ* | *ber* |
| *ferimus, agimus* | *beremö* | *bairam* | *berum* |
| *fertis, agitis* | *berete* | *bairiþ* | *berið* |
| *ferunt, agunt* | *beratö* | *bairand* | *bera* |
| *[ferimus, agimus]* | *bereve* | *bairos* | *[berum]* |
| *fertis, agitis* | *bereta* | *bairats* | *berið* |
| *[ferunt, agunt]* | *berete* | *[bairand]* | *[bera]* |
| *ferebam* | *vezö »vexi«* | | *bar* |
| *ferebas* | *veze* | | *barst* |
| *ferebat* | *veze* | | *bar* |
| *ferebamus* | *vezomö* | | *bárum* |
| *[ferebatis]* | *vezete* | | *[báruð]* |
| *ferebant* | *veza* | | *báru* |
| *[ferebamus]* | *vezove* | | *[bárum]* |
| *ferebatis* | *vezeta* | | *báruð* |
| *[ferebant]* | *vezete* | | *[báru]* |

Á þessum dæmum má sjá skyldleikann, bæði í orðaforðanum (stofnum og rótum) og í meðferð þeirra. En auk skyldleikans má rekja margt annað eftir samanburði málanna. Einkum hafa menn reynt með þessu móti að komast að því, á hverju menningarstigi frumþjóðin var, áður en hún tók að greinast sundur í ýmsar skyldar þjóðir. Nefni eg hér fáein höfuðatriði.

Fyrst er þá um það spurt, hverja málma frumþjóðin hafi þekt. Verður þá að bera saman heiti málmanna á ýmsum tungum. Þar sem sama heitið rekst eftir réttu hljóðlögmáli í gegn um öll eða flest málin alla leið upp til frummálsins, þá ráða menn þar af, að frumþjóðin hafi þekt þann málm. — 1. Járnið þekti hún ekki. Málin hafa sitt heitið hvert á því, ferrum á latínu (og rekja sumir það til *barzel* í hebresku), σίδηρος (sidēros) á grísku (einangrað heiti). Germanska orðið er og í keltnesku, á fornírsku iarn af *isarn, sem er upprunalega orðmyndin í þýzku málunum (sbr. ísl. járn). — 2. Silfur þekti frumþjóðin eigi heldur. Það heitir argentum á latnesku, ἄργυρος (argyros) á grísku, hliðstæð orð af sömu rót, á sanskrít rajata; á ísl. silfr, litavsku sidabras (sama orð); á slavnesku serbro, á rússnesku serébro. Í öllum málunum þýðir þetta: hinn hvíti málmur. En hér verða orðin eigi rakin saman, heldur er sitt úr hverri áttinni að kalla má, og þar sem þau eru sameiginleg, þá eru þau aðfengin hjá flestum þeirra, líklega úr löndunum við Svartahafið. — 3. Gull þekti hún ekki heldur, og fannst það þó fyrr en silfrið. Hér eru og hliðstæð orð, en verða eigi ættfærð eftir hljóðlögunum. Germ. gulþ (ísl. gull [líking]), hið gula; fornslavneska zlato (af *zolto), en germ. g = slavn. z; raddhljóðin standa þó eigi heima. Í arisku málunum er það hiranga (skr.), hið gula, zaranga (zend), hið gula, og χρυσός (chrysos) gr. telja menn af sömu rót, sumir segja það þó aðfengið úr hebr.; aurum = ausum (lat.), skínandi (skylt aurora, morgunroði); fornírska ór, úr latnesku; auksas (lit., k-i skotið inn). — 4. Eirinn þekti frumþjóðin. Heiti hans er sameiginlegt mörgum málum:

æs (lat.), aiz (gotn.), eir (ísl.), áyas (skr.), fornháþ. ēr. Í frummálinu hefir það verið *ayos (a[i]z). En þótt eirinn hafi verið þektur, þá finnast þess engi merki, að menn hafi þá kunnað að smíða úr honum. Því að engi slík heiti finnast, er bendi á það.

Þjóðin hefir því verið óskift í byrjun eiraldar, en steinaldarminningar eru langtum fleiri. Vopnaheiti þau, sem rekja má til frummálsins, eru steinaheiti: sk. açman, slöngusteinn (og açan) = gr. ἄκμων (akmōn), steðji, fyrr steinn til kasts (og ἄκων (akōn), skotspjót) = lit. aszmén, steinn = sl. (dálítið óreglulegt) kamen, steinn = ísl. hamarr, upprunal. steinn (sbr. hamrabjörg, hamrar, sbr. Mjölni). Þetta orð er frá þeim tíma, þegar frumþjóðin hafði skotvopn úr steini. Nöfn á egghvössum vopnum eru yngri.

Frumþjóðin hefir stundað mest fjárrækt, ekkert bendir á að hún hafi lifað á hjarðmannaflakki. Nöfn á fénaði eru samræk: skr. paçu = lat. pecus = gotn. faihu = ísl. fé; í frummálinu *peku. Skr. uksan = ísl. uxi. Skr. gāu, gō, gū = gr. βοῦς [β úr g.] (būs) = lat. bos. = ísl. kýr (kú); í frumm. *gou. Skr. aví-s = gr. οἶς (ojs) af ὄϝις (ovís) = lat. ovis = lit. avis = ísl. ær (þolf. á, af *avi); í frumm. *ovi. Þessi húsdýr hafa menn haft og auk þeirra hundinn: skr. çvan og çun = gr. κύων kyōn) og κύν (kyn) = lat. canis = ísl. hun*d*r (d skotið inn í milli n og r) = lit. szu og szun; í frumm. *kuon og *kun. Hesta hafa menn og þekt, en að líkindum eigi kunnað að temja þá, (til akuryrkju höfðu menn uxa): skr. açva-s = iran, aspa = gr. ἵππος (hippos) = lat. equus = ísl. jór (af *ehwa); í frumm. *ékwo.

Frumþjóðin hefir að líkindum þekt eitthvað til akuryrkju, en akuryrkjan hefir aukist mjög eftir að Norðurálfukvíslin skildist frá Austurálfukvíslinni, því að í þeim málum eru mörg akuryrkjuheiti sameiginleg, en arisku málin eiga ekki þau orð til: gr. ἀρόω (aroō) = lat. arō (ara-o) = ísl. erja, gr. ἄροτρον (arotron) = lat. aratrum = ísl. arðr. Lat. sero (sēvi) = ísl. sá; lat. semen = lit.

semén = ísl. sáð. Lat. far (cfr. farina) = gotn. baris = ísl barr (bygg). Þessar þjóðir hafa því plægt og sáð og ræktað bygg, áður en Norðurálfugreinin klofnaði.

Hjá frumþjóðinni hefir verið komið fullkomið skipulag á heimilislíf og hjúskap. Frændsemisheitin eru náskyld í flestum málunum: Skr. pitár = πατήρ (patēr = lat. pater = arm. hair = fornír. athir = gotn. faðar = ísl. faðir (= enska father = þ. Vater = Fader (n. og sv.)); frumm. *pətér. Skr. matár = arm. mair = μάτηρ (matēr) (dor) μήτηρ (mētēr) (att) = alban. motre (systir) = lat. mater = fornír. mathir = fornháþ. muoter = lit. mote (kona) = sl. mati = gotn. môðar = móðir (= e. mother = þ. Mutter = d., n., sv. Moder); frumm. *māter. Skr. sunus = gotn. Sunus = lit. sunus = sl. synu = ísl. sonr (= e. son = þ. sohn = d., n., sv. Sön); frumm. *sūnus. Gríska orðið υἱός (hyios) er af sömu rót, en hefir aðra viðbót. Skr. duhitar = sl. döſti = lit. dukté = gr. θυγάτηρ (þygatēr) = gotn. daúhtar = dóttir (= daughter = þ. Tochter = d., n., sv. Datter); frumm. *dhugh(a)tér [skr. duh- að mjólka, duhitar = mjaltakona]. Skr. bhrátar = sl. bratrö = fornír. brāthir = gotn. brōþar = lit. broter = ísl. bróðir (= e. brother = þ. Bruder = d., n., sv. Broder) = gr. φρατήρ, -ωρ (fratēr, -ōr) [félagi í φρατρία (fratria)]; frumm. *bhrāter. Skr. svásar = lit. sesu = sl. sestr-a = lat. soror (*svesor) = gotn. swistar (t sett inn í milli s og r) = ísl. systir (= e. sister = þ. Schwester = d., n., sv. Söster); frumm. *svesor. Skr. nepat = lat. nepos, neptis = fornháþ. nefo (*nepo), nift = ísl. nefi, nift (= e. nephew = þ. Nevö = d., n., sv. Nevö). Skr. çvaçuraſ çvaçru = gr. ἑκυρός (hekyros) = lat. socer, socrus = sl. svekry = gotn. swaihra = lit. szeszuras = ísl. sværa; frumm. *svekuró. Skr. snusa = gr. νυός (nyos) [fyrir σνυσος (snysos)] = lat. nurus = arm. nu = sl. snucha (ch úr s) = fornháþ. snur = ísl. snör.

Auk þess má sjá að kynkvíslir flokkuðust saman og höfðu sér oddvita: Skr. rajan (j úr g) = lat. rex (reg-s) = gotn. reiks (Theodorik = Þjóðrekr) sbr. ísl. ríkr.

Það má og nokkuð sjá, hvað frumþjóðin hefir kunnað. Ýmsar iðnaðargreinir þekti hún, þar á meðal trésmíð og húsagerð úr viði: skr. taksan = gr. τέκτων (tektōn) trésmiður. Hús er á skr. damá- = gr. δόμος (domos) = lat. domus = sl. domu; sbr. timbr á ísl.; frumm *domo. Skr. dvara- (ætti þó að vera áblásið d) = gr. θυρα (þyra) = ísl. dyr (= e. door = þ. Tür = d., n., sv. Dör). En alt hefir þetta verið gert úr tré. Vagnar voru og gerðir og notaðir: Skr. vaha- og vahana = gr. (Ϝ)οχος (v)ochos) = ísl. vag-n (= waggon = þ. Wagen = n., d., sv. Vogn, Vagn); frumm. *vogho (sbr. lat. veho). Skr. ratha = lat. rota = lit. rátas (flt. vagnar) = þ. Rad; lat. petor-ritum sem flyzt yfir í keltnesk mál. Skr. cakra = gr. κύκλος (kyklos) = egs. hveohl = ísl. hvel, hjól; frumm. *queqlo. Skr. akfa = gr. ἄξων (axōn) = lat. axis = lit. aszis = ísl. áss (öxl).

Eykirnir voru uxar. Nafn á okinu er sameiginlegt. Skr. yuga-m = gr. ζυγόν (zygon) = lat. jugum = gotn. juk = sl. igo (af *iŏgo) = ísl. ok (þ. Joch); frumm. *jugó-m.

Báta hafði frumþjóðin, en þeir hafa að eins gengið á ám og vötnum, því að hafið þektu menn þá ekki. Skr. naús = gr. ναῦς (nás) = fornír. nau = lat. navis = ísl. nau- (í naust). Segl höfðu menn ekki, en árar: Skr. áritra = gr. ἐρητμός (eretmos) = lat. remus = ísl. ár.

Vefa kunnu menn og. Skr. vabh- = gr. ὑφαίνω (hyfæno) = ísl. vefa. Saumanunnur voru og þá til sem nú: Skr. siv = lat. suo = gotn. sjujan = lit. siu-ti (nh), sauma; rótin *siu.

Trúarbrögð frumþjóðarinnar má og nokkuð sjá, þótt það sé eigi til neinnar hlítar. Fyrir víst má sjá, að þeir hafa tignað manngervingar himins, sólar, elds. Heiti hins æðsta guðs er skr. dēva-s = fornír. dia = lit. devas = lat. divus (deus) = ísl. tívar (Týr = tívr er eintala af því); frumm. *doivo eða *deivo. Þetta þýðir ljós eða birtu og er hliðstæð rót við *djev og *div, sem kemur fram í skr. dyaus = gr. Ζεύς (Zevs) [af ΔιϜ (div)] = lat. juppiter

(= jov-pater, sbr. skr. diaus pitá, faðir himinn). Heiti á eldi og morgunroða eru og sameign margra tungnanna.

Þá hafa menn og reynt að finna á sama hátt heimkynni frumþjóðarinnar. Hafa menn rakið af miklum lærdómi, en þó eigi komist að neinni áreiðanlegri niðurstöðu. Þó telur heimildarmaður minn, kennari minn í þessum fræðum, Vilh. Thomsen háskólakennari í Kaupmannahöfn, sannað að Austurálfugreinin hafi búið milli Hindukush og Kaspiahafs, en Norðurálfugreinin milli Königsberg og Krim, áður en þær klofnuðu hvor um sig, ráðið af bók (bæki) = lat. fagus = gr. φηγός (fegos). En bækitré óx á þessu svæði). Hitt telur hann vafasamt, að málfræðin geti fundið heimkynni frumþjóðarinnar.

En tungan ber eigi að eins vitni um fortíðina og hennar menningarstig, heldur og um yfirstandandi tíma, og flytur framtíðinni boð frá oss, sem nú lifum, og um oss. Akr, Akreyjar, Akranes, vitazgjafi og þess konar nöfn segja oss greinilega um kornyrkju hinna fornu Íslendinga. En eigi síður mun kaupfélag bera framtíðtíðinni sögu um verzlunarhreyfingar vorra tíma. »Ungmennafélag« mun og lengi geyma minninguna um þau samtök, sem það táknar; »steinsteypa« um húsagerð vora. Margt fleira mætti nefna, ef þörf gerðist. En þetta mun nægja hverjum manni til skilnings. Munu menn þá forðast að láta orðskrípi og slettur í þetta minningasafn, er beri ókomnum öldum vitneskju um vansa þjóðarinnar.

Það er mál manna að augað sé spegill sálarinnar, en hitt er engu síður víst, að tungan er spegill menningarinnar. Sú menning er holl og langlíf, sem er vaxin af eiginni rót, eða með öðrum orðum er gróðursett af þjóðinni sjálfri og hefir þróast jafnóðum og samferða þjóðinni sjálfri. Þar byggir nútíð á fortíð og býr framtíðinni í hendur. Slík menning getur þó dregið að sér þekking og lærdóm annarstaðar að. En hún fer með það á sama hátt sem líkaminn með fæðuna. Aðfenginn andans auður endurnærir hana og styrkir, en ber hana ekki ofurliði. — Heima-

alin menning, en auðguð með hollum hætti, er einkenni þeirra þjóða, sem leggja drýgstan skerf til heimsmenningarinnar. En til er önnur tegund menningar, sem vel má kalla aðfengna menning. Aðfengin menning hefir stundum lifað alllengi og vel, en þó eigi nema hún hafi innrætzt svo þjóðinni, að hún hafi samlagast siðum og máli þjóðarinnar. Dæmi þessa er menning Rómverja, og þó eigi nema að nokkru leyti, því að bæði hélzt tungan og þróaðist eftir eignum lögum sínum og meginatriði í siðum og venjum var heimaalið og átrúnaður að miklu leyti, þótt bókmentir og æðri menningaratriði væri að miklum mun aðfengin frá Grikkjum.

Hjá ýmsum þjóðum nútímans eru flestir meginþættir menningarinnar aðfengnir og gætir lítið þeirrar undirstöðu, sem þjóðin hafði lagt á fyrri öldum. Kemur þetta mestmegnis af því, að þær hafa týnt tungu sinni eða torkent svo, að þær hafa glatað fortíð sinni, glatað minninu um hana. En það minni er tungan.

Þá er að síðustu ein tegund menningar, ef menning skyldi kalla, sem vel mætti nefna síkjumenning. Það mundi vera illmæli að segja um nokkra þjóð, að hún hefði síkjumenninguna eina saman, en sumar eru nærri því. Hitt er satt sagt, að hún er rík hjá mörgum þjóðum, og nálega alstaðar reynir hún að vinna hollri menning mein. Síkjumenningin er bygð á því hugarfari og gáfnafari, sem þeir menningarfrömuðir hafa, er segja eins og strákurinn: »farðu bölvuð hrífa«, eða þeir sem »tyggja upp á dönsku«.

Þessi »menning« verður til, þegar uppskafningar kynnast erlendum siðum og tungum, en koma síðan heim aftur og líta þá smáum augum á sína eigin þjóð. Þeir þykjast þá hafa betra að bjóða. En raunar hangir það alt, sem þeir hafa lært, utan á þeim eins og jötunsúlpa á örgum þjófdverg. Og innan skamms fellur þessi »menning« þeirra af eins og hreistur.

Spegill þessarar síðustu menningar er tungumál, sem engu líkist: misskilið og skekt móðurmál, hrært saman við

aðflutt orðskrípi og erlend orð, sem forvígismenn hennar fara með eins og karlinn með kúna og sjöstjörnuna:

Sjöstjörnuna er meir en mál að mjólka núna,
í nónstað sá eg komna kúna.

Eg heyrði eitt sinn á tal manna um leikhús í einni höfuðborg heimsins:

A.: »Það er *bestemt mikið interessant forfatter*, sem hefir skrifað *nýja stykkið*, sem var *uppfært* í gær, það var *eitthvað so innsmigrandi* og samt *stórslegið* og *dramatiskt« um leið.*

B.: »Hann er *mikið pæn* og einstaklega *huggulegur* og hann *forþénar* að *gera lukku.* Og *stykkið* er bara *sætt* og *vittigt* og so voru *virkileg glimt* í *replikbehandlingunni* og það er nú það *vigtugasta fyrir rest.*

A.: »Þú segir *nokkuð.* Og það er mín *prívata meining*, að *stykkið* sé *utvivlsöm akkvisition* fyrir *senuna*, því það er *brilliant forretning* og *kassinn* hefir víst *bruk* fyrir dálitla *þénustu.*

B.: »*Akkurat.* Það er ekki *uppmuntrandi* fyrir *kunstnarann* að vera *upptekinn* við *niðurdragandi* æfingar og *generalprufur* og *irriterandi mangel paa forstaaelse* frá *publikumminu*, þegar á *senuna* kemur«.

A.: Þetta get eg *liðið.* Því þegar stykkið sjálft, *forfattarinn*, *instruktörinn*, *personurnar* og *dictionin* og *seneriið* er *sona líka pænt* og *huggulegt* og *þess utan* er nóg af *kvikkum* og *slönkum dömum* og *frökenum* í *móðins dröktum* og *lífum*, þá verður maður svei mér að vera *dumm*, ef maður á ekki að *uppdaga stemninguna*«

B.: »Eg er alveg *einugur* með þér í þessu. Og ef maður er ekki *dumrian* eða *klodrian* þá verður maður að *beundra* þessa *elegöntu musik í slutningsaktinum*«.

A.: »Sú *præstation* var nú líka *so fuldendt*, að leikarinn *yfirgekk* sjálfan sig, og þá var nú ekki heldur *spernerandi fingrafærdigheden* hjá *accompanjatrisunni*«.

Íbúar þessarar höfuðborgar munu kannast við þenna spegil, en hafa þeir gert sér ljóst, hvers konar menning speglast í honum.

Háttvirtu áheyrendur! Eftir því sem meira er af síkjumenning hjá þjóðunum, eða jafnvel aðfluttri sómasamlegri menningu, eftir því er meira af óskyldum orðum innbyrðis, sem eru borin eins fram[1]) og valda glundroða í hugsun, riti og ræðu og eftir því fleiri aðflutt orð með mörgum merkingum[2]), er valda misskilningi. Berið t. d. saman ensku og latínu, eða dönsku og grísku.

En spegill heimaalinnar menningar, líffrjórrar gróðursællar menningar eru slík mál sem latína, gríska og íslenzka.

Auðvitað mál er það, að allar tungurnar eru tákn hugsana, en þau tákn eru mjög misjöfn að gæðum. Er það auðskilið að langminnugu málin eru langtum fullkomnara tákn. Þau eru bezti kennari þjóðanna, því að þær drekka með móðurmjólkinni andarfar forfeðranna, er þær læra mál sitt. Tungan kennir og að flokka hugmyndirnar eftir skyldleika, því að í sjálfþroskuðu skýru máli flokkast þær sjálfkrafa í hugsunarrétt kerfi eftir orðgerðarlögum málsins. Íslenzk tunga er fremst í flokki lifandi tungna, og hún hefir í sinni þjónustu bæði mjúkleik og orðauð grískunnar og gleggvi og skýrleik latneskunnar. Hún hefir verið samferða norrænni menningu frá upphafi og er því sú lengsta menningarminning, sem til er í vorum þjóðabálki nú á dögum, elzta lifandi, töluð tunga.

Hér er eigi staður né tími til þess að telja alt ágæti norrænnar menningar, enda ætti að vera óþarft, þar sem talað er við Íslendinga. Því að hér hefir hún náð hæst. — Eg mun velja Völund fyrir fulltrúa norræns anda. Hann sat einmani í Úlfsdölum og þráði konu sína, en ekki var hann iðjulaus, því að hann gerði þar hvern dýrgripinn eftir annan.

Hann sló gull rautt
við gim fastan,
lukði hann alla
lind baugum vel;
svá beið hann
sinnar ljósrar

[1]) Auction, action; frb. axión. [2]) Politik.

kvánar ef honum
of koma gerði.

Hann geymdi alla smíðisgripi sína á ræmu af lindibasti (lukði lind), og þar geymast þeir meðan lindibastið heldur, en falla niður ef það slitnar.

Íslenzkan geymir með sama hætti snildarverk norræns anda.

Hún er forngripasafn, sem geymir gimsteina fornrar menningar.

Hún er kennari og skóli í réttri hugsun og yrkir jafnvel fyrir menn.

Hún er lifandi lindibast, sem á eru dregnir allir baugar, öll völundarsmíð hinnar norrænu kynkvíslar og Íslendinga sérstaklega.

Þetta lindibast er lifandi og er því undirorpið sýkingarhættu. Tæringargerill þess er sníkjumenningin. Ef það sýkist, þá er heilsuhælið trygð og sjálfstæðismetnaður Íslendinga, en læknislyfið er sívakandi áhugi hvers einstaks manns og allra vor samhugur um það, að »Íslendingar viljum vér allir vera«. En þá er og vitaður bati.

Aths. Töflurnar hefi eg tekið úr Karl Brugmann: Kurze vergleichende Grammatik der indogermanischen Sprachen. Hann sýnir með þeim beygingarendingar eingöngu, en eg hefi bætt inn í á stöku stað orðum, þótt aðra hafi beyging, til þess að sýna skyldleikann. t. d. latn. fero (nútíð óregluleg, þátíðarending -bam o. s. frv.) er viðtengt orð en eigi ending. — Hljóðtákn vantaði nokkur, þar eru sett næstu hljóð úr öðru letri. — Annars er samanb. málanna eftir fyrirlestraheftum mínum frá Vilh. Thomsen. Ef villur eru, þá eru þær auðvitað mér að kenna, en ekki honum. [ ] táknar það, að notuð fallmynd eða sagnmynd sé upprunalega annað fall eða önnur tala.

# Þorsti.

Æfintýri.

---

Hann var rétt að eins nývaknaður til meðvitundar um sérveru sína, þegar sálarlöngunin hans, lítil og rjóð, reis upp við olnboga, deplaði framan í hann björtum barnsaugunum og bað um að drekka.

Hann kallaði á bernskuleikina sína limamjúku, og bað þá að gefa litlu elskunni sinni að drekka!

Þeir komu, léttstigir eins og norðurljósin, með skæra kristallsbikarinn sinn, barmafullan af lifandi lindarvatni og hölluðu að vörum hennar.

Hún saup á og augun hennar ungu ljómuðu af lífsgleði og nægjusemi. Hýrleit og hlakkandi drakk hún lifandi lindarvatnið barnaleikanna kátu, en fljótt hægði hún á sér, ýtti öllu frá sér, óeirðarleg, og sagði að vatnsdauft væri þetta. Hún vildi fá eitthvað annað.

Þá kallar hann á æsku-íþróttirnar sínar, fasmiklar og fjörlegar, og segir þeim að svala elskunni sinni litlu!

Þær þustu að og færðu henni freyðandi aldinlög í fögrum postulínsskálum, lutu sálarlönguninni litlu, og sýndu henni hve drykkurinn ólgaði og sauð eins og hver, og sögðu að hún skyldi svala þorstanum.

Hún varð hress og fjörug af freyðandi drykknum og teigaði stórum. Alt í einu var eins og hún vildi ekki við honum líta. Hún varð hljóð og hugsi, reikaði einsömul og mændi út í bláinn.

»Hvað í ósköpunum ætli að nú ami að henni«, hugsaði hann, og yfirvegaði háttalag hennar, en hún leit á hann hyldjúpum, feimnum óþreyjuaugum og þagði.

»Hvað gengur nú að þér, elskan mín lítil?«, spyr hann og klappar á glókollinn hennar mjúka.

»Ég er örmagna af þorsta«, hvíslaði hún lágt, laut höfði og brosti.

»Á ég að senda þér svaladrykk aflraunanna?«

»Nei, nei! vil ekki það, ónóg og leiðinlegt altsaman!« Og hún leit upp á hann augum, sem hann aldrei hafði áður séð í höfði hennar. Þau voru eintómir blaktandi, bláir smálogar, löngunarlogar fyrstu ástaþránna.

Hann hélt hendinni um ennið. Skildi hana ekki almennilega, elskuna sína litlu, með blaktandi smálogana í hyldjúpum, biðjandi barnsaugunum! En þorstaþjáningu hennar sá hann.

»Æ, það er víst sólarljómi ásta-sælunnar, sem augun hennar blessuð eru að biðja um!« Og hann kallar á ástarnautnirnar allar saman, og segir þeim að svala nú fljótt sálarlönguninni sinni þyrstu. Hún sé rétt aðfram komin, auminginn!

Þær hlupu upp til handa og fóta. Jú, hún skyldi sannarlega fá nóg að drekka, sú hin nývaknaða! Tifandi á tánum komu þær hver og ein, með sólroðinn sæludrykk ástanna; heitan og sterkan skyldi hún fá hann, gleðibikarinn glóandi, sæluglóð þrúgnanna sólvermdu. Og þær hölluðu að henni heitum svaladrykk æskuástanna, og hún varð eins og geislablik á smábárum grunnra vatna, sem vorgolan leikur sér að, að láta velta og trítla á undan sér.

Og hún svalg munarhunangið magnað og sætt, fögnuðurinn fossaði um hana alla og algleymið vafði hana í fang sér og flaug með hana upp til sólarinnar, því í sólarljósinu, lífgjafa alls, átti hún heima í lífi og dauða, það vissi hún nú og fann til fullnustu. Hún lagði aftur augun og lét algleymið líða með sig hærra og hærra, gegnum mjúkan geiminn, upp til sólarinnar, heim! En hvað var nú þetta! Andstyggilegt óbragð í munninum, og hún hrækti út úr sér og opnaði augun. Hver hafði látið ólyfjan í ástadrykkinn hennar heita? Þetta var ljóta-

óbragðið, og svo var henni ilt, leið illa. Nú sá hún það eftir á! Ólukku nautnirnar höfðu látið leir, aurleðju, í yndisdrykkinn hennar hreina, en hún svo þyrst og sólgin í svaladrykk ástanna, að hún drakk alt í botn, sem þær brugguðu henni, og hún grét og grúfði sig ofan í jörðina leiruga og ljóta, grét yfir yndisdrykknum sínum eitraða, yfir óbragðinu í munninum, yfir innantómu nautnunum argvítugu, en yndisþyrst var hún nú samt, og sagðist vilja fá meira að drekka, endilega meira að drekka!

Hann varð hryggur og úrvinda af að sjá yndisþrána sína svona illa á sig komna. Hún, sem bað svo blíðmál, og mændi eins og augu í svöngum hundi mæna, er þeir biðja mennina um björg. Hann hefði átt að hafa vit fyrir henni, blessuðum óvitanum! Þær væru sagðar glæfrakindur sumar þessar nautnir, og hann hefði kallað á þær allar, í ósköpum sínum að láta eftir henni alt sem hún heimtaði. Nú lægi hún þarna á leirugri jörðunni úrvinda og illa svikin eins og barnungi brotinn og skaddaður.

Alt í einu hóf hún höfuðið og leit á hann tárvotum ásökunaraugum. Í þeim augum var nú enginn sólarljómi né sælubirta, en eimyrja ástríðunnar glórði eins og maurildi í myrki, inni í nótt augans.

Ásakandi og óumflýjanleg stóðu augu hennar á honum og heimtuðu að drekka. Eld, eld! heimtaði maurildið í myrkri augnanna. Drekka, drekka! hvæsti þorstinn.

Í úrræðalausri neyð sinni kallar hann þá á svallgleðina glæfralegu og segir henni að koma fljótt með svölun handa sálarþránni sinni þyrstu.

Og svallgleðin glæfralega gjörir svo. Gengur að þránni, flakandi og fruntaleg, með gylta könnu gamallega í laginu, og hallar drykknum að vörum hennar: heitum eldslogum orðnum að legi.

Og sálarlöngunin hans sárþyrsta þambar feginsamlega, og loginn illi læsir sig um hana alla. En augun heimta með æðisflótta: meira, meira! Hún klappar af kæti, hlær og drekkur. Loks hendir hún könnunni í höf-

uð svallgleðinnar glæfralegu, og beiskan grát setur að sálarþránni æstu, með eldslogana í unga blóðinu sínu.

»Ósköp eru þetta«, andvarpar hann, og vill nú lægja í henni ofsann, en hún æpir sem örvita: »drekka, drekka!«

Þá þrífur hann í ofboði í handlegg vinnunnar, og biður hana að bjarga nú sálarþránni sinni sjúku, sem liggi þarna leirug og örvita. Og gamla vinkonan kynslóðanna, kyrlát og móðurleg, tekur hana orðlaust upp í fangið og reynir að sefa ólguna og svala þorstanum með ánægju orkunnar. En sálarþráin sjúk og örvita brýzt um í friðsama fanginu starfseminnar trúföstu, gömlu, og æpir að hún kveljist af þjáningum þorstans, og hvert óp hennar smýgur eins og oddhvöss ör gegnum sálu hans. Og nú kallar hann loks einbeittur á viljann sinn veikbygða og skipar honum að leggja hana í bönd, óhemjuna, sem vinnan ráði ekkert við.

En vesalings viljinn hans stendur veiklaður og fölleitur, með harðsnúin böndin í höndunum sínum hvítum og mjúkum og hikar við, en verður að hlýðnast húsbóndanum, því nú er kraftur í honum. En hún æpir og brýzt um í böndunum, blessað greyið! Hann situr þögull og hjartasár yfir sálarþránni sinni aumstöddu, og lætur vinnuna, vinkonuna sína nýju, dreypa á hana björtu bergvatni get unnar sterku, og loks lægist hitaólga ástríðu og þjáninga, svo sálarlöngunin hans, lítil og fín, liggur sem í dái. Þá losar hann gætilega af henni böndin, leggur höfuðið hennar hrokkna og mjúka upp við sig, og biður hana, elskuna sína litlu, að yfirgefa sig nú ekki alveg, því án hennar sé hann einmana í kulda og myrkri mannraunanna.

Þá opnar hún loks augun og lítur upp á hann, með ókunnugum, köldum svip, ógagnsæ og andlaus.

«Ertu enn þyrst, illa svikna sálarlöngunin mín?« spyr hann ástúðlega og vill reyna að verma hana.

»Mig þjáir valdaþorsti«, mælti hún, og var hás og munnurinn þur.

»Sækið þið henni að drekka«, sagði hann við stórsýslanirnar sínar, og stórsýslanirnar komu hægfara og há-

tíðlegar í fasi, með hélugráan hornstikil í höndum, valdaóróans gullrenda, gamalt drykkjarhorn með glæstum útskurði Og drykkur valdanna hinn víðfrægi var þar í, og þær buðu henni að drekka og sögðu, að þar fengi hún svölun í lagi.

En hún hrökk við þegar hélað hornið snerti heita vörina, því eins og hel var hvorttveggja kalt, hornið og drykkurinn dýri.

Ekki vildi hún þennan ískulda ofan í sig! Og svo hrinti hún því öllu harkalega frá sér, og sálarþráin hans fölnaði upp og fekk í sig hroll.

»Hvað ætli að þú viljir þá, elskan mín lítil?« spurði hann stillilega.

»Eg vil makinda-munað auðæfanna«, sagði hún dauflega.

»Komið þið með makinda-munað auðæfanna handa elskunni minni litlu!« kallaði hann til hyggindanna sinna útsjónasömu. Þau komu að vörmu spori með gyltu könnuna gömlu, þunga og klunnalega, með makinda miðinum dýsæta og buðu sálarþránni að svala þorstanum á alheimsdrykknum eftirsótta, en hún sagði að sér byði við þessari eðju og ýtti frá sér án þess að bragða á miðinum. »Enginn minsti ilmur frá kyngikrafti sólarinnar!« sagði hún, og eins og hún væri að gefast upp við alt þetta, hnipraði hún sig saman og lagði aftur augun.

Úrkula vonar horfði hann á hana, hjartans lífið sitt einasta! Þarna húkti hún máttvana og líklega sjúk af hungri. Átti hann þá ekkert sem nægði henni, og því fekk hann þá hana til samfylgdar, átti hana frá fyrstu vitund, glaða og bjarta, biðjandi og lokkandi?

Í því leit hún upp og augu þeirra mættust. Hún spratt á fætur og stóð frammi fyrir honum áköf og leiftrandi. »Þú átt betra að bjóða mér, í þér sjálfum er það, sem mig þyrstir eftir. Gefðu mér sjálfan þig!«.

Undrandi starði hann inn í sjálfan sig og fór að leita þar að svölun handa sálarþránni sinni, ódauðlegu og sterku, sem nú stóð þarna frammi fyrir honum og heimtaði sjálfan hann.

Loks kom hann auga á listahæfileikana sína, lata og limamjúka, sem léku að tafli.

»Hættið þið þessu«, hrópaði hann ákafur. »Hvað hugsið þið! Hér stendur hún, hjartans þráin mín, þyrst og hungruð, og þið liggið iðjulausir. Færið þið henni fljótt að drekka!«.

Hávaxnir og hæverskir gengu þeir fram með listabikarinn barmafullan af andans unaði og báðu hana að drekka. Og hún drakk listanautnina í löngum teyg, en sú er náttúra þess drykkjar, að aldrei tæmist þó af sé drukkið. Andlit hennar skein og augun urðu eintómur ljómi, því áfengi andríkis og snildar læsti sig um hana alla, og hún kiptist við í hvert sinn sem nýtt ljós kviknaði í vitund hennar. Það var guðsneistinn í sjálfri henni sem sindraði leiftrum í ljóshaf lífsuppsprettunnar, því nú fann hún í sér aflið óumræðilega: gleðina miklu, að geta skapað. Og hún hallaði sér upp að hjarta alverunnar og fann æðaslög hennar undir vanga sínum, fann undirstraum einingarinnar hvíslast út til hverrar agnar, blóðbönd skyldleikans sem umvefur alt í eina heild.

Og fögnuðurinn lyfti henni hærra og hærra, og hin mikla geta mannsandans flaug með hana svo hátt, að hún sá yfir jörðina alla, og hún sá systurnar sínar mörgu, þrár allra mannssálnanna, sitja þyrstar í myrkinu niðri á jörðinni og leita sér að svölun. En af því myrkur var á svo að ekkert sást til, þá urðu þær að fálma fyrir sér, og drukku svo oft ofan í sig eintóma ólyfjan. Æ, hvað hún vildi geta kveikt svo stórt ljós, að það bæri birtu yfir alla jörðina, svo systurnar hennar mörgu þyrftu ekki að þreifa sig áfram í myrkrinu.

Og hún grét af löngun og getuleysi og grúfði sig hnípin að hjarta alverunnar og bað um meiri getu.

»Ertu nú aftur farin að gráta, yndisbarnið mitt glaða og góða?« spyr hann ástúðlegur og vill leggja litla höfuðið hennar upp að sér.

»Systurnar mínar sitja þyrstar í myrkrinu!« kjökraði hún, »og svo gleypa þær ofan í sig ólyfjan og alt sem

fyrir verður, af því myrkur er á, svo ekki sést til. Það er svo grátlegt að geta ekki gefið þeim ljós, nógu stórt ljós, því litlu ljósin bera ónóga birtu og eru slökt jafnóðum, af asanum og þrönginni í yndisleit mannanna. Mig langar svo til að geta lyft því öllu upp í ljós og unað!«.

Hann stundi við og starði út að sjóndeildarhringnum: »Það birtir einhverntíma yfir því öllu«, sagði hann alvörugefinn. »Og systurnar þínar þyrstu, sem gleypa ofan í sig eitthvert ódæðið nú, af því myrkur er á og ekkert sést til, þær fá líka ljós einhverntíma. Yndisleit mannanna er svo sterk og áfjáð, að hún vinnur sigur yfir myrkrinu sem hylur uppsprettuna miklu, sem allar þrár eru runnar frá. Þið uppgötvið sjálfar upphaf ykkar, getið ekki gefist upp né dáið, af því eruð þið okkur mönnunum svo hjartfólgnar«.

Og hann tók í litlu höndina hennar og leiddi hana burt með sér. »Fullnægja þín, þráin mín ódauðlega, hlýtur að vera þar sem þorstinn þinn var til búinn«, sagði hann, og þau leiddust yfir þvera jörðina, út að yzta sjóndeildarhring mannlífsins, og þar hurfu þau sjónum okkar, er þau liðu inn í ljósmóðu landamæranna.

*Ólöf á Hlöðum.*

---

# Gátur.

Alþýðufræðsla Stúdentafélagsins 20. des. 1914.

---

Mennirnir eiga vitinu vald að launa. Það er vel skýrt í Hávamálum. Þar segir: »Dælt er heima hvat« og »Halr er heima hverr«, með öðrum orðum: Alt er auðvelt heima og heima er hver herra. Þessi auðveldni heima á rót sína í því, að þar er ekkert óþekt, ekkert sem óvíst er hvernig með skuli fara. Þar lærir ein kynslóðin af annari, og þarf því lítillar hugsunar við. En þegar kemur úr heimahögunum, þarf vitsins við: »Vits er þörf, þeim er víða ratar«, segja Hávamál. Það er til þess að geta verið heima þó í ókunnum stað sé, af því maður sér að hið nýja og ókunna er fyrir ber hlýðir líkum lögum og meðferð eins og það sem heima var og er því í rauninni gamall kunningi í dulargerfi. Vitið er hæfileiki til að sjá, hvað hlutunum er sameiginlegt, hve ólíkir sem þeir kunna að virðast og vera í sumum atriðum. Því vitrari sem einhver er, því víðar er hann heima, enda er svo að orði kveðið. Alvitur vera væri alstaðar heima og hefði þar með með æðsta valdið.

Þá hæfileika sem mennirnir neyta í lífsbaráttunni temja þeir löngum í leik, ýmist í æsku, þegar kraftarnir bíða búnir og leita sér viðfangsefnis, eða síðar, þegar milli verður um erfiðið og hvíldin hefir safnað nýjum þrótt. Þannig hafa menn á öllum öldum leikið sér að ýmsum heilabrotum til að skerpa vitið og reyna það við aðra, því mennirnir hafa gleði af að neyta kratta sinna og fá sig fullreynda. Slíkur leikur eru g á t u r n a r. Og það er

einkennilegt, að einhver elzta gátan, sem sögur fara af, Svingsar gátan, er lögð í munn óvætti er drap hvern þann er ekki gat ráðið hana. Er það ekki bending um þann djúpa sannleik, að sá hæfileikinn sem mennirnir neyta til að ráða gátur, hann er fjöregg þeirra?

Gátan er félagsleikur. Enginn getur skemt sér við að búa til gátu og bera hana upp fyrir sér einum — ekki fremur en menn geta skylmst eða glímt við sjálfa sig. Hún er leikur með það vopnið sem tvíeggjað er, en það er málið. Auðvitað eru til margvíslegar gátur, og sumar þeirra í myndum í stað orða, en eg mun hér að eins minnast á þá tegundina sem elzt er og algengust, en það eru orðagátur. Þær hafa tíðkast frá alda öðli. Á Íslandi hafa þær eflaust verið hafðar um hönd frá landnámstíð. Reyndar er þeirra lítið getið í sögunum, en varla hefði Skúta falið nafn sitt eins fimlega í gátunni »Margr í Mývatnshverfi en Fár í Fiskilækjarhverfi«, ef honum hefði ekki verið gátulistin töm, og ekki er neinn viðvaningbragur á Gátum Gestumblinda, sem að öllum líkindum eru íslenzkar í því formi sem þær hafa nú. Þær hafa að maklegleikum verið taldar með beztu gátum sem ortar hafa verið.

En gátulistin hefir tíðkast á Íslandi fram á þennan dag, og flestir munu á æskuárunum hafa skemt sér við gátur. Hve mikið er til af gátum á Íslandi má ráða af því, að árið 1887 gaf Bókmentafélagið út »Íslenzkar gátur«, sem Jón heitinn Árnason hafði safnað, og voru þær um 1200 talsins. Má þó geta nærri, að ekki hafi öll kurl komið þar til grafar. Safn þetta er reyndar mjög misjafnt að gæðum. Þar er mikið af torfi og kenningabarnings langlokum, sem aldrei hafa verið alþýðlegar, en þar eru líka ýmsar perlur, sem kunnar eru um alt land. Af því að aldrei hefir verið skrifað rækilega um þessar gátur, ætla eg að fara um þær nokkrum orðum og reyna að benda á sumt af því sem af þeim má læra.

Gáturnar spegla þjóðina á marga lund. Fyrst og fremst er auðsætt, að efnisvalið sýnir um hvað þjóðin hugsar og hvaða hluti hún hefir í kringum sig. Flestir

munu vænta að hitta í gátum helzt þá hlutina sem þjóðin hefir mest saman við að sælda. Það er naumast tilviljun, að klukkan, penninn, saumnálin, ljárinn, rokkurinn, strokkurinn, kvörnin, skipið og tóbakspípan eru þeir hlutir sem flestar íslenzkar gátur eru um (10—13). Reyndar getur kepni valdið nokkru um: Þegar einn hefir samið gátu um einhvern hlut, fara aðrir af stað og reyna líka, unz líkingarnar þrýtur. En gátubúningurinn sem menn velja hlutunum, sýnir hugsunarháttinn, ímyndunaraflið, efni þess og gang.

Ef vér nú lítum yfir efni íslenzku gátnanna, þá er það furðulega fjölbreytt. Það er eins og þjóðin hafi verið að keppast við að láta sem fæsta hluti af þeim sem hún þekti verða útundan. Kemur fram í því eins og fleiru, að hún hefir leitað sér yndis í því að hugsa. Þótt það sé þur lestur, ætla eg að setja hér skrá yfir gátuefnin. Eg hefi flokkað þau niður. Þó slík flokkun geti orkað tvímælis, gerir hún yfirlitið auðveldara.

Almenn náttúrufyrirbrigði:

Á, árniður, árós, bárur, birta, bylur, dalur, dögg, eldur, foss, gaddur, gull, hraun, hver, jörð, kuldi, kvikasilfur, kvísl, litur, ljós, loft, lækur, morgunn, myrkur, regn, regnbogi, reykur, sandur, silfur, sjór, sjöstirnið, snjór, sól, sólargeisli, sólbráð, sól og gílar, sólskin, stjarna, svell, svörður, tungl, tunglskin, vatn, vindur, þoka.

Líkamir manna, dýra og jurta:

Augnalok, augu, biðukolla, brjóstamjólk, dúnn, egg, eggskurn, ferhyrnd ær, fífill, fingur, fit, fjöður, fluga, fótur, fretur, fugl, fuglshreiður, geitur (í höfði), greipar, gæra, hangiketskrof, hani, hár, herðablað, herðakistill, hestur, hjartað, hlandblaðra, hnífill, hor, hrafn, hráki, hrútur, hundur, hvannanjóli, hörpudiskur, jurt, júgur, jötunuxi, kaffibaun, kálfshaus, kindarhorn, korn, krákuskel, kúaklessa, kýr, könguló, köttur, líknarbelgur, lús, mannshöfuð, mannsístra, mergur, mjólk, munnur, mygla, mölur, neglur, reyk-

tóbak, rjúpa, sauðarvala, sauður, saurindi, selur, silungur, skegg, skepna, skinn, sóley, tennur, tog, tunga, tær, uggar, ungi í eggi, vetrarkvíði, vínber, vinstur, ýsa, æður.

Verkfæri og önnur menningartæki: Aflhólkur, arinhella, askur, ausa, árar, baðstofa, band, bandhnoða, bandprjónar, beizli, biti, bók, bókstafir, brýni, byssa, dráttarnet, drag, dýrabogi, eldtöng, eldvirki (tinna og tundurbaukur), eyrnaskefilll, fata, fatakista, fatapör, fingurbjörg, fjalaköttur, fjárhirzla, fjós, flaska, flór, gaffall, gata, glerbrot, gleraugu, gluggi, greiða, griffill, göngustafur, hamar, hattur, hálsfesti, hálsnálar, hástokkur, hefill, hesputré, hestskónagli, heynál, hjólbörur, hnakkur, hnappelda, hnappur, hnífur, hnútur, hnöttur, hóband, hókrókur, hringja, hringur, hrífa, hrísklyfjar, hrossabrestur, hurð, húfa, hverfisteinn, hægindi, járnkarl, kaffiketill, kanna, karfa, kerald, kerti, keipur, kirkja, kirkjulykill, kjölur, klafi, klakkur, klukka, klyfberi, knélisti, koddaver, koddi, kompás, kotra, krappi, krít, krókur (og lykkja), kútur, kvarði, kvísl, kvörn, lampi, landkort, langband, langspil, laxakista, lás, legill, líkkista, ljár, ljósaplata, ljósasöx, ljósberi, ljóskola, lúsakambur, lykill, löð, matborð, meis, mjólkursía, mjöltunna, mylna, millur, nafar, nagli, njarðarvöttur, næturgagn, ofn, páll, peningar, penni, pottur, púður, rakki (í skipi), reiði, reipi, reizla, reka, reykháfur, rétt, rokksnælda, ró, rúm, röng, saumhögg, saumnál, sax, segl, sendibréf, seilarnál, sessa, silungsnet, sirkill, sjálfskeiðingur, sjónauki, skautafaldur, skautar, skáktafl, skeifa, skinnsál, skip, skjár, skór, skrár, skyrbelgur, skæri, sleggja, smiðja, smiðjuafl, smiðjubelgur, smiðjutöng, smjöröskjur, snjóhús, sokkar, spegill, spil, spónn, stafnlok, steðji, stefni, stelling, stjórnvölur, stóll, strokjárn, strompur, strikmát, stundaglas, stýri, svipa, söðull, sög, sölubúð, teningur, tjald, torfkrókar, tóbaksjárn, tóbakspípa, tóbaksponta, trébrú, trekt, tölur, ullarkambar, ullarlár, úr, vagga, varða, vefstóll, vetlingar, vindhani, vog, vöndur, þaksteinn (úr leiri), þeytispjald, þjöl, þolinmóður, þófta, þyrill, öngull, öxi.

Yms hugtök og fyrirbrigði:

Afmælisdagur, ár, dagur, draumur, drykkja, eg, eiður, ekkert, að eldast, elli, elskan, engill, góðverk, gröf, guð, gulltunga, heimur, hettusótt, hlátur, hugur, illmálug tunga, jafningi, konan, kona með barn á brjósti á hestbaki, konungur, koss, lagið, last, leti, lífið, lýgin, maðurinn, mannorðið, mánuðurinn Harpa, meydómur, mjaltakona, múta, nafnið, nótt, óskapnaður, prestur fyrir altari, ró, rógburður, rúm, samviska, sannleikur, skuggi, skyldleiki, smjaður, snúður, spor, svefn, sveindómur, svipur, tíminn, vofa, æska.

Efni úr biblíunni:

Asna Bíleams, dætur Lots, Eva, Faraó, gröf Krists, hvalurinn og Jónas, Kain, kona Lots, Kristur, Nói, Pílatus og Jósef, Rauðahafið, synir Adams, vitringastjarnan, örkin.

Auk þessara flokka má telja nafnagátur, talnagátur og sumar kenningagátur.

Hver sem nú ber saman allar þessar gátur og athugar hvað þeim er sameiginlegt, hann mun komast að raun um, að það er erfiðara en margur hyggur, að ákveða nákvæmlega hvað gáta er. Milli þess sem er mælt mál og hins, sem er gáta, eru engin greinileg takmörk, enda er það einum gáta sem öðrum er ljóst. Þó má helzt á því marka gátuna, að hún er dulmæli. Það getur verið af ýmsum rótum runnið, og eg skal nú taka nokkur dæmi til að skýra eðli gátunnar.

Sumar gátur spretta af tvíræði orðanna. Þær lýsa hlutnum blátt áfram, en hugurinn villist, af því orðin eru tvíræð. Í gátunni: »Hver er sá vöxtur, sem snýr rótinni upp, en krónunni niður?« er hvert orð í venjulegri merkingu. Það tefur fyrir ráðningunni, að »rót« og »króna« er líka á jurtum, en snýr þar öfugt við tennur í efra gómi, sem er ráðningin. »Höfuð« heitir bæði á lifandi dýrum og á nöglum. Þar af gátan um hestskónaglann: »Hvað er það sem gengur á höfðinu um alt land?« »Hvað er það sem hækkar þegar af fer höfuðið?« er og góð-

gáta um koddann. Gátan um mjólkina sýnir hvað má gera úr orðinu að »hlaupa«:

Hvað er það um borg og bý,
sem brúkast dag og nætur,
hleypur víða húsum í,
hefir þó enga fætur.

Stundum er gátan í því fólgin, að óskyld orð hljóða eins í sumum myndum: »Hrútur gat ekki valdið hausnum fyrir hornum« (hor-num), og þó var hann kollóttur«. Eða þetta:

Ber ber brúðurin mæta
blá blá kjöltu í,
sér sér sveininn mæta,
sá sá ei við því.

Ýmsir orðaleikir eru af þessum toga spunnir.

Þá eru gátur þar sem hugsunin kemur fram þegar skift er um orð, þannig að sett eru önnur orð sömu eða líkrar merkingar í stað þeirra sem fyrir eru. Svo er um gátuna sem eignuð er Brynjólfi biskupi Sveinssyni: »Það var fyrir fiski (= löngu) að þessi garður var ull (= lagður). Eitthvert kunnasta dæmi slíkra gátna er ræða Króka-Refs, er hann lýsti vígi Skálp-Grana á hendur sér, en annars er sú gátutegund ekki yngri en gátur Gestumblinda:

Sat ek á segli,
sá ek dauða menn
blóðshol bera
í börk viðar.

»Þar saztu á vegg ok sáttu val fljúga ok bar æði í klóm sér«, var ráðningin. Í rauninni er hvert erindi með torskilinni kenningu í, gáta. Íslendingar hafa talsvert spreytt sig á því að yrkja slíkar kenningagátur, þar sem hvert orð er umskiftingur, en flestar eru þær leiðinlegt langlokutorf. Eg skal því að eins nefna þá styztu:

Skolli sté á túnfót,
tók i burtu dagsmark
af vallarbót.

Sumar nafnagátur eru úr sömu skúffu:

**Bóndinn heitir bauluson,**
**börn hans kisa og tóa.**

Annars er oftast sagt hvar nafnið er að finna: Menn bera það á öxlinni, á fótunum, í vasanum eða milli sín. Sumir sjá það út um gluggann eða hafa það hálft í hendi sér en hálft á hafið út. Dæmi er til þess, að »bóndinn er á austurfjöllum, konan er við sjávarströndu, sonurinn milli fjóss og bæjar, dóttirin í hverju húsi«. »Maður fór út um nótt og rak alt féð ofan í hann föður sinn«. Eitt nafn er á öllu, annað af öllu. Eitt bæjarnafn nefnir sig sjálft. Einn maður heitir það sem fátækir eru. Ein konan heitir eins »aftan bæði og framan« og önnur heitir það, sem »hverri kind hentar bezt um æfi«. Og stundum fela nöfnin sig í eins sakleysislegum setningum og »Græn grös g r ó a milli steina« eða »H v a ð hét hundur karls?«

Rímnaskáldin höfðu sérstaka aðferð til að »binda« nöfn sín, og læt eg mér nægja að vísa til ritgerðar um það efni hér í »Skírni«, eftir Pál E. Ólason.

Allur fjöldinn af gátum á rót sína í athugun á einhverri líkingu. Svo er um Svingsargátuna frægu: »Hvaða dýr er ferfætt að morgni, tvífætt um hádegi, þrífætt að kvöldi?« Mennirnir hafa snemma fundið líkingu með æfiskeiði mannsins og deginum, enda er talað um »morgun æfinnar«, sagt að æfisólin sé komin í hádegisstað, talað um »æfikvöld« osfrv. Hins vegar er það kallað að skríða á fjórum fótum, er menn hreyfa sig á höndum og fótum. Þá lá það nærri að líkja stafnum við fót, þar sem samskonar hlutir heita fætur á stólum, borðum osfrv. Málið er fult af slíkum líkingum, þær eru sálin í því. Sá sem hugleiddi annars vegar líkinguna milli æfinnar og dagsins og hins vegar milli stafs og fótar, hann gat búið til Svingsargátuna. Gáturnar lifa einmitt á þeim eiginleika málsins, að það getur lýst einum hlut með orðum sem upphaflga voru sniðin fyrir annan, ef einhver líking er á milli. Og þær eiga í því sammerkt við frumlegan skáldskap, að þær ná inn í málið líkingum, sem

ekki hafa verið bundnar í því áður. Hins vegar er þeim títt að gera alt sem þær lýsa að lifandi verum, og kemur þar enn skáldskapareðlið fram. Hlutir með karlkyns heitum eru í gátum karlar, hlutir með kvenkyns heitum konur. Samstæður beggja eru hjón. Um krók og lykkju er t. d. hin alkunna gáta: »Hver eru þau hjón, er skilja á kvöldin, en koma saman á morgnana?« Þá er hjónabandi dags og nætur í skammdeginu lýst vel í einni gátu:

Vissi eg af hjónum,
var sá munur beggja,
mér er það fyrir sjónum,
mætti eg til þess leggja,
hvernig þau voru í rekkjunni röng,
hann var of stuttur,
en hún var of löng;
upp hann sér sneri,
undan hún leit,
ygldi sig síðan
og faldinum sleit,
sú ber dökkan sjónarreit,
svo fer hún um í minni sveit,
oftast freðin, en aldrei heit.

Gáfuð dönsk kona, sem ekki var orðin fullnuma í íslenzku, þurfti einhverntíma að nefna hrút, en kunni ekki orðið og sagði því »kindarkarlmaður«. Einu sinni var hún að prjóna sokk, og sagði við vinnukonuna: »Fáðu mér b r ó ð u r sokksins« (fyrir: h i n n sokkinn). Það var í anda gátumálsins. Þar eru samstæðir hlutir sömu tegundar alt af bræður eða systur. Bræðralagi ullarkamba er lýst i þessari gátu:

Bræður tveir í baugakleif
bjuggu lengi saman,
hvor af öðrum hárið reif,
þeir höfðu ei annað gaman.

En af systragátum er, held eg, þessi bezt:

Sjö systur
í sæng einni liggja,
engin efst liggur
og engin fremst.

Það er sjöstirnið. Og það er eitthvað af himindjúpinu í þessum einföldu orðum.

Eins og eðlilegt er, þá eru sumar fegurstu gáturnar um efni úr náttúrunni. Það er bjart og blælétt yfir gátunni um sólargeislann:

Liggur í göngum
með löngum spöngum,
gullinu fegra,
en grípa má það enginn.

Og barnsleg, hoppandi gleði og samúð með loganum í hlóðunum er í þessari:

Upp úr ösku stó
hún arkar há og mjó.
Tróðan var svo tindilfætt,
hún teygði sig og hló.

Það kveður við annan tón, þegar bylurinn kemur, og þó er það kumpánalegt:

Einn er kominn ofan úr Grindaskörðum,
afgamall en ungur þó,
yfir geisar lönd og sjó.

Þessi gáta er um krákuskeljarnar:

Sá eg sitja systur tvær á sandi,
nógar eiga nöfnur þær á landi.
Kúra þær fram við kaldan sjá
með bökin blá,
hvorug þungt þenkjandi.

Gátuna um fífil og biðukollu ætti hvert barn að kunna:

Upp vex bróðir minn hjá mér,
mikið hár á kolli ber,
fagurt það í fyrstu er
og fallega það hreyfir sér.

En þegar að eldist sá,
undarlegt það heita má,
úr honum verður auðargná
alþakin með hærur grá.

Þessi kerling sómir sér,
sín þó ellimörkin ber,
hárin gráu fella fer,
fölur eftir skallinn er.

Þar sem gáturnar verða svona þýðar og elskulegar, þegar þær sækja efni sín til náttúrunnar, fá þær löngum öfgasvip, þegar þær lýsa verkfærum eða öðrum mannaverkum, enda er það engin furða þó fífillinn sé skáldlegri en t. d. strokkurinn. Gátur um verkfærin keppast oftast við að finna sem sundurleitasta eiginleika til lýsingarinnar, svo að hluturinn virðist fjarstæða, t. d. þessi gáta um strokkinn:

Hausinn niðri hefir í sér,
hljóðar eins og vargur,
rófan munninn út um er;
úr honum drekkur margur.

Þó tekst oft furðanlega að gera verkfæri persónuleg og lifandi, t. d. í þessari gátu um dýrabogann:

Herðalotinn, hnakkabrattur,
hnappalítill tíðum,
liggur stundum limafattur,
lymskur úti í hríðum.

Stundum bregður fyrir skrítinni mynd frá þeim tíma sem gátan er samin, t. d. þegar sagt er um pontuna að hún hafi »sama nafn sem bókin bezta« (Ponti), eða þá þessi lýsing á því, er menn voru að taka í nefið í kirkjunni:

Hver er það með þétta hlekki,
þetta mun auðráðin spurn,
um helgra tíðum húsa bekki
hoppar og slettir sínu í hvurn?

Hver gáta er ljós vottur þess, hvernig höfundurinn hefir litið á hlutinn sem gátan er um. Með því að bera saman allar gáturnar um einhvern hlut, sést hverjar og hve margar hliðar þjóðin hefir fundið á honum, og það getur verið fróðlegt. En eins og hver hlutur getur fætt af sér margar gátur, þannig verða löngum ráðningarnar margar að einni og sömu gátunni, því þótt gátur eigi að vera einræðar, þá eru fæstar það, ef vel er að gáð. Kemur það fljótt í ljós er margir spreyta sig á að ráða sömu gátuna og hver heimfærir lýsinguna til þess, sem honum

finst líklegast af þeim hlutum er hann þekkir. Hygg eg að fátt sýni betur en gáturáðningar, hve hugmyndasambönd manna eru margvísleg. Því til sönnunar skal eg skýra lítið eitt frá tilraun er magister Sigurður Guðmundsson gerði fyrir mig í vetur. Hann bar upp 4 gátur fyrir fjórðubekkingum Mentaskólans og annarsbekkingum og þriðjubekkingum Kennaraskólans, samtals um 70 manns, og höfðu þeir eina kenslustund til ráðningarinnar. Ein gátan var svona: »Hvað fer gult undir bergið, en kemur hvítt undan því aftur?« Helztu ráðningarnar voru þessar: Kornið, þegar malað er. (Það er ráðningin sem við á, og var hún tíðust). — »Fossinn er hvítur, þó hann komi undan gulu bergi«. (Hér hefir þýðandinn hugsað sér að vikið væri frá venjulegri orðaröð eins og í skáldskap: »gult undir bergið« fyrir »undir gult bergið«). — Gulmórautt leysingarvatn eða brimvatn, er skellur á bergi og verður að hvítri froðu. — Leirblandið vatn, mýrarvatn eða jökulvatn, er síast í jarðveginum og kemur fram í hvítum fossi. — Sólin, er gengur undir fjall að kveldi og kemur upp undan því að morgni. — Sóley: »Ef gul sóley er sett undir bergið, þar sem sólin nær ekki að skína á hana, visnar hún og verður hvít«. — Egg hvítra fugla er verpa undir bergi. Aðrar ráðningar fóru enn fjær, svo sem sú er taldi bergið ímynd sannleika og réttlætis, er færir hið vonda til betri vegar.

Af gátunni: »Hrútur gat ekki valdið hausnum fyrir hornum, og þó var hann kollóttur«, komu furðu-margar ráðningar. Allmargir fundu orðaleikinn, að hrúturinn var svona horaður. Einn var svo fyndinn að ímynda sér að hrúturinn hefði haft kvef, og ekki getað snýtt sér. Hann tók orðið »hor« í þeirri merkingu. Sumir hugðu gátuna vera um mann sem »Hrútur« hét, og hefir mynd orðsins á pappírnum, þar sem það er með upphafsstaf, að líkindum hugkvæmt mönnum það, og í einum sat sú hugsun svo föst, að þó hann fyndi réttu merkinguna í »hornum«, þá sá hann ekki að gátan væri um kind, heldur hugsaði sér að hún væri um mann sem var svo horaður,

að hann gat ekki haldið höfði. Það er gott dæmi þess hvernig hugmyndasamband getur lokað öðrum brautum í huganum, sem annars væru opnar. — Einn hélt að gátan ætti við mann með »timburmenn«, annar að hún væri um þá menn er þættust ofurspekingar, en væru í raun og veru innantómir; einn hugsaði sér að hyrndir hrútar hefðu barið kollótta hrússa þangað til hann gat ekki haldið höfði, aðrir að hann hefði verið vankaður, og en voru aðrir sem hugsuðu sér svo þung horn hengd á hausinn á hrút eða manni sem »Hrútur« hét, að hann gat ekki valdið honum.

Þessi dæmi nægja til að sýna hve margvíslegar ráðningarnar verða. Fjölbreytni þeirra er spegill þess hve ólíkir mennirnir eru. Hver lítur sínum augum á hlutina, og sýnir með því hver hann er. Útlendur sálarfræðingur einn hefir sagt sögu af því hvernig mann má marka af gáturáðningum. Hún er svona:

Einu sinni voru sex menn, er ekki þektust neitt, komnir saman í járnbrautarvagni og voru í fjörugu samtali. Þótti þeim leitt að einn þeirra átti að fara úr vagninum á næstu stöð. Segir þá einhver, að sér þyki altaf langskemtilegast að hitta alókunna menn, og sé það siður sinn hvorki að spyrja samferðamenn sína hvað þeir heiti eða séu, né að segja hver eða hvað hann sé. Annar segir þá að hann treysti sér til að segja þeim hvað þeir séu, ef þeir vilji hver svara sinni spurningunni. Tók hann þá fimm blöð úr vasabók sinni, skrifaði spurningu á hvert, fékk svo hverjum samferðamanninum sitt blaðið og bað hann að skrifa svarið fyrir neðan. Þegar hann hafði fengið blöðin aftur og lesið þau, snéri hann sér hiklaust að félögum sínum og sagði við einn: »Þér eruð náttúrufræðingur«; við annan: »þér eruð hermaður«; við þriðja: »þér eruð málfræðingur«; við fjórða: »þér eruð blaðamaður«; við fimta: »þér eruð bóndi«. Þeir kváðu það allir rétt vera, og um leið kvaddi hann og fór. Vildi nú hver fá að sjá spurningarnar sem hinir höfðu fengið, en það var þá alt sama spurningin. Hún var svona:

»Hvaða vera er það sem tortímir afkvæmi sínu?«

Náttúrfræðingurinn hafði svarað, »lífskrafturinn«; hermaðurinn, »stríðið«; málfræðingurinn, »Kronos«; blaðamaðurinn, »stjórnarbylting«; bóndinn, »gölturinn«.

Af því sem eg nú hefi sagt, vona eg það verði skiljanlegt, hvers vegna gátur hafa verið til hjá öllum þjóðum svo langt sem sögur ná. Þær hljóta í rauninni að vera jafngamlar málinu, því þær vaxa beint upp af sjálfri rót þess og koma fram hvenær sem málinu er beitt þannig, að sá sem við er talað verður að víkja af þjóðbrautum hugsananna til að skilja. Hins vegar á hver góð gáta upptök sín í skáldlegri sjón eður andagift, og það er því engin furða þó sumar gátur séu perlur í skáldskap og að kenningar og samlíkingar skáldanna finnist aftur í sumum gátum. Ein nýgrísk gáta hljóðar svo: »Eg átti einn apaldur og bar hann mörg epli, misti þau á daginn en fekk þau aftur á nóttunni«. Það er stjörnuhimininn. »Svo margt skín þó eplið á glitmeiðsins grein« segir Einar Benediktsson í kvæðinu »Stjarnan«. Þar kemur sama myndin. Í gátunum er oft fólgin mikil athugun og frumlegt ímyndunarafl, og þær eru ágætt meðal til að skerpa skilninginn og vekja athyglina á tvíræði málsins. Þær eru eins konar grímubúningur hugsananna, og skemta af sömu ástæðum og önnur dulgerfi. Einkum þykir börnum og unglingum mikið til þeirra koma, og hefir stofnandi »Unga Íslands« sagt mér, að einmitt gáturnar og heilabrotin hefðu aflað blaðinu hvað mestra vinsælda.

Auðvitað eru gátur ekki í slíkum metum nú á tímum sem þær voru forðum með ýmsum þjóðum. Drotningar koma nú ekki á fund konunga til þess að reyna þá í gátum, eins og þegar drotningin af Saba fór í orlof sitt til Salómons. Ekki verða menn heldur konungar fyrir það að ráða gátu eins og Ödipus í grísku þjóðsögunni fyrir að ráða gátu Svingsar, og engum er nú lengur gerður kostur á því að kaupa sig í frið með því að bera upp gátu er eigi verði ráðin, eins og Gestumblinda. Engu að síður lifa gáturnar áfram, og það er ekki ómerkilegt, að mörg höf-

uðskáld Þjóðverja, Göethe, Schiller, Hebel, Körner, Rückert o. fl., hafa ekki þózt of góð til að yrkja gátur. Gáta Schillers um regnbogann hefir verið þýdd á íslenzku: »Af perlum reisist breiðfeld brúin«, en mér finst hún ekki taka fram ferskeytlunni íslenzku: »Hver er sá veggur víður og hár«.

Fyrir hugskotssjónum almennings hafa gáturnar orðið einskonar ímynd alls þess sem þungskilið er, sérstaklega ímynd þeirra náttúrulögmála sem enn eru óljós og óráðin. Vísindamenn skrifa bækur um »heimsgátuna«, »lífsgátuna« o. s. frv. Í þessu orðbragði felst, ef að er gáð, sá hugsunarháttur, að fyrirbrigði náttúrunnar séu einskonar mál, sem oss er ætlað að skilja, að vér eigum æðri félaga, sem hafi falið hugsun sína í gerð og viðburðum tilverunnar. Og eins og það sem virðist hvað öðru andstætt felst í faðma, þegar gátan er ráðin, þannig muni fara að lokum, er vér ráðum gátu tilverunnar. Meðan enginn finnur þá ráðningu er allir vilji una við, heldur hver við þá ráðninguna sem honum er skapfeldust og sýnir með því hver hann er. En ein er sú gáta sem altaf ræðst sjálf þar sem kept er um ráðningarnar. Það er gátan: »Hver er andríkastur?«

*Guðm. Finnbogason.*

---

# Fólgin nöfn í rímum.

Nú á tímum er það altítt, að höfundar leyni nöfnum sínum í riti, riti nafnlaust eða noti dulnefni. Gengur sumum mönnum til feimni, einkum ungum mönnum; hjá öðrum liggja hér til aðrar hvatir, t. d. eru rit oft svo löguð, að höfundar þeirra þora ekki að nafngreina sig með réttu heiti.

Nafnlaus rit eru jafngömul bókmentum vorum, Íslendinga. Hefir það verið þungur steinn í götu fornfræðinga, að höfundar fornrita vorra hafa svo sjaldan nafngreint sig. Það mundi hafa sparað mikil heilabrot og getgátur, mikinn pappír og mikinn kostnað, ef höfundar fornrita vorra hefðu ritað með nafni, eins og Ari fróði gerir síðast í Íslendingabók. Vera má, að hér um valdi að nokkuru leyti það, að höfundar fornrita vorra hafa ekki að öllu talið sig vera höfunda eða semjendur ritanna, heldur skrifara (eða »skrá«-setjara), því að vitanlegt er það, að flest fornrit vor eru skráð eftir frásögnum, meira og minna réttum, og bera því flest blæ sögumannanna (heimildarmannanna) bæði að efni og meðferð, þar sem ekki er um sjálfstæða rannsókn að ræða.

Aftur á móti er hitt sjaldgæfara í fornritum vorum, að höfundar taki upp dulnefni til auðkennis. Eg minnist ekki að hafa orðið þess var annarstaðar í fornum ritum en í Katrínardrápu*) og í Völsungsrímum hinum

*) Prentuð í *Isländische geistliche Dichtungen des ausgehenden Mittelalters*, herausgegeben von B. Kahle. Heidelberg, 1898. — Og *Sechs isländische Gedichte* legendarischen Inhalts, hrsg. v. Hans Sperber. Upsala, 1911.

fornu*). Í báðum þessum ritum nefnir höfundurinn sig *Vitulus vates*, þ. e. Kálfur skáld, hvort sem hér er um sama mann að ræða eða ekki. Það mun þó ætlun fræðimanna, að sami maður sé höfundur beggja ritanna**).

Rímnaskáldin tóku upp alveg sérstaka aðferð til fólgsnar nafni sínu. Notuðu þeir til þess heiti rúnastafanna. Oftast mátti þá ráða nafn skáldsins eftir réttri röð rúnaheitanna, en stundum þurfti að raða þeim. — Það er efni þessa greinarkorns að skýra frá þessari aðferð, sem nú er með öllu horfin úr skáldskap vorra daga.

Til eru kvæði tvö, rúnaromsur***). Af þeim er auðvelt að nema heiti rúnanna, og fyrir því tek eg þær hér upp. Er gildi rúnastafanna í voru stafrófi sett út undan.

ᚠ [F é] er frænda róg *f*
ok flæðar viti
ok grafseiðs gata.

---

*) Eða Völsungsrímur hins óborna, pr. í *Edda Sæmundar hins fróða*, herausgeg. von Th. Möbius. Leipzig, 1860. Sömuleiðis í *Fernir fornislenzkir rímnaflokkar*, Finnur Jónsson gaf út. Khöfn 1896. Og enn í *Rímnasafn*, udg. af Samf. til udgivelse af gl. nordisk litteratur ved Finnur Jónsson, I. b. Kh. 1905—12.

**) Sbr. *Jón Þorkelsson*: Digtningen på Island. Kh. 1888, bls. 235. *Finnur Jónsson:* Den oldnorske og oldislandske litteraturs historie, III. b. Khöfn, 1902.

***) Síðara kvæðið er prentað fyrst í *Litteratura Runica* eftir *Ole Worm*. Khöfn, 1636, bls. 105—107, og í sama riti, 2. útg., Khöfn, 1651, bls. 95—97. Þar er kvæðið mjög illa útgefið, sem við er að búast á þeim tíma, enda mjög úr lagi fært í handritum; engin tilraun er þar gerð til þess að færa hana til rétts máls. *W. Grimm* hefir tekið kvæðið upp í „Ueber deutsche Runen". Göttingen 1821. Enn fremur *G. Th. Legis* í „Fundgruben des alten Nordens", I. b. Lpz. 1829. Sömuleiðis *Guðbrandur Vigfússon* í „Icelandic Prose Reader". Oxford, 1879, og í „Corpus poëticum boreale". Oxford, 1883. Enn hefir *Kr. Kålund* gefið bæði kvæðin út í Småstykker udgivne af Samfund til udgivelse af gammel nordisk litteratur", nr. 1. Kh., 1884. Loks hefir *Ludv. F. A. Wimmer* gefið þau bæði út í „Die Runenschrift". Berlin, 1887. — Hafa málfræðingar mjög spreytt sig á að færa kvæðin til rétts máls. Hér er ekki rúm til þess að greina nákvæmlega frá skýringunum, en þær tilgátur teknar, sem líklegar þykja. Um þetta má enn vísa til „Småstykker udg. af Samf. til udg. af gl. nord. litt.", nr. 4.

ᚢ [Úr] er skýja grátr *u*, *ú*, *v*
ok [skaði þerris*]
ok hirðis hatr.

ᚦ [Þurs] er kvenna kvöl *þ*
ok kletta búi
ok varðrúnar verr.

ᚬ [Óss**] er aldingautr *o*, *ó*, *ö*
ok ásgarðs jöfurr
ok valhallar visi.

ᚱ [Reið] er sitjandi sæla *r*
ok snúðig ferð
ok jórs erfiði.

ᚴ [Kaun] er barna böl *k*, *g*
ok bardaga för
ok holdfúa hús.

ᚼ [Hagl***] er kalda korn *h*
ok krapa drífa
ok snáka sótt.

ᚾ [Nauð] er þýjar þrá *n*
ok þungr kostr
ok vássamlig verk.

ᛁ [Íss] er árbörkr *i*, (*j*, *í*), *e*§)
ok unnar þak
ok feigra manna fár.

ᛅ [Ár] er gumna góði *a*, *á*
ok gott sumar
ok algróinn akr.

*) [Skara þverrir, Finnur Jónsson og Wimmer.

**) Táknar þó sjaldan Óðin hjá rímnaskáldunum, heldur er haft í venjulegri merkingu (haf, vatn, svana-gleði o. s. frv.).

***) eða hagall.

§) *e* er og kallað stunginn ís(s) og þá í rún þannig rist ᛂ.

ᛌ (ᛋ) [Sól] er skýja skjöldr *s*
ok skínandi röðull
ok ísa aldrtregi.

ᛐ (ᛏ) [Týr] er einhendr áss *t*
ok úlfs leifar
ok hofa hilmir.

ᛒ [Björk*)] er laufgað lim *b*
ok lítit tré
ok ungsamligr viðr.

ᛘ**) [Maðr] er manns gaman *m*
ok moldar auki
ok skipa skreytir.

ᛚ [Lögr] er vellanda vatn *l*
ok víðr ketill
ok glömmunga grund.

(ᛦ) [Ýr] er bendr bogi *y, ý*
ok óbrotgjarnt járn
ok fífu farbauti.

Kvæði þetta er alíslenzkt og er tekið að mestu eftir útgáfu Kr. Kålunds í Småstykker udgivne af Samfund til udgivelse af gammel nordisk litteratur, nr. 1 sbr. 4. Kh. 1884—5, með hliðsjón af L. F. W. Wimmer: Die Runenschrift, Berlin 1887.

Til er og annað kvæði sams konar, og mun vafalaust vera af norskum uppruna, en fært hér til íslenzkrar stafsetningar, eftir því sem verða má, enda eru og enn sum erindi úr því í hvers manns munni.

Fé veldr frænda rógi. *f*
Fœðisk ulfr í skógi.

---

*) eða bjarkan.

**) Skúli landfógeti Magnússon auðkendi oft nafn sitt með þessari rún.

Úr er af illu*) jarni. *u, ú, v*
Oft (h)leypr hreinn á hjarni.
Þurs veldr kvenna kvillu. *þ*
Kátr verðr fár af illu.
Óss er flestra [ferða. *o, ó*
ferill,**) en skalpr er sverða.
Reið kveða (h)rossum ve(r)sta, *r*
[Regin smið***) sverðit bezta.
[Kaun er beggja barna *k, g*
böl, gerir ná fölvan §)
Hagall er kaldastr korna. *h*
Kristr sköp heiminn forna.
Nauð gerir (k)nappa kosti. *n*
Naktan kelr í frosti.
Ís köllum brú breiða. *i, í, e*
Blindan þarf at leiða.
Ár er gumna góði. *a, á*
Get ek at örr var Fróði.
Sól er landa ljómi. *s*
Lúti ek helgum dómi.
Týr er ein(h)endr ása. *t, d, ð*
Opt verðr smiðr at blása.
[Bjarkan er laufgrœnstr líma. *b*
Loki bar flærðar tíma.§§)
Maðr er moldar auki. *m*
Mikil er greip á hauki.
Lögr er, er fellr úr fjalli, *l*
foss; en gull eru (h)nossir.§§§)
Ýr er vetr- grœnstr viða. *y, ý*
Vant er, er brennr, at svíða.†)

---

*) Leiðrétting Finns Jónssonar og S. Bugge í stað eldu járni.

**) Þ. e. haf, eftir leiðrétttingu B. M. Ólsens og S. Bugge.

***) Tilg. Guðm. Björnssonar, landlæknis.

§) Þannig vilja Sophus Bugge og Guðmundur landlæknir Björnsson taka þetta erindi upp.

§§) Svo tekið upp af Birni M. Ólsen og S. Bugge.

§§§) Tilgáta Finns Jónssonar og Wimmers.

†) Tilgáta Wimmers.

Eftir þessu stafrófi fóru rímnaskáldin, er þeir bundu nafn sitt eða annarra manna, t. d. þeirra, er þeir ortu rímur fyrir. Höfðu höfðingjar stundum rímnaskáld sér við hönd, líkt og konungar hirðskáld, og héldu vel, t. d. var Jón sýslumaður Árnason á Ingjaldshóli hinn mesti Mæcenas eða styrktarmaður rímnaskálda. Til þess að tákna *f*, mátti taka öll nöfn og kenningar fjár, gull, mundr, rínarljómi, lyngva-beðr o. s. frv. Til þess að tákna *m*, mátti taka öll heiti (kenningar) á mönnum. *a* er ár, sumar, vetr og allar árstíðir, tólf mánuðir, tvö misseri, o. s. frv. *þ* er þurs, jötunn, hár raumr, Ýmir, Hrungnir o. s. frv. — Fyrir *d* (ð) er haft *t* (týr), það er og kallað særðr týr. *p* hefi eg ekki séð táknað í rímum, en líklega mundi til þess vera haft b. *i* (ís(s)) og *e* er táknað jöfnum heitum, enda var sjaldnast gerður greinarmunur á þeim stöfum á rímnaöldinni, nema í upphafi orða. Þó er e stundum kallað stunginn ís (meiddur, brotinn).

Mjög misjafnlega tekst rímnaskáldunum að binda nafn sitt, eins og í skáldskapnum sjálfum. Sum þeirra fara og ærið langt og jafnvel lengra en leyfilegt mundi þykja, t. d. hefi eg séð *a* (ár) kent við (róðrar-)ár, og er þá býsna langt farið. Stundum eru bönd nafnsins svo flókin, að miklum erfiðleikum er bundið að fá þau leyst, jafnvel þeim mönnum, sem gott vit hafa á og eru þessu vanir; og er þetta oft engu betra viðfangs en erfiðustu gátur; stafar þetta oft af því, að sumar rímur eru að eins til í afskriftum og því oft afbakaðar eða rangt lesnar.

Eg skal nú taka sem sýnishorn nokkur erindi eftir fáein hin helztu rímnaskáld, er þeir binda nafn sitt.

*Fíóls blóma fegurð*[1]) sé
fýsir þangað *ríða*[2])
Sumir mæðast *sorginne*[3])
*svellið springur*[4]) víða.

*Eikin blómguð*[5]) *aldin*[6]) *regn*[7])
*Óðins burinn hreldur*[8])

*úði*[9]) *sumar*[10]) *marsins megn*[11])
mæðir *Hlýrnis eldur*[12]).

*Uppheims funi*[13]) *álpta grund*[14])
ærinn *harmur*[15] þjóða.
Marga girnir stytta stund
starfi meður ljóða.

[1]) = Ár = a (á). [2]) = reið = r. [3]) = nauð = n. [4]) Svell er ís (= i), sprunginn ís er stunginn ís (= e). Er þar þá komið út Arne, svo skrifað að þeirrar tíðar hætti. Föðurnafnið kemur í tveim næstu vísum. [5]) Björk = b. [6]) Ar = a. [7]) = úr = u. [8]) Óðins bur er Týr (t), en hreldur Óðins bur er særður Týr, þ. e. ð. [9]) = úr = u (v). [10]) = ár = a. [11]) = reið = r. [12]) = sól = s. [13]) = sól = s. [14]) = ós = o. [15]) nauð = n.

Skáldið er því Árni Böðvarsson á Ökrum og stendur þetta í Völsungarímum, sem Árni orti fyrir Jón sýslumann Árnason á Ingjaldshóli árið 1758 (víða til í handritum). Eru og flestar rímur Árna tileinkaðar Jóni sýslumanni*).

Í Brávallarrímum (kveðnum 1760 fyrir Jón sýslumann á Ingjaldshóli) legst Árni dýpra. Þar bindur hann nafn sitt þannig:

*Eik lúð drafnar*[1]) óðar söng
orti og *hrafna mæði*[2])
*mynni hafnar*[3]) *móðu* löng
*meiðast* jafnan *klæði*[4]).

[1]) = (róðrar-)ár = á. [2]) Hrafn = hestur, hesta mæði = reið = r. [3]) = fjörður, en fjörður heitir og angur (sbr. Harðangr), en angur er nauð = n. [4]) Móða = á; móðu klæði = ís = i; meidd móðu-klæði = e, meiddur, stunginn ís).

*) Árni Böðvarsson var fæddur 1713, dó 1777. Hann þótti skáld gott og er til eftir hann fjöldi rímna. Hefir hann oft skrifað upp mörg eintök af rímum sínum, sem sjá má af rímnabókum í landsbókasafninu, og sömuleiðis eftir aðra. Eftir hann eru prentaðar þessar rímur: 1) Rímur af Þorsteini uxafæti, Khöfn 1771, 2. útg. Khöfn 1858. 2) Agnars ævi Hróarssonar, Hrappsey 1777. 3) Rímur af Ingvari víðförla og Sveini syni hans, Hrappsey 1777. 4) Rímur af Úlf-

Þessi er auðveldari:

*Úrferð*[1]) *stingur*[2]) *ár*[3]) *reið*[4]) *nauð*[5])
*eymdin þung*[6]) með sanni
kvæðin syngur sóma snauð
sér og þér að ganni*).

[1]) = Úr = u. [2]) = kaun = k eða g (hér g). [3]) = a. [4]) = r. [5]) = n. [6]) = nauð = n.

Ef stafirnir eru teknir í beinni röð kemur út: ugarnn. En eins og áður er á vikið, verður oft að raða stöfunum til þess að fá nafnið út. Með röðun stafanna kemur út Gunnar. Vísan er tekin úr Búa rímum Andríðarsonar, en þær orti Gunnar Ólafsson frá Gufuskálum árið 1773. Ekki hafa þær verið prentaðar, en finna má þær í handritum.

Hér koma enn erindi, sem raða verður, og það svo að lesa verður á hebrezku eða byrja á aftasta stafnum og halda svo áfram öfugt:

Saman kvæði sögunni úr
saman tvinna réði
*drösuls mæða*[1]) *daggar skúr*[2])
dapurt skýið léði.

*Ríkidæmi*[3]) *ránarþak*[4])
*reyndar voðir díkja*[5])
*vatns samkvæmi*[6]) *essa ómak*[7])
*útrás vatna síkja*[8]).

*Hlemmur hjaldurs*[9]) *himna salt*[10])
hraður náði þylja

---

ari sterka, kveðnar af Árna og Þorláki Guðbrandssyni. Hafa Úlfars-rímur verið mjög vinsælar hér og verið gefnar út þrisvar, fyrst í Hrappsey 1775; 2. útg. Viðey 1834; 3. útg. Reykjavík 1906. — Eftir Árna er og kvæðið Skipafregn, sem fyrst er prentað í Hrappsey með Tímarímu Jóns Sigurðssonar 1783. Hefir það kvæði náð miklum vinsældum og er sungið í veizlum og samkvæmum enn í dag.

*) Þ. e. gamni, sem svo er fram borið víða, að minsta kosti sunnanlands.

hrotta baldurs heitið alt
hægt mun veita að skilja.

[1]) Dröslull = hestur, mæði hests = reið = r. [2]) = úr = u. [3]) = fé = f. [4]) = ís = i. [5]) Voðir díkja = ís, reyndar voðir díkja = reyndur ís = stunginn ís = e. [6]) lögur = l. [7]) = reið = r. [8]) = ós = o (hér ö). [9]) = ís = i (hér j). [10]) = hagall eða hagl = h.

Ef stafirnir eru lesnir aftur á bak kemur út mannsnafnið Hjörleifur. Þessi erindi eru úr Þjalar-Jóns rímum eftir síra Hjörleif Þórðarson á Valþjófsstað*). Ekki hafa þær rímur verið prentaðar.

Eins og kunnugt er, ortu menn rímur um alla hluti milli himins og jarðar, að heita má. Til eru rímur út af heilagri ritningu eða einstökum bókum hennar, jafnvel Jesú-rímur eru til. Bacchusar-rímur voru til, að því er Grunnavíkur-Jón segir, sem tilfærir nokkur erindi úr þeim, en ekki hægt að svo stöddu að segja um, hvort enn séu til. Það er því ekki að undra, þótt ortar hafi verið rímur af dæmisögum Esopus (Æsopus-rímur). Þær orti síra Guðmundur Erlendsson á Felli, sá hinn sami sem orti Jesúrímur. Í Æsopus-rímum bindur síra Guðmundur nafn sitt á þessa leið:

*Sturlað kaunið*[1]) *steypiregn*[2])
*stunginn týr*[3]) og *maður*[4])
*elkers-baun*[5]) og *eymdin megn*[6])
*ásinn þrábenjaður*[7]).

Aðhnígandi *úr*[8]) sem *reið*[9])
eg þess nafnið játa

[1]) Kaun = k (g), sturlað kaun = g. [2]) = úr = u. [3]) = d (hér ð). [4]) = m. [5]) elker = élker = himinn, baun himins = úr = u. [6]) = nauð = n. [7]) Ásinn = Týr (t), þrábenjaður ás = stunginn týr = d. [8]) = u. [9]) = r.

*) Síra Hjörleifur (d. 1786, um nírætt) þótti skáld gott. Orti hann jafnt á latínu sem íslenzku. Ekkert liggur eftir hann prentað í heild nema latínsk þýðing á Passíusálmum Hallgríms Péturssonar (Qvinqvaginta psalmi passionales), pr. í Khöfn 1785.

Golnis sandinn geðs af leið
er greiddi um ræðu máta*).

Þetta erindi er úr rímum af Sveini Múkssyni eftir Kolbein Grímsson**), og eru þær ortar fyrir Brynjólf byskup Sveinsson að sögn Einars Bjarnasonar á Mælifelli í Fræðamannatali:

*Snúðig för*[1]) á *ísi*[2]) er
*ánauð*[3]) *lands* hjá *blóma*[4])
*lögur*[5] *ós*[6] *kaun*[7] eg lýsi hér
með *límuðum vatna dróma*[8]).

[1]) Verður að vera = reið = r. [2]) = i. [3]) = n. [4]) Blómi lands björk (bjarkan) = b. [5]) = l. [6]) = o. [7]) = k. [8]) Vatna drómi = ís, límaður vatna drómi = stunginn ís = e.

Með því að raða stöfunum rétt kemur út mannsnafnið Kolbeirn, þ. e. Kolbeinn. Það er altítt á þessum öldum, 16., 17., 18. og jafnvel 19. öld, að rita rn fyrir nn, þar sem þeir stafir fara saman í samstöfu, t. d. Sveirn, eirn o. s. frv.

---

*) Síra Guðmundur (d. 1670) orti firnin öll. Eftir hann eru prentaðir sjö sálmar með 1. og 3. útgáfu Passíusálma Hallgríms Péturssonar (Hólum 1666, 1682) („Historia Pijnunnar og Daudans Drottins vors Jesu Christi. Efter Textans einfalldre Hliodan i siø Psalmum yferfaren, Af S. Gudmunde Erlends Syne“). En lengur fylgdust þeir ekki að, klerkarnir, og ekki hafa þessir sálmar síra Guðmundar verið prentaðir síðan, svo að eg viti.

**) Kolbeinn þessi (Kolbeinn Jöklaraskáld) var skáld mikið og kallaður vera ákvæðaskáld. Hann var sá, sem kvaðst á við kölska („Þetta er engi skáldskapur, Kolbeinn!“) og kvað hann í kútinn. — Hefir Kolbeinn vafalaust verið veraldarmaður og sjálfsagt göldróttur talinn. En þó er til eftir hann andlegur kveðskapur og er það eitt prentað eftir hann. Eru það sálmar út af Havermanns (Avenarii) bænum („Nockrer Psalmar sem syngiast meiga Kuølld og Morgna vm alla vikuna . . . þryckter a Hoolum j Hiallta Dal. Anno. 1682“). Mun það kver vera mjög sjaldgæft. Ekki er það til í bókhlöðu konungs í Khöfn né í Fiskessafni, en í landsbókasafninu er það til.

Magnús í Magnússkógum (f. 1763, d. 1840) og Laugum kallaður Jónsson*) orti (árið 1823) Rímur af Bernótusi Borneyjarkappa, sem lengi hafa verið vinsælar með alþýðu manna. Hann bindur svo nafn sitt þar:

*Álfur geira*[1]) *ekra fríð*[2])
*opnað meinið sára*[3])
*sullur*[4]) *úði*[5]) *sunna*[6] blíð
samdi gnoðir jára.

[1]) Mannkenning = m. [2]) Ár þýðir og árferði, og er því fríð ekra = ár = a. [3]) Mein = kaun, opnað mein = g. [4]) = nauð = n. [5]) = u (ú). [6]) = sól = s.

Sveinn Þórðarson orti rímur af Reinaldi og Rósu árið 1820. Nafn hans og föður hans er auðlesið úr þessum erindum:

Sólin, dögg og sjávarþak
særing jafnan skerði,
reiðin snögg og rauna blak,
ráðið nafnið verði.

Auknafn trölla, ós og reið,
Óðins særði niður,
dögg um völl úr lofti leið,
lönd er nærði viður.

Jón sýslumaður Þorláksson (byskups Skúlasonar) virðist hafa verið rímnavinur mikill. Hann lagði út Trójumanna-sögu (eftir Ilias Hómers?) og fekk til Jón skáld Jónsson í Vattarnesi að yrkja rímur af til handa Elínu systur sinni. Þar bindur Jón svo nafn sitt:

Græðis reifar, grundin svans
gerði söguna þylja,
niður straums er nafnið hans.
Nú mun hægt að skilja.

---

*) en talinn sonur Magnúsar Pálssonar Vídalín, (sbr. ævisögu Magnúsar eftir dr. Jón Þorkelsson í Bernótusarrímum, 2. útg. Reykjavík 1907. Vísast þangað um Magnús og rit hans).

Nafnið er auðráðið. Þó er niður straums nokkuð langt sótt til þess að þýða nauð (= n), enda er og í þess stað í sumum handritum nauðin þræla, og fer þá alt vel.

Rímurnar voru jafnvinsælar meðal höfðingja sem alþýðu manna. Menn í æðstu embættum landsins ortu rímur, t. d. Sveinn lögmaður Sölvason (rímur af Gizzuri jarli Þorvaldssyni, prentaðar í Leirárgörðum 1800). Sjálfir guðsmennirnir ortu rímur, þrátt fyrir mótspyrnu ýmsra (einkum sumra byskupanna) gegn rímunum og öðrum veraldlegum kveðskap. Jafnvel síra Hallgrímur Pétursson orti rímur. Hann hefir ort Króka-Refs-rímur, rímur af Lykla-Pétri og Magellónu og rímur af Flóres og Leó (byrjar þar sem Bjarni skáldi Jónsson hætti). Í Króka-Refs-rímum bindur síra Hallgrímur nafn sitt svo:

Hríð með gróða, karfa kör,
kaunið sært af undrum,
ferð um ís og bauga bör
bragina færði stundum.

Til eru rímur af Marsilius og Rósamundu. Hefir skáldið heitið Jón og ort rímurnar fyrir Ingibjörgu nokkura, eða tileinkað henni þær. Þetta má sjá af þessum erindum í rímunum:

Heiðurs kæra heitir sú
*hruflur tvær*[1]) og *svellin þrjú*[2])
eik sem grær við álfta bú
essið slær hið breyzka hjú.

Hann, sem þuldi hróðrar kver,
heitir kuldi og andar ver,
heimtuð skuld, sem ei til er,
ekki duldi eg nafnið hér.

[1]) Þ. e tvö kaun (gg). [2]) Þrír ísar (i i i).

Hitt er auðskilið. En raða verður stöfunum til þess að fá út nafnið.

Guðmundur Bergþórsson (f. 1655, d. 1705) hefir ort ókjörin öll af kvæðum og rímum*). Guðmundur hefir verið maður prýðilega gefinn og víðlesinn. Hefir hann eflaust ort mörg kvæði sín sér til afþreyingar, en hann var maður svo bagaður á líkama, að hann gat ekki gengið til vinnu. — Í Jarlmanns rímum og Hermanns bindur Guðmundur svo nafn siit.

Sárið, skúrar þverir þrír,
þegn af dignar stríði,
ferðir harðar tvær á týr,
tjáði kvæða smíði.

Er nafnið auðfundið, en raða verður stöfunum.

Þormóður Eiríksson í Gvendareyjum, sem kunnur er hverju mannsbarni hér á landi af þjóðsögnum, sem um hann ganga, var skáld mikið. Hann hefir ort Guðbrandsrímu (um hrakning Guðbrands í Skorey). Þar bindur hann nafn sitt svo:

Jötunn hár við jarða mót
með jálka hvíldar banni,
Ásgarðs jöfur, afskept spjót,
úði á reisumanni.

Hér er það athyglis vert, að Þormóður notar þarna hið forna (upphaflega) nafn rúnarinnar (o), Ásgarðs jöfur, þ. e. Óðinn, en ekki ós (haf, vatn o. s. frv.).

---

*) Engar eru rímur hans prentaðar, en sum kvæði hans eru prentuð: Heimspekingaskóli í Hrappsey 1785 og aftur í Reykjavík 1845 og enn s. st. ásamt Fuglskvæði 1905. Vinaspegill í Reykjavík 1845 og aftur með Tólfsona-kvæði í Reykjavík 1904. — Guðmundur telur upp rímur sínar í fimtu rímu Ferakuts-rímna (= Bálants-rímur), sem hann orti árið 1701, og eru þær þessar: Dínus rímur drambláta, Jarlmannsrímur og Hermanns, Olgeirs rímur danska, Otúels rímur, Samsonar rímur (fagra), Finnboga rímur, Valbrands rímur, Trójumanna rímur, Kræklinga rímur, Bertrams rímur, Bósa rímur, Eiríksrímur víðförla, Hænsa-Þóris rímur og Ferakuts rímur.

Að endingu skal eg setja hér erindi eftir Níels skálda Jónsson*), tekið úr rímum um Franz Dönner; þar bindur hann nafn sitt svo, og er all-kringilega gert:

Sitt því nafn hver *nauð*[1]) til dró,
Norðra knör sá fermdi,
*rjáfur drafnar heilt*[2]) á *hjó*,[3])
*hlé*[4]) þar *röðull*[5]) vermdi.

[1]) = n. [2]) heilt drafnar-rjáfur er *ís*, en [3]) við það að höggva á ísinn, er hann orðinn stunginn (= e), svo að [4]) hlé (líklega sama sem vök) er komið í stunguna (þ. e. lögur = l) af [5]) hita sólarinnar.

---

Það var ekki tilgangurinn með þessari stuttu grein að rita nánara um rímur (né rúnir) en fyrirsögnin segir til. Fullkomna rímnaskrá er nauðsynlegt að gefa út, og yrði það stórt rit og þyrfti miklar rannsóknir til þess. — Jón Sigurðsson hefir samið uppkast til rímnaskrár og er það að finna í handritasafni hans (í landsbókasafni, J. S. 314, 8vo.), en það nær mjög skamt. Rímurnar virðast vera runnar af alíslenzkri rót**). Gildi þeirra er margvíslegt, ekki að eins sem skáldskapur, heldur og í menningarsögu, málsögu, málfræði o. fl. Það er ekki sízt rímnaskáldunum að þakka, að með alþýðu hélzt þekking á Eddu (Skáldskaparmálum, Eddukenningum). Hafa mörg rímnaskáldin verið stórvel að sér í þeim efnum, eins og sjá má að nokkuru hér að framan. Þótt nú sé farið að fækka þeim,

*) Níels (f. 1783, d. 1857) orti mikið, mest rímur, og var hinn mesti sérvitringur, en gáfumaður að upplagi. Eftir hann eru prentaðar „Rímur af Franz Dönner, er var þiódverskur Obersti“, Viðey 1836 og „Rímur af Flóres og Blanzeflúr“, Akureyri 1858.

**) Sumar elztu rímurnar hafa verið notaðar við dansa, að því er virðist. Enn er órannsakað, hvort dansarnir (vikivakar) hafa verið af íslenzkum (norrænum) uppruna eða útlendum. En jafnvel þótt dansarnir hafi í eðli sínu verið útlendir, er ekki þar með sagt, að rímurnar séu af útlendum toga spunnar.

er yrkja rímur, hafa þær þó haldizt frá 14. öld fram á þennan dag. Dofnað hefir yfir þeim hina síðari áratugi, og eru þær þó enn lesnar og kveðnar á kvöldvökum. Ekki er fyrir það synjanda, að rímurnar kunni enn að komast í öndvegi í kveðskap þessa lands og endurfæðast, og þá líklega í breyttri mynd og meðferð.

*Páll Eggert Ólason.*

---

# Bjartsýni og svartsýni.

Alþýðufræðsla Stúdentafélagsins (stytt).

---

Eg ætla að fara nokkrum orðum um tvær ólíkar skoðanir á tilverunni. Þær eru eflaust jafngamlar og mannkynið sjálft. Lífið er ekki á eina bókina lært. Gleði og sorg, sæla og kvöl, meðlæti og mótlæti, þraut og hvíld skiftast á eins og dagur og nótt. Svo er það á lífsleið einstaklingsins, á lífsbraut þjóðanna og mannkynsins í heild sinni. Og þessi sífeldi öldugangur lífsins hefir á öllum tímum verið eitt af viðfangsefnum þeirra, sem hugsað hafa um lífið og tilgang þess, allra þeirra sem ekki »flutu sofandi að feigðar ósi«. Eitt af því sem greinir manninn frá dýrunum er þetta, að hann reynir að skilja stöðu sína í heimi þeim sem hann er settur í, reynir að fá útsýn yfir tildrög og gang lífsins. Án vilja okkar og vitundar erum við öll komin inn í þennan heim og orðin þar hluthafar í allsherjar kaupsýslan, og hvort sem stofnféð er mikið eða lítið, verðum við að eiga þátt í viðskiftunum — eða deyja. Margir láta sér liggja í litlu rúmi hvernig fer um stofnfé þeirra. Þeir láta aðra halda reikningana fyrir sig og eru ánægðir meðan þeir fá úttekt, en hugsa aldrei um það, hvernig verzlunin í heild sinni borgi sig. Aftur eru aðrir sem ekki geta felt sig við að vera óvitandi um hag sjálfs sín, né hitt, að vita ekkert um það, hvernig öðrum gengur verzlunin og hvernig hagur heildarinnar stendur. Þeir vilja vita á hvaða grundvelli þetta feikna-fyrirtæki hvílir. Þeir vilja vita hvort verzlunin borgar sig, ekki að eins fyrir einstöku menn, heldur og fyrir heildina, og skyldi

niðurstaðan verða sú, að verzlunin borgi sig ekki, eins og stendur, þá vilja þeir vita hvort það liggur í einhverri eðlisnauðsyn hlutanna, eða kemur af því að illa er á haldið. Er lífið verzlun sem borgar sig, eða gæti borgað sig? Um það spyrja þeir. Og eftir því hvort menn svara þessari spurningu játandi eða neitandi má skifta þeim í tvo flokka: bjartsýna menn og svartsýna.

Eg býst við að þið þekkið menn af báðum þessum flokkum og hafið tekið eftir því, að þessar ólíku lífsskoðanir eiga oftast fremur rót sína í eðli manna eða upplagi heldur en í lífskjörum þeirra. »Sínum augum lítur hver á silfrið«, segir máltækið, og sumir eru svo gerðir, að þeir líta ósjálfrátt helzt á skuggahliðarnar og hugsa mest um það sem amar að þeim eða öðrum, en aðrir hafa augun síopin fyrir hverjum sólskinsbletti og dvelja helzt með hugann við bjartar og hlýjar endurminningar. Eins getur sami maður stundum verið bjartsýnn og stundum svartsýnn. Það er sama skáldið sem kvað:

„Vort æskulíf er leikur,
sem líður, tra-la la“.

og

„lífið alt er blóðrás og logandi und,
sem læknast ekki fyrr en á aldurtila stund“.

Slíkir dómar eru og hljóta altaf að vera einskonar sleggjudómar. Þeir koma af því, að menn álykta af augnabliksástandi sínu og gera ráð fyrir því að öll tilveran sé eins og hún virðist í svipinn. Það er álíka og ef maður kyntist t. d. einhverjum Englendingi sem reyndist manni illa og ályktaði svo að allir Englendingar væru fúlmenni, eða kyntist einhverjum góðum Þjóðverja, og lyktaði að allir Þjóðverjar væru góðmenni. Slíkt hendir margan. Ef stúlka bregzt manni, þá verður það ef til vill til þess að hann heldur að allar konur séu hverflyndar, og raular fyrir munni sér hið fornkveðna:

„Meyjar orði
skyli manngi trúa“, o. s. frv.

Allir slíkir stundardómar koma af því, að menn gleyma hve óendanlega fjölbreytt tilveran er, gleyma því að gott og ilt, sæla og kvöl, meðlæti og mótlæti skiftist á, og að sami hlutur getur frá einu sjónarmiði verið góður og frá öðru illur. En það ætti að vera auðsætt, að enginn getur gert upp lífsreikninginn, hvorki fyrir sjálfan sig né aðra, nema hann þekki nákvæmlega tekjur og útgjöld, og geti jafnað þeim saman. Gerum t. d. ráð fyrir, að meta mætti lífið eftir því hve mikla sælu eða kvöl það hefir í för með sér. Gleðin, ánægjan, sælan væru tekjurnar, sorgin, óánægjan, kvalirnar væru útgjöldin. Mundi ekki hverjum einum verða erfitt að gera upp þann reikning, þó ekki væri fyrir aðra en sjálfan sig? Mundi ekki margur segja líkt og Tegnér í einu kvæði sínu:

„Og loksins finst mér leika á því vafi,
hvort lífið glatt eða hrygt mig oftar hafi“.

En hvaða vandi væri þó það, að gera upp reikninginn fyrir sjálfan sig, í samanburði við hitt, að reikna út hvort allar lifandi verur kenna meiri sælu en kvalar, og meta þannig hag lífsverzlunarinnar í heild sinni. Hver er sá, að hann þykist hafa mælt hæð þeirrar gleði og nautna sem allar lifandi verur njóta, eða dýpt sorgarinnar og sársaukans er þær kenna? Hvernig ætti hann að fá vitneskju um skoðun, ekki aðeins allra manna, heldur og allra fiska, fugla, ferfætlinga og skriðkvikinda og ef til vill plantnanna með, ef þær hafa einhverja meðvitund? Eg veit að enginn getur látið alt lifandi greiða þannig atkvæði um gildi lífsins, en meðan þeirri atkvæðagreiðslu er ekki lokið, hefir enginn rétt til að halda því fram, að lífsverzlunin í heild sinni borgi sig ekki. Slík skoðun er ekki á rannsókn né reynslu bygð, og getur aldrei orðið bygð á þeim grundvelli. Og reyndar virðist alt sem lifir mótmæla henni — með því að lifa meðan líft er. En hér við bætist það, að óvíst er hvort hægt er að meta gildi lífsins eftir þeirri sælu eða kvöl sem það veitir, eða hvort

sæluþráin er dýpsta hvötin í brjóstum mannanna. Carlyle segir á einum stað:

»Það er að bera rangar sakir á mennina að segja, að þægindin, sæluvonin, launin — sykur og sælgæti í þessum heimi eða öðrum — knýi þá til hreystiverka. Jafnvel hinn lítilmótlegasti dauðlegra manna er göfugri en svo. Hver óbreyttur, bölvandi liðsmaður, sem gengur á mála til þess að láta skjóta sig, á sína hermannsæru, sem ekkert á skylt við heraga eða krónulaun. Það er ekki sælgætisát sem hinn vesælasti Adamssonur óljóst þráir, heldur hitt, að gera það sem göfugmannlegt er og rétt og að sanna í himinsins augsýn goðkynjað eðli sitt. Kendu hinum sljófasta vinnuþræl ráðið til að gera þetta, og hann fyllist hetjumóði. Erfiði, sjálfsafneitun, píslarvætti, dauðinn eru tælitafn mannlegs hjarta«.

Eitt gullfallegt kvæði eftir Stephan G. Stephansson heitir Vetrar-ríki. Eg get ekki stilt mig um að setja það hér. Kvæðið er svona:

Þú krimpar þig hálfgert við kuldann hér nyrðra
Og klökugu fjöllin sem girða mann af.
En unir þér betur við sólskinið syðra
Og sumarið langa og brúnaslétt haf.

En klakann og mjöllina met eg þér betur,
Því mjallar og klakans eg fósturbarn er —
Og ég á í æfinni oftast nær vetur
Einn fleiri en sumrin mín — hvernig sem fer.

Eg veit það er indælt við sjávarins sanda,
Þá sólarlags gullþiljum ládeyðan felst
En þar kysi eg landnám sem langflestir stranda,
Ef liðsint eg gæti — eg bygði þar helzt.

Eg veit það er lánsæld að lifa og njóta,
Að leika og hvíla sem hugurinn kýs —
En mér finst það stærra að stríða og brjóta
Í stórhríðum æfinnar mannrauna ís.

Þann ferðamann lúinn eg lofa og virði,
Sem lífsreynslu skaflana brýtur á hlið,
En lyftir samt æfinnar armæðu byrði
Á axlirnar margþreyttu og kiknar ei við.

Og oft fanst mér vorbata viðreisnin blíðust,
Sem veturinn langstæði nær-seildist til,
Og kveldskinið indælast, hvíldin sú þýðust
Sem kom þegar slotaði myrkviðris byl.

Sá hetjuhugur, sem ljómar í þessu kvæði, logar á dýrasta kveik lífsins, og ber því skærari birtu, sem myrkrið er meira umhverfis Flestir munu finna inst í sál sinni, að lífið verður ekki talið einskis virði meðan slík ljós loga.

Eg býst nú við að þið án frekari röksemda fallist á, að það væri fávíslegt af nokkrum manni að þykjast geta gert upp reikning alls lífs á jörðunni og sagt hvort búskapurinn borgar sig eða ekki. Það væri fullvel gert, ef einhver gæti lagt fram glöggan reikning yfir líf sjálfs síns og svarað spurningunni, hvort h a n n hefði fundið meira af góðu en illu í heiminum, hitt fleiri valmenni en fúlmenni, orðið fyrir meira meðlæti en mótlæti o. s. frv. Ef hver og einn héldi þannig reikning fyrir sjálfan sig, þá gæti það orðið undirstaða undir dóma um það, hvernig heilum hópum manna reyndist þessi heimur sem þeir lifa í, og reynsluþekkingin á þessu efni orðið víðtækari og víðtækari, að því er virðist. Gerum þá ráð fyrir, að við hefðum þannig í höndum lífsreynslu fjölda manna, er komist hefðu að þeirri niðurstöðu, að líf þeirra væri þrotabú, að lífsbúskapur þ e i r r a hefði ekki borgað sig. Mundum við geta dregið af því nokkrar ályktanir um okkur sjálf eða það hvernig okkur mundi reynast heimurinn? Eg held við gætum það ekki. Þrátt fyrir öll þrotabú veraldarinnar, byrja nýir og nýir menn búskap, af því þeir vita að það sem einum mistekst getur öðrum tekist, ef hann fer hyggilegar að og forðast ófærurnar sem hinir hafa lent í.

Og hér kem eg nú að því sem er mergurinn málsins, en hann er þetta: H v e r n i g m a n n i r e y n i s t h e i m u r i n n, þ a ð f e r e f t i r þ v í, h v e r n i g m a ð u r **er** o g h v e r n i g m a ð u r **hagar** s é r.

Heimurinn er svo óendanlega fjölbreyttur, að jafnvel hver einstakur hlutur hefir fleiri eiginleika en unt er upp-

að telja í fljótu bragði. Enginn maður er svo lærður eða svo athugull, að hann geti greint nema örlítið brot af öllu því sem um er að vera í kringum hann. Það sem vér sjáum og heyrum er aldrei nema úrval af því sem fyrir hendi er, og vér sjáum að jafnaði fátt annað en það sem vér leitum að. »Leitið og munuð þér finna«, er eitt hið djúpúðgasta ráð sem mönnunum hefir verið gefið. Til að finna, verður oftast að leita og leita vel. En þá er auðsætt, að ekki er sama að hverju leitað er, og að öll lífsreynslan verður eftir því, að hverju er leitað og hvernig og hvar er leitað. Grasafræðingurinn kemur heim úr leit sinni með fjölda fágætra jurta, sem ógrasafróður fylgdarmaður hans hafði ekkert tekið eftir, af því að hann þekti ekki jurtirnar og vissi ekki að hverju hann átti að leita. Gulleitarmaðurinn finnur gullið þar sem aðrir höfðu oft gengið og aldrei rekist á neitt gull, af því þeir voru ekki að leita og voru ekki glöggir á gullið. En fyrir þeim sem leita eins og aulabárðar fer oft líkt og í vísunni:

„Grammatíkus greitt um völl
gekk með tínukerin.
Hann hirti spörðin, eg held öll,
en eftir skildi berin“.

Svona er þessu farið í öllum efnum. Sá sem t. d. leitar alt af að björtu hliðunum á hverjum hlut, leitar að því góða hjá mönnunum, leitar að því sem verða má helzt til bjargar í hverjum vandræðum sem að höndum bera — hann finnur oftast það sem hann leitar að, því »fátt er svo ilt að einugi dugi«. Hinn sem hefir alt af augun opin að eins fyrir skuggahliðunum, leitar að því sem ilt er í fari annara og öllu því sem til hindrunar er og ama — hann finnur líka það sem hann leitar að, því:

„löstu og kostu
bera lýða synir
blandna brjóstum í“,

og alstaðar eru einhverir annmarkar á, ef vel er leitað. Þess vegna getur einn komið heim með sólskin í sál og fjölda fagurra endurminninga um menn og málefni úr

sömu ferð sem annar kom úr með kalda skugga, ömurlega reynslu um vonsku mannanna og illkvitni atvikanna. Báðir gengu um sama völlinn með tínukerin sín, en annar hirti berin, hinn spörðin. Og hvor um sig má sjálfum sér þakka eða kenna það sem hann fann, því hvorttveggja var fyrir hendi.

Vér sjáum þá á þessu, að það er í rauninni rangt að spyrja hvor hafi réttara fyrir sér, bjartsýni maðurinn eða svartsýni maðurinn. Þeir hafa báðir jafnrétt fyrir sér, að því leyti sem hvor um sig segir aðeins hvað hann hafi fundið. Reynsla beggja er jafngild, jafnsönn fyrir hvorn þeirra um sig, svo langt sem hún nær: Svona hefir þeim reynst að lifa. En þegar við vitum hvernig á því stendur, að þeim reyndist lífið svona misjafnt, þegar við vitum að þeir fundu sitt hvor af því að sinn leitaði að hvoru, þá vaknar ný spurning, og hún er þessi: Hvort er betra að vera bjartsýnn eða svartsýnn, eða hvort ætti maður heldur að vera, ef slíkt er manni með einhverjum hætti í sjálfsvald sett?

Svarið liggur opið fyrir. Það fer eftir því, hvort þér þykir betra að finna ljósið eða myrkrið, gleðina eða sorgina, berin eða spörðin. Ef þú vilt finna hið bjarta, hið fagra og góða, þá leitaðu alstaðar að því. Að vera bjartsýnn er að leita að ljósinu og vera næmur fyrir því, vera fundvís á það. Að vera svartsýnn er að leita að skuggunum, vera fundvís á þá. En þetta má temja sér eins og annað. Hæfileikarnir, upplagið er að vísu mismunandi. Sumir eru, eins og eg tók fram í upphafi, hneigðari í aðra þessa stefnu en hina, en eins og sá sem hefir lítið söngeyra getur með ástundun orðið næmari á tóna og tónasambönd, eins er með þetta Í öllum efnum má bæta nokkuð hæfileika sína ef þeim er vel beitt. Ef við þess vegna trúum því, að

„glöðum er betra
en glúpnanda
hvat sem at hendi kemr“

þá verður það bein skylda okkar að temja okkur glöggskygni á alt það sem gleður og hressir, temja okkur bjartsýni.

En nú get eg hugsað mér að einhver segi sem svo: Það væri dálaglegt eða hitt þó heldur, ef menn byggjust altaf við því bezta. Með því yrði lífið eintóm vonbrigði. Fæstar vonir rætast. Sá sem treystir flestu verður oftast svikinn. »Engum trúa ekki er gott, en öllum hálfu verra«.

Þessu svara eg svo: Það að vera bjartsýnn er ekki sama sem að vera heimskur, ekki sama sem að loka augunum fyrir öllu sem ilt er, stinga fingrunum í eyrun, þegar eitthvað hljómar illa, eða taka fyrir nefið, þegar eitthvað er vont á lyktina. Að vera bjartsýnn er ekki sama sem að flýja óþægindin og örðugleikana, eða láta eins og þeir væru ekki til. En að vera bjartsýnn er það að hafa stöðugt opin augun fyrir því sem kann að leynast af góðu í hverjum hlut, vera á varðbergi, hvort ekki finnist, þegar að er gáð, einhver lyfsteinn í hjöltum sverðsins sem særði mann, lyfsteinn sem græðir sárið. Sá sem er bjartsýnn getur verið jafnskarpskygn á það sem miður fer, eins og hinn svartsýni, en að hann sér hvað að er verður honum aðeins tilefni til að leita að ráðum til að bæta úr því, og hann verður því fundvísari á þau ráð, sem hann er bjartsýnni. Einkenni bjartsýna mannsins er yfir höfuð það, að hann spyr ekki aðeins um það hvað e r, heldur og miklu fremur um hitt, hvað g æ t i orðið, og sú lífsstefna er tilverunni miklu samkvæmari en hin sem altaf skoðar það sem e r eins og það væri svo í eitt skifti fyrir öll. »Ekkert e r, en alt er að v e r ð a«, sagði forngrískur spekingur, og má það til sanns vegar færa. Það sem var rétt áðan, það er orðið breytt nú og breytist á næstu stundu, en hvernig það breytist, hvað úr því verður, það er okkur oft að meira eða minna leyti í sjálfvald sett. Því að við vinnum með að veraldarsmíðinni og sumt af því sem til hennar þarf verður til okkar að sækja. Búskapur tilverunnar er ekki betri en það, að lánstraust eða traustslán er henni nauðsynlegt. Sumt getur aldrei orðið án þess að trúað sé á það áður en það verður. Við gætum ekki einu sinni hreyft hönd eða fót af sjálfsdáðum, ef við tryðum því ekki að við gætum það. Hvenær mundi

t. d. hús verða reist, tún sléttað, vegur lagður, eða nokkur uppgötvun gerð, ef ekki væri trúað á það fyrirfram, að þetta mætti takast. Mörgum hefir tekist það sem aðrir vantreystu honum til, fyrir það að hann treysti sér sjálfur. Hins vegar hefir oft maður reynst vel fyrir það eitt að aðrir væntu þess af honum. Jafnvel fantur getur reynst drengur þeim sem fölskvalaust treystir honum; og hver maður sem nokkur taug er í, finnur að traust annara leggur honum því helgari skyldur á herðar sem það er óverðskuldaðra. Þannig reynist trúin á hið góða lyftistöng til að hefja lífið á hærra stig.

Vantraustið, svartsýnið, er eins og farg eða martröð á brjóstum manna. Það lamar framkvæmdaþrótt þess sem elur það, og hann sýkir aðra út frá sér, því mennirnir eru svo gerðir, að þeir trúa oftast ósjálfrátt er þeir sjá trúna í augum eða atburðum annara, en verða vondaufir af að sjá vonleysið á öðrum.

Bjartsýnið er hvarvetna vottur um lífsþrótt og heilbrigt líf. Við verðum að sama skapi bjartsýnir sem við erum vaxnir þeim kröfum er lífið gerir til okkur. Bjartsýnið er skoðunarháttur hins hrausta og hugprúða, sem aldrei æðrast. »Þat skaltu vita, at enn lifa hendr Hrólfs, þó fætrnir sé farnir«, er þeirrar ættar. Og kenning forfeðra okkar var:

„Glaðr ok reifr
skyli gumna hverr,
unz sinn bíðr bana“.

*Guðm. Finnbogason.*

---

# Kopernikus.

---

Í fyrirlestri herra Guðm. landlæknis Björnssonar »Um jarðarfarir, bálfarir og trúna á annað líf« (Skírnir 1913) er minst á þann mann, er eg rita um þátt þenna[1]). Eg veit það vel, að nafn hans er mörgum kunnugt, svo og þetta, er segir í fyrirlestri þeim er eg nefndi, að hann »arfleiddi mannkynið að nægum sönnunum fyrir því, að jörðin er ekki miðdepill alheimsins; hún gengur kringum sólina, en ekki sólin kringum hana. Og reikistjörnurnar 5, sem við sjáum, ganga líka kringum sól: jörðin er reikistjarna, og tunglið gengur kringum hana. En utan yfir öllu þessu er himinfestingin með fastastjörnunum, veraldarskurnið; — við því haggaði Kopernikus ekki«. En hins vegar þykist eg vita, að þeir muni fremur fáir vera á voru landi, er frekari deili vita á merkismanni þessum, er svo er mikils um vert í framfarasögu mannkynsins, að hann reisir upp merkið, það er fylgja skyldi, til að drepa niður villu, hjátrú og vanþekkingu, og leiða mannkynið til réttari skilnings á sjálfu sér, — þótt aðrir beri síðan merkið fram til fullkomins sigurs. Það er enginn furða, þótt flestir viti lítið um mann þenna, þar sem tæplega er nafns hans getið í íslenzkum bókum. Fyrir því rita eg þátt þenna, að mönnum yrði nokkuð meira um hann kunnugt.

*Niklas Koppernigk* er maður nefndur. Hann var kaupmaður á Pólverjalandi í borg þeirri er Krakov heitir, og

---

[1]) Í fyrirlestrinum segir, að Kopernikus hafi dáið 1520. Það er eigi rétt. Öllum bókum, þeim er eg hefi séð, ber saman, að hann hafi dáið 24. dag maímánaðar 1543.

var höfuðborg þar í landi. Hann var auðugur maður og vel metinn. Síðar fluttist hann norður í land til borgar þeirrar, er Thorn heitir, og stendur við Weichselá. Þar var hann og kaupmaður og líkaði öllum vel við hann og hélt hann virðingu bæjarmanna alla stund. Þar kvæntist hann og átti 4 börn með konu sinni: sonu tvo og dætur tvær. Hinn eldri sonurinn hét *Andreas*, en hinn yngri bar nafn föður síns, og er hann almennt nefndur **Nikolaus Kopernikus**, og er þá nafn hans lagað eftir latínumáli, og er þessi maður sá, er hér ræðir um. Hann er fæddur 19. dag febrúarmánaðar 1473, og var 10 ára, er faðir hans andaðist (1483). Stóð þá ekkjan uppi með börn sín, en átti hið bezta athvarf, þar sem var bróðir hennar, *Lúkas Watzelrode*, er þá var borgarstjóri þar í bænum, en varð skömmu síðar biskup í Ermlands-biskupsdæmi. Hann tók Kopernikus að sér og sá um uppeldi hans og mentun, og nam pilturinn fyrst skólanám þar í Thorn, en er því var lokið, og hann hafði aldur til og þroska fór hann til háskólans í Krakov og var þá 19 ára. Þar dvaldi hann um 3 ár og lagði þar stund á stærðfræði og stjörnufræði. Biskupinn hafði heitið þeim bræðrum því, að þeir skyldu fá kórsbróðurembætti við dómkirkjuna, er staða sú yrði laus. Fyrir því sótti Kopernikus til háskólans í Bologna á Ítalíu, til að nema lög (kirkjulög) og búa sig svo undir embætti það, er hann átti í vændum, og átti hann að vera þar um 3 ár. En varla mun hann hafa stundað laganámið af kappi, því að allur hugur hans hneigðist að stærðfræði og stjörnufræði og hlýddi hann þar á fyrirlestra háskólakennara í þeim greinum, og varð þeim handgenginn. En um þetta leyti varð laus kórsbróðurstaða í Frauenburg, og fekk hann þá stöðu. Launin voru 8000 kr. að voru peningagildi, og hafði hann því næg efni, til að stunda nám erlendis, enda fekk hann orlof um 3 ár, og fór hann þá til Rómaborgar (árið 1500) og flutti þar fyrirlestra um stærðfræði og stjörnufræði. Hvarf hann þá heim árið eftir, en sótti það fast, að fá enn orlof, til að nema læknisfræði við háskólann í Padúa, svo að hann gæti læknað

embættisbræður sína. Kórsbræður veittu honum leyfið, og fór hann þá til Padúa, og stundaði læknisfræðina, en jafnframt fekst hann við kirkjulaganám, og varð doktor í kirkjurétti í Ferrara (1503). Þá sneri hann heim aftur og þótti nú fulllærður, svo sem bezt mátti verða. Hann tók nú við embætti sínu og rækti það um 3 ár, en þá fór svo, að hann fekk enn orlof kórsbræðra, að hann gæti verið með móðurbróður sínum, og átti að vera læknir hans og ritari. Staða biskups var um þessar mundir ærið erfið sökum deilu mikillar, er þá stóð meðal Pólverja og hinnar þýzku riddarareglu, þar sem stórmeistari reglunnar vildi eigi hylla konung Pólverja. Fyrir fjórum tugum ára hafði riddarareglan orðið að láta af hendi Vestur-Prússland og borgirnar Danzig og Thorn, svo og Ermlands-biskupsdæmi, og fá Pólverjakonungi í hendur, en tekið Austur-Prússland að léni; en nú vildu þeir rétta hlut sinn. Mátti vel svo fara að þeir tækju Ermlandsbiskupsdæmi herskildi, áður en nokkur hjálp gæti komið af hendi Pólverja. Stórmeistari reyndi að fá biskup til að bregða trúnaði við Pólverja og hét öllu fögru, en biskup fór undan í flæmingi og dró alt á langinn. Biskup var þá einatt á ferðalagi til Krakov, og fygldi Kopernikus honum og tók þátt í öllu því, er biskup varð að sinna. Þá er biskup var á heimleið frá Krakov (1512), tók hann sótt harða, komst þó til Thorn og andaðist þar.

Það voru 6 ár, er Kopernikus dvaldi með Watzelrode biskupi, og var þá bústaður hans í biskupshöllinni í Heilsberg, og þótt hann hefði þá mörgum störfum að gegna í þjónustu biskups, gleymdi hann ekki stærðfræðinni og stjörnufræðinni, því að einmitt á þessum tíma, er hann var mörgum önnum bundinn, fór hann fyrst fyrir alvöru að reyna að gera sér skynsamlega grein fyrir alheiminum og gangi himinhnattanna og hugsa rækilega skoðun þá, er hann síðar kom fram með og varð að fullri sannfæringu í huga hans.

Eftir lát móðurbróður síns fór Kopernikus aftur til Frauenburg og tók embætti sitt og stýrði kórsbræðrum.

Bústað fekk hann að óskum í turni í borgarmúrnum og var þaðan víðsýni mikið. Þar gat hann gert athuganir sínar í bezta næði, en svo stóð eigi lengi, að eins 4 ár, þá lenti hann aftur í umsvifum og ónæði og annarlegum störfum, því að 1516 sendu kórsbræður hann til hallar þeirrar, er Allenstein hét, og átti hann að vera þar lénsmaður yfir eignum dómkirkjunnar, en dómkirkjan átti nálega þriðjung allra jarða í biskupsdæminu, en jarðeignir þessar lágu fjarri dómkirkjunni umhverfis Allensteinhöll. Kopernikus átti að vera lénsmaður yfir jörðum þessum, stýra fjármálum öllum og vera æðsti dómari í klerkamálum og leikmannamálum. Staða þessi var afar-erfið og umsvifamikil, og ekki bætti um, að stórmeistari hinna þýzku riddara leyfði liðsmönnum sínum rán og gripdeildir í biskupsdæminu, er hann gat eigi goldið þeim mála. En Kopernikus var fullkomlega vaxinn þessari vandasömu stöðu, og sýndi dugnað hinn mesta og viturleik í stjórn mála þeirra allra, er honum voru á hendur falin. Þarna var hann í þrjú ár, svo sem á var kveðið í öndverðu, og komst þaðan heill á húfi (1519) og settist aftur í turninn sinn. En nú var svo málum komið milli Pólverja og hinna þýzku riddara, að styrjöld var orðin úr, og settust riddarar um Frauenstein, og gat Kopernikus úr turni sínum daglega séð umsátursherinn. Kórsbræður flýðu úr borginni, allir nema Kópernikus; hann sat kyr. Biskup brast áræði til að fara á fund stórmeistara í samningaerindum, og bað Kopernikus fara, og tókst hann þann vanda á hendur. Einmitt á þessum tíma gerði Kopernikus stjörnufræðilegar athuganir, og má af því ráða, hversu áhugi hans var mikill á því efni. Pólskur her barg borginni. Stórmeistari varð frá að hverfa með her sínum, og fór þá um biskupsdæmið austur á bóginn með báli og brandi, ránum og manndrápum.

Þá er her óvina var á brautu, komu kórsbræður aftur og dáðust allir mjög að þreki Kopernikusar og hugrekki, og urðu á það sáttir, að skipa hann aftur lénsmann á Allenstein (1520), og tók hann kjörinu, þótt eigi væri

hættulaust, því að stórmeistari hafði í hótunum, að hann mundi taka höllina herkildi. En Kopernikus gat hamlað því, að svo yrði, og er friður komst á, var honum falið að annast friðarsamninga, og leysti hann það starf af hendi, svo sem bezt mátti verða.

Hin síðustu æfiár Kopernikusar voru ærið dapurleg, og var hann lítt metinn, ofsóttur og vanvirtur. Annars var hann sannlega verður. Þá er *Páll 3.* settist á páfastól, skipaði hann þann mann biskup í Ermlands biskupsdæmi, er bar óvildarhug til Kopernikusar, vildi fyrir hvern mun hnekkja virðing hans og vinna honum mein eftir megni. En höggstaði var lítt hægt að finna, þar sem Kopernikus hafði eigi látið prenta rit sitt og eigi flutt opinberlega kenning sína. Ef svo hefði verið, hefði mátt rísa gegn honum, kæra hann fyrir villutrú og brenna hann á báli. Biskup þessi beindi þá að honum kærum þeim, að hann hneigðist að kenning *Lúthers* og lifði ósiðlegu líferni. Frændkona hans, er var bústýra hans, var rekin frá honum, og svo fór, að vegur hans þvarr, fáir vildu við hann skifta, svo sem af honum mundi spilling standa eða sýking, og var hann talinn nær einskis nýtur, nema ef svo mætti verða, að læknisíþrótt hans gæti komið einhverjum að gagni. Hann andaðist á sóttarsæng 24. dag maímánaðar 1543. —

Kopernikus lauk við rit það, er hann samdi, árið 1530. Hann hafði haft ritið lengi í smíðum og sífelt aukið við og endurbætt. Ritið var samið á latínu og heitir: *De revolutionibus orbium coelestium*, en svo liðu 13 ár, að ritið var eigi prentað, og var hann ófús þess, að láta prenta bókina, enda gekk hann að því vísu, að hann mundi verða talinn villutrúarmaður sökum skoðunar þeirrar, er fram var haldið í bókinni, og þurfti hann þá ekki góðs að vænta af æstum og fáfróðum klerkalýð. Á einhvern hátt höfðu menn þó komist á snoðir um efni bókarinnar, og 1531 var flimleikur háður í Danzig um hann og bók hans. Þá réð hann það af að gefa út »skýring« í handriti. 1533 flutti einn ritari páfa fyrirlestur um kenning Kopernikus-

ar fyrir páfa sjálum og kardínálum, og var ger að góður rómur. En á Þýzkalandi var kenningu hans illa tekið, og voru þar framarla í flokki þeir Lúther og *Melancton*. Vinir Kopernikusar lögðu fast að honum, að hann skyldi láta prenta ritið, og er í þann strenginn tók kardínáli sá, er *Schomberg* hét, og hafði fengið í hendur sínar skrifað eintak af ritinu, þá lét Kopernikus að óskum þeirra, og sendi ritið til Nürnberg, og þar var það prentað 1543. En þá var Kopernikus deyjandi á sóttarsæng, er að honum var rétt hið fyrsta prentaða eintak af bókinni. Þá var hann að bana kominn, en menn ætla, að hann hafi þó haft svo mikið ráð, að hann hafi vitað, hvað það var, er hann tók í hönd sína.

Kopernikus gat eigi sjálfur séð um prentun bókar sinnar — því miður. Ungur háskólakennari, er *Rheticus* hét, og var mjög hrifinn af kenning Kopernikusar, sá um prentun fyrstu arkanna, en þá varð hann frá að hverfa, og var starf þetta þá á hendur falið *Andreas Osiander*, presti og stærðfræðing, og þykir þá stinga í stúf, að allur frágangur verður stórum verri. Sú er ætlun margra, að hann hafi samið formálann og borið er honum á brýn, að hann hafi gert efnið nokkuru daufara á bragðið, svo sem eigi væri hér um að ræða rökstudda sannfæring Kopernikusar sjálfs, heldur að eins nýja aðferð, er styddist við ágizkun, til að reikna út braut jarðar og reikistjarna annara. En ef svo er, hefir það verið sprottið af umhyggju fyrir Kopernikusi og vináttu, til að reyna að draga úr því, að af bókinni leiddi ill eftirköst fyrir höfundinn.

Bókina helgar höfundurinn Páli páfa hinum 3., enda þóttist hann sannfærður um, að hún riði alls eigi í bág við trúarbrögðin, og til páfa er formálinn stílaður. Í formálanum talar höfundurinn um, hve ófullkomin og ófullnægjandi skoðun manna sé um heimsskipunina, og kveðst hafa orðið sannfærður um, að jörðin og aðrar reikistjörnur gangi kringum sólina, af lestri fornra rithöfunda. »Þá fór eg að íhuga hreyfingu jarðarinnar, og þótt fjarri sanni mætti sýnast, varð mér þó ljóst, að þar sem aðrir höfðu

áður dregið hringa, til að skýra fyrirbrigðin, þá yrði eg og að leyfa mér að leita betri skýringa á staðbreytingum stjarnanna, en áður voru fram komnar, með því að gera ráð fyrir hreyfingu jarðar. Þá er eg setti hreyfing jarðar sem áreiðanlegt undirstöðuatriði, fann eg með mörgum torveldum athugunum, að þá er hreyfingar annara reikistjarna voru bornar saman við hreyfingu jarðar. þá var ekki að eins auðið að skýra fyrirbrigðin af undirstöðuatriðinu, heldur varð það ljóst, að hinir einstöku himinhnettir og stjarnkerfið alt stóð í því sambandi hvað við annað, að engu varð svo úr lagi kipt, að hitt raskaðist eigi og alheimurinn kæmist í ólag«.

Formálinn endar á þessum orðum: »Þótt eg viti vel, að heimspekingur lætur eigi dóma þorrans áhrifum valda á hugsanir sínar, þar sem vísinda-iðkanir hans hafa það mark eitt, að finna sannleikann í öllum efnum, að svo miklu leyti, sem guð hefir veitt mannlegri skynsemi hæfileik til þess, þá hefi eg þó lengi verið í efa, hvað eg skyldi gera, hvort eg ætti að láta rit mitt koma fyrir sjónir almennings eða fara að dæmi *Pyþagorasar* og lærisveina hans og annara, er látið hafa upp kenningu sína meðal vina sinna, svo að kenningin á þann hátt hefir borist munnlega frá einum manni til annars. Ef einhverjir málrófsmenn, þeir er eigi bera skyn á stærðfræði, skyldu fella dóma um rit mitt og ráðast á það og styðja mál sitt með einhverri biblíugrein, er þeir eigi skilja rétt, þá met eg slíka menn einskis, og lít svo á, að ummæli þeirra séu fyrirlitlegir sleggjudómar«.

Kopernikus hafði skýran skilning á afstöðu jarðar við aðrar reikistjörnur. Hann fór og nærri um stærð jarðar í samanburði við þær. En hann hugsaði sér braut jarðar og annara reikistjarna hringmyndaða, og var það samkvæmt þeirri skoðun, sem þá var almenn, að hringur hlyti að vera hin eðlilegasta flatarmálsmynd, af því að sú myndin væri hin einfaldasta.

Aðalsönnunin í bók hans var í því fólgin, að skýra málið á hinn allra einfaldasta og óbrotnasta hátt. Sú

skýring á gangi himinhnattanna, að minni hnettirnir, og meðal þeirra jörðin, gangi kringum stærri hnettina, þ. e. að reikistjörnurnar og meðal þeirra jörðin, gangi kringum sólina, sé miklu eðlilegri, en að allur himingeimurinn sé á geisihraðri ferð kringum jörðina. Þá er og miklu eðlilegra að hugsa sér að jörðin snúist um sjálfa sig á tveim dægrum en hitt, að hugsa sér að sól og allur himingeimur snúist um jörðina, svo lítil sem hún er, með slíkum afarhraða, að þeirri ferð sé lokið á tveim dægrum. Það er hægast að skýra þetta mál einfaldlega, með því að taka upp þá skoðun og þann skilning á málinu, að það sé hin litla jörð, sem snúist, og allir þeir er málin hugsa skynsamlega, verða að hallast að þessari skoðun.

Kopernikus var ekki á báli brendur fyrir skoðun sína. En eigi er ólíklegt að svo hefði farið, ef honum hefði orðið lífs auðið um stund, eftir það er bók hans var prentuð. Með útkomu bókar hans hefst nýtt tímabil í framfarasögu mannkynsins. Skoðun hans vann um síðir sigur, þrátt fyrir alla mótspyrnu og allar ofsóknir á hendur þeim mönnum, er tóku upp merkið, þetta er Kopernikus hafði reist, gerðu við gallana á því, fegruðu litina, lyftu því hærra og báru það fram til sigurs.

En eigi var sigurinn auðunninn. Merkisberinn frægi, *Giordano Bruno*, var á báli brendur, og *Galilei* varð að taka aftur skoðun sína, og var svívirðilega leikinn af kaþólskum klerkalýð. Skoðun þessi, að jörðin snerist, og ýmsar aðrar nýungar í stjörnufræði, voru taldar þá vantrú og guðleysi. En sannleikurinn vann þó sigurinn. — Hvert mannsbarn veit það nú, að skýring þessi, er Kopernikus bar fram, er hin eina rétta, og dettur engum í hug að efa. Og af þessari skýringu höfum vér fengið réttan skilning á því, hverjir vér erum sjálfir

Líkneski af Kopernikusi hafa reist verið í Thorn, þar sem hann var borinn, og í Warschav. Það líkneski hefir *Albert Thorvaldsen* gert. Og bautasteinn sá, er hann reisti sér sjálfur á framfarabraut mannkynsins, mun »óbrotgjarn« reynast þótt »aldir renni«. *Janus Jónsson.*

# Æskuminningar.

---

Þetta verða eigi nema örfáar minningar, ómerkilegar og lítilsvirði í annara augum, en mér eru þær kærar, og sumar ógleymanlegar. Einkennilegt er það, hve vel mörg smáatvik og viðburðir geymast frá æskunni, standa ljós fyrir hugarsýninni eins og listaverk myndhöggvarans, stundum alla æfi. Að sjálfsögðu stafar það mikið frá því hve fátt það er, sem barnið hugsar um, hugarsýnin er þröng, en því meira brýtur það heilann um það sem það þekkir, unz einhver niðurstaða er fengin, og furðu lengi eimir eftir af skoðun barnsins þó reynslan blási á móti.

Jæja, eg ætla ekki að fara að rita langt mál til að skýra hvernig stendur á að eg man eftir þessum brotum, enda get eg eigi skýrt það, heldur byrja á því, sem mér er minnisstæðast og segja það eins og það gekk til.

Eg man fátt úr lífi mínu fyr en eg er 5 ára gamall, og það sem eg man er óljóst.

Ein minning frá þeim tíma er þó skýr.

Eg átti pela sem mér þótti vænt um, næst mömmu minni, og skildi hann sjaldan við mig. Einu sinni þegar eg svaf og hafði lagt pelann fyrir framan mig á koddann, kom bróðir minn þar að. Þóttist hann eiga eitthvað sökótt við mig, tók pelann og mölbraut hann. Varð mér þungt í skapi þegar eg vaknaði og heyrði um örlög pelans, og lengi mundi eg bróður mínum þetta.

Þegar eg er orðinn 7 ára fer minningum fjölgandi, þá fer eg að athuga sumt af því sem fyrir augun ber og gera mér hugmynd um það.

Mesta undrun og aðdáun vakti himininn hjá mér, með sólinni, tunglinu og öllum stjörnunum. Ekki man eg eftir að eg gerði mér neina hugmynd um úr hverju himininn sjálfur væri, en sólin hélt eg að væri lampi guðs, og stjörnurnar kertin; tunglið hélt eg að væri ákaflega stór »týra«, sem guð hefði á nóttunni til þess að þurfa eigi að láta loga altaf á lampanum.

Himininn hélt eg að næði ofan á fjöllin er luktu sjóndeildarhringinn, og væri festur við þau. Þóttist eg vita að eigi væri hægt að vera þar nema á fjórum fótum og gætti nákvæmlega að, hvort eigi væru buxurnar á smalamönnunum í sundur á hnjánum er þeir komu heim frá smalamensku; styrkti það trú mína að svo var oft, því fjalllendi var mikið að smala, bratt með eggjagrjóti.

Úr vindinum urðu mér engin vandræði.

Fyrir neðan túnið var uppspretta lítil, eða brunnur, sem kallaður var »Hrómundarbrunnur«. Var mér sagt, að þar hefði áður búið karl, sem Hrómundur hefði heitið.

Einu sinni var eg að ólátast þar hjá, kom þá snörp vindhviða og féll eg í brunninn. Bjargaðist eg með naumindum upp úr. Skildi eg þá vel hvernig í öllu lá, að Hrómundur hafði sent vindinn til að hegna mér fyrir ólætin.

Kom síðan vindur allur frá Hrómundi, og fanst mér falla saman óþektarköstin í mér og illviðrin og stormarnir; og var ærið vindasamt. Roðnaði eg oft þegar verið var að tala um að hey hefði fokið, eða annar skaði orðið af völdum vindsins, því þá taldi eg víst að eitt óþektarkastið í mér væri nýafstaðið og eg því orsök í öllum skemdunum.

Skamt fyrir neðan bæinn var vatn og rann í það lækur, sem féll rétt hjá túninu. Þóttist eg vita að vatnið væri myndað af honum, en annað átti eg bágt með að skilja og það var, að aldrei hækkaði í vatninu þó lækurinn rynni altaf í það. Talaði eg um þetta við leikbróður minn, frá næsta bæ, og beiddi hann úrlausnar.

Strákur glotti drýgindalega og sagði eg skyldi hugsa um það betur, það hlyti að vera öllum augljóst. Eg sagði honum eg hefði mikið um það hugsað, en enga líklega ástæðu fundið.

»Helldurðu að allir silungarnir, sem í vatninu eru, þurfi ekkert að drekka, aulinn þinn«, sagði þá strákur og leit fyrirlitlega á mig.

Eg skammaðist mín fyrir heimskuna, en dáðist að skarpskygni stráksins, og virti hann meira fyrir.

Þegar eg var 7 ára var eg orðinn vel læs. Eina bók tók eg fram yfir allar aðrar, það voru »Þjóðsögur Jóns Árnasonar«. Las eg þær upp aftur og aftur og kunni utan að draugasögurnar.

Sagði eg fólkinu þær, en vanalega endaði svo frásögnin, ef farið var að dimma, að eg hélt mér dauðahaldi í þann sem eg sagði söguna, og sæti eg á rúmi, var eg allur í hnipri uppi í rúminu, því eg taldi víst að Hörghólsmóri eða Skinnpilsa væri undir því, og mundu þau ekki vægja fótunum á mér ef þau næðu í þá.

Krakki á öðru eða þriðja ári var á bænum; var eg fullviss um að það væri »umskiftingur«. Styrktist eg líka í trúnni við það, að eg heyrði fólkið á heimilinu oft tala um, að mikill umskiftingur væri þetta barn orðið.

Hugsaði eg mér nú að eg skyldi einhverntíma veita snáða eftirtekt þegar hann væri einn. Hafði eg lesið það í þjóðsögunum að þá færu þeir að teygja úr sér og gætu orðið furðu langir.

Var þess eigi langt að bíða bíða að mér veittist tækifærið; hafði barnið verið skilið eftir eitt í baðstofunni. Eg stóð fyrir framan hurðina og gægðist inn. Leið þá eigi á löngu áður en fóru að koma teygjur í stráksa, og sýndist mér hann lengjast furðu fljótt. Beið eg þá ekki boðanna, heldur ruddist inn og tók óþyrmilega til stráks, því eg hafði heyrt að ekki þyrfti annað en berja þá rækilega, kæmi þá huldukonan, tæki bónda sinn en léti hið rétta barn í staðinn. Barði eg nú strákinn í ósköpum, en þótti seinka huldukonunni.

Alt í einu var eg gripinn harkalega í öxlina.

Varð mér nú eigi um sel, því eg hélt að huldukonan væri komin og mundi ætla að launa mér meðferðina á bónda sínum, áður en hún tæki hann.

En fljótt gekk eg úr skugga um að það var eigi huldukonan sem komin var, heldur faðir minn, og vissi eg ekki hvort mér þætti betra.

Varð eg nú að sleppa umskiftingnum og komst í óþægileg kynni við klóalang. Varð hann upp frá því hinn versti óvinur minn.

Skamt var til næstu bæja frá heimili mínu; var eg oft sendur ýmissa erinda. Var eg hinn öruggasti á meðan að sá til annarshvors bæjarins, en fór heldur að verða órótt er leiti bar á milli; hljóp eg þá sem fætur toguðu, en bjóst við öllum draugunum er eg vissi nafn á að baki mér.

Erindinu stagaðist eg á í sífellu, og sérstaklega reyndi eg að muna að skila því með vissum orðum, sem mér voru lögð í munn áður en eg fór.

Tókst mér það oftast slysalitið, en einu sinni brá þó útaf því. Hafði eg nýlega lesið um viðureign Gláms og Grettis og var sú viðureign ofarlega í huga mínum. Var eg kominn heim að bænum, er eg var sendur til, og búinn að berja þegar eg varð þess áskynja að eg hafði gleymt erindinu.

Heyrði eg nú að gengið var til dyra, sá eg þá einskis úrkostar annars en taka til fótanna, því erindi datt mér ekkert í hug, en hitt fanst mér óþolandi skömm, að kannast við að eg hefði gleymt því. Linaði eg eigi á sprettinum fyr en heim var komið, og sagði mínar farir eigi sléttar, en Glámi kendi eg um alt saman.

Þegar þjóðsögurnar þrutu, fór eg að lesa Íslendingasögurnar, og þann brunn tæmdi eg aldrei, því eg las þær hvað eftir annað. Eg var þar allur með hugann og harmaði sárt að ekki skyldi vera barist enn. Heyrði eg ekkert, sem fram fór í kringum mig, þegar eg var með-

Gretlu eða Njálu, af þeim hafði eg mest gaman, — en oft vöknaði mér um augu þegar eg las þær.

Einna mest dáðist eg að Gunnari og Snorra goða af öllum fornaldarmönnum, Gunnari fyrir hreystina og drenglyndið, en Snorra fyrir vitið og ráðkænskuna. Fanst mér mikið til um hvernig Snorri lék á Börk digra, er hann hafði út úr honum Helgafell; en aldrei þótti mér eins vænt um hann, og mér hefði ella þótt, fyrir það hvernig hann fór með berserkina hans Víga-Styrs.

Af kvæðum kunni eg lítið annað en »Grátitlinginn« og »Óhræsið« eftir Jónas, »Heimkomuna« eftir Kristján, og svo eftir Bólu-Hjálmar. — Lausavísurnar hans held eg að eg hafi kunnað nærri því allar, sem í bókinni voru. Hefir mér ekki þótt um neina gjöf öllu vænna heldur en um ljóðmælin eftir Bólu-Hjálmar, sem eg fekk fyrir að »teyma« einn dag. Var eg ærið upp með mér, þegar eg var að lofa strákunum að heyra »Grallarabrjótur gæðaspar« og »Aumt er að sjá í einni lest«, og ekki þótti mér minna varið í vísurnar um Sölva Helgason, en seinustu vísuna um hann þorði eg varla að hafa yfir, og enn síður »Andsvar til orðaþjófsins«, enda heyrði eg kerlingu á bænum segja eitt sinn, að það væri ljótara en »Buslubæn«.

Fanst mér það hlyti að vera mesta sæla, sem til væri, að geta ort skammavísu, ef manni rynni í skap við einhvern.

Átti eg í miklu stríði við sjálfan mig, því mig langaði mikið til að biðja guð að gefa mér þá gáfu, en þorði það eigi þar sem tilgangurinn var eigi betri.

Seinna náði eg í kvæði Gríms Thomsens og þokaði hann þá Bólu-Hjálmari að nokkru leyti úr hásætinu. Kunni eg »Sköfnung«, »Jarlsníð« og »Glám« og sá í huga mínum atburðina í höllu Hákonar og skála Þórhalla.

Rímur las eg margar og kunni mikið úr Andrarímum og Hálfdánarrímum gamla. Rímurnar af Úlfari sterka náði eg aldrei í, en til þess langaði mig mikið, því þar var mér sagt að væri »dáltill krumur í«.

Einu sinni fekk eg að finna bróður minn, sem bjó

talsvert langt burtu. Hittist svo á, þegar eg kom þangað, að hann var að fara í kaupstaðinn.

Eg hafði aldrei komið þangað; lét hann af því við mig, að þar væri margt að sjá; þoldi eg ekki freistinguna og fór með honum, þó eg hefði ekki leyfi fyrir hestinum lengra.

Þegar við komum þangað, gaf hann mér 2 krónur og sagði eg skyldi kaupa fyrir það eitthvað, sem mig langaði til. Eg ráfaði inn í búð eina og spurði feitan búðarstrák hvort Njála fengist eigi. »Nálar hefurðu ætlað að segja«, svaraði hinn. »Nei, Njála«, sagði eg, »hún er um Gunnar á Hlíðarenda og Njál á Bergþórshvoli«. »Nei, hún fæst ekki, annaðhvort er hún uppgengin eða pabbi hefir gleymt að panta hana frá útlöndum«.

Eg þaut út í fússi, því eg skyldi þetta svo, að hann væri að gera gys að mér, en af nánari kynningu síðar sá eg að eg hafði gert honum rangt til. Varð eg nú í mestu vandræðum með krónurnar, því ekkert langaði mig til að eiga af því, sem eg sá.

Seinast datt mér það í hug, að eg skyldi kaupa brennivín fyrir þær til að gefa fóstra mínum er heim kæmi, svo skap hans blíðkaðist þegar eg segði honum frá hestsstuldinum. Fór eg þá inn í aðra búð, sem mér var sagt að héti »Höefnersverzlun«, til að biðja um brennivínið. Mundi eg þá eftir því, að eg hafði heyrt það kallað »Hofsjökulsvatn«. (Orð lék á því, að að brennivínið væri talsvert blandað með vatni úr Blöndu, og var því kallað þetta, en um orsökina til nafnsins vissi eg ekki.) Datt mér nú í hug að eg skyldi sýna þeim að eg vissi eitthvað í landafræði, því eg hafði þá nýlesið landafræði Mortens Hansens. Vék eg mér að gömlum manni gráhærðum, er stóð við borðið, og spurði hvort eg gæti fengið 1 flösku af »Hofsjökulsvatni«. »Ha, hva, andskotinn, andskotinn, það er ekki til, ekki til, út með þig, við viljum ekki vitlausa stráka hérna inni«, sagði sá gamli og varð allbyrstur. »Mér var sagt að það fengist brennivín hérna«, svaraði eg. »Ekkert brennivín, út með þig, út með þig«.

# Um íslenzka tímatalið.

Eftir

*G. Björnson.*

---

Skammstafanir:

Árt. = J. Þorkelsson: Islenzkar Ártíðaskrár. Khöfn 1893—96.
Aþ. = Almanak Þjóðvinafélagsins.
Cod. 1812 = Äldsta Delen af Cod. 1812 4to, gml. kgl. Samling. Ved Ludvig Larson. Khvn. 1883.
D I = Diplomatarium Islandicum.
Fgr. = Jón Árnason: Fingrarím. Khfn 1838.
G. Br. = Gísli Brynjúlfsson: Um alment aldatal og ártal og samskeyti þess við íslenzkt tímatal í fornöld. Andvari, 6. ár, bls. 132—192.
IB = Islendingabók Ara fróða. Rv. 1891.
Kb. = Konungsbók } Útgáfur V. Finsens.
Sthb. = Staðarhólsbók } Útgáfur V. Finsens.
Rt. ≐ Alfræði íslenzk. II. Rímtöl. Ved N. Beckman og Kr. Kålund. Khvn 1914.

*»Það ungur nemur, gamall temur«.*

**Forspjall.** Þegar eg var á 11. árinu, lærði eg Fingrarím Jóns biskups Árnasonar. Á skólaárum mínum kynti eg mér vandlega gamla stíl, eftir Þórðarrími og öðrum gömlum rímbókum, sem til eru í Landsbókasafninu. Kunni eg í þá tíð bæði nýja stíl og gamla stíl »upp á mína tíu fingur«. Síðan hef eg ekki átt við þau fræði og stórum »riðgað í ríminu«. En nú í vetur tók sonur minn einn til við rímið; kom mér þá í hug, hvort eg kynni nú ekki að geta ráðið fram úr sumu því, sem eg hafði uppgefist við í æsku, og orðið drengnum að liði. Mér hefir orðið dálítið ágengt; hefi eg borið það undir dóm þess

manns, sem eg veit fróðastan hér á landi um gang himintungla og þá tölvísi, er þar aðlýtur, en það er Eiríkur prófessor Briem; á eg honum að þakka mörg góð ráð og bendingar. Hann hefir svo — og aðrir góðir menn — ýtt undir mig að gera alþýðu kunnar athuganir mínar og útreikninga; en það var annars ekki ætlan mín, því að eg hefi lítinn tíma haft aflögum í vetur til þessarar gamanvinnu minnar. Bið eg fornfróða menn virða á betri veg, að eg dirfist að bekkjast til við ýmsar höfuð-kenningar þeirra um íslenzka tímatalið.

**Frumgögn.** Árið 45 fyrir Kr. burð hófst tímatal það sem kent er við *Július Cæsar*; það köllum við gamla stíl. Árið 1582 gerði *Gregorius* páfi þá breytingu á gamla stíl, að fella skyldi niður 3 hlaupársdaga framvegis á hverjum 400 árum; það er nú okkar tímatal, og köllum við það nýja stíl og gekk hann í lög hér á landi árið 1700. Var þá fetað yfir bilið milli 16. nóv. og 28. nóv.

»Sólin gengur sína leið, svo sem guð bauð henni«, segir í gamalli vísu[1]). En sólin gekk ekki alveg eftir gamla stíl. Þá voru (eins og nú) taldir 365 dagar í árinu, en einum degi bætt við 4. hvert ár (hlaupár) eins og nú, svo að árin urðu að meðaltali 365 $^1/_4$ dagur — eins og enn gerist og gengur í almanakinu okkar að öllum jafnaði. En sólin gengur ofurlítið öðruvísi. Milli tveggja vorjafndægra líða að meðaltali 365 dagar 5 stundir 48 mín. 46 sek. Almanaksárið, 365 dagar og 6 stundir, er því ögn of langt; munurinn er 11 mín. og 14. sek. á ári. En það nemur heilum degi (sólarhring) á 128 árum. Á dögum Júlíusar

---

[1]) A.þ. 1914 bls. LXXXII. — Eg lærði þessa vísu í æsku þannig: „Tólf eru á ári tunglin greið, Til ber þréttán renni; Sólin gengur sína leið, Svo sem guð bauð henni“. Var mér sagt að vísan væri eftir Björn Gunnlaugsson, en engar veit eg sönnur á því.

Cæsars féll vorjafndægrið á 24. marz[1]). En síðan færðist jafndægrið aftur um 1 dag á hverjum 128 árum.

Á 4. öld eftir Kr. var jafndægrið komið á 21. marz — 3 daga aftur á bak ($3 \times 128 = 45 + X$; $X = 339$). Um miðja 9. öld var munurinn orðinn 7 dagar — jafndægrið þá 17. marz. Á 10. öld færðist jafndægrið á 16. marz; á ofanverðri 11. öld komst það á 15. marz. Árið 1582 var jafndægrið komið á 11. marz, því

$$\frac{45 + 1582}{128} = \frac{1627}{128} = 12^{91}/_{128} \text{ dagar.}$$

Mátti nú sjá, að tímatalið skektist um 3 daga á hverjum 400 árum. Þá var það að *Gregorius páfi* afréð að lagfæra tímatalið. En það var ítalskur læknir, (*Lilius* að nafni), sem lagði á öll ráðin. Var það boð páfans að nú skyldi hlaupa yfir 10 daga (frá 5.—15. október) svo að vorjafndægur yrði ekki 11. heldur 21. marz — eins og það hafði verið árið 325 e. Kr., þegar háð var kirkjuþingið mikla í Nicea. Og til þess að tímatalið skektist ekki aftur, þá skyldi nú — »eftir læknisins ráði« — sleppa hlaupársdögum á aldamótum, 3 af hverjum 4, hafa ekki hlaupár á aldamótum nema þá er 4 gengi upp í aldatalinu. Þess vegna varð árið 1600 hlaupár í nýja stíl og svo verður 2000, en árin 1700, 1800 og 1900 voru ekki hlaupár, og það verða ekki 2100, 2200 og 2300, en 2400 á að verða hlaupár.

Þetta er allur munurinn á gamla og nýja stíl.

Nýi stíll var leiddur í lög hér á landi árið 1700 með konungstilskipun 10. april. Konungur mælti um og lagði svo fyrir, »at udi vore Lande Island og Færö samt tilhörende Insuler skal udi nærværende Aar 1700, saasnart det kommer efter sædvanlig gammel Stil til den 16. Nov., som er en Löverdag, Söndagen næst efter være den 28. Nov.,

[1]) Sumir segja 25. marz, en þetta er réttara.

Tirsdagen den 30. Nov. og St. Andreæ Dag Onsdagen d. 1. Dec. og saa fremdeles«.

Vorjafndægrið hafði færst aftur um einn dag frá 1582 til 1700 og var nú komið á 10. marz.

Þess vegna var hér hlaupið yfir 11 daga, þannig, að sunnudagurinn 17. nóvember 1700 (í gamla stíl) var nú kallaður 28. nóvember (í nýja stíl). Nú veit eg ekki hvort ættfræðingar hafa varað sig á því, að aldursár þeirra manna, sem voru á lífi þennan sunnudag, 28. nóv. 1700, geta mistalist, ef þeir hafa fæðst og dáið um sama leyti árs. Hafi einhver merkismaður fæðst t. d. 17. nóvember 1700 og dáið 18. nóvember 1760, þá hefir hann eftir rímtali náð sextugs aldri, en að réttu tali vantað 11 daga upp á 60gs aldurinn er hann dó.

Sé nú tekið meðaltal af 400 árum í nýja stíl, þá verður meðalárið 365 dagar 5 stundir 49 mín. 12 sek.; Það er því 26 sekundum of langt; og safnast það, þegar saman kemur, í einn dag á 3323 árum. Ef tekið væri það ráð að fella niður einn hlaupársdag á hverjum 128 árum, þá myndi ekki skakka fullum degi á 100 þús. árum frá réttu sólári[1]).

Það veit hvert manns barn að árinu er nú deilt í 12 »Almanaks«-mánuði og þeir mislangir, sem segir í vísunni:

Ap, Jún, Sept, Nóv 30 er;
einn til hinir telja sér;
Febrúar tvenna 14 ber,
frekar einn þá hlaupár er«.

Er sú skifting alveg eins í nýja og gamla stíl.

Gamli stíll fylgdi kristninni út um allan heim. Hann varð kunnur hér á landi eftir kristnitökuna. Klerkar lögðu mikla rækt við þetta tímatal í hverju landi, og hver mánuður fyltist smám saman af »messudögum« þeirra, sem enn standa í Almanakinu, þó hætt sé að syngja mess-

---

[1]) Rússar hafa á orði að taka upp þá aðferð; þeir búa enn við gamla stíl, og nú er gamli stíll orðinn 13 dögum „á eftir tímanum".

urnar. Þar að auki skyldi halda 7. hvern dag heilagan; var sá dagur talinn fyrstur í viku hverri og nefndu klerkar hann Drottinsdag þegar kristni kom hér á land, en hann köllum við sunnudag, og vitum við engar sönnur á því, að orðið »drottinsdagur« hafi nokkur ntíma komist á alþýðuvarir.

**Vikudagar og mánaða í gamla og nýja stíl.** Væru réttar 52 vikur í hverju ári, þá myndi öll ár byrja á sama vikudegi. Svo er um íslenzka árið. Blessað sumarið okkar kemur æfinlega á fimtudag og veturinn endar æfinlega á miðvikudag, og fer það alt að einu þegar við höfum 53 vikur (sumarauka) í árinu okkar. En Almanaksárið er 1 degi lengra og stundum 2; ef það byrjar á fimtudag, þá endar það líka á fimtudag (52 vikur + 1 dagur), og næsta ár byrjar þá á föstudag, og endar á föstudag, og kemur þá nýtt ár á laugardag og sé það nú hlaupár (366 dagar = 52 vikur + 2 dagar) þá endar það ekki á laugardag, heldur sunnudag, og þá byrjar næsta ár á mánudag

Þess vegna er sífelt kvik á samkomulagi vikudaga og mánaðardaga. Og þess vegna spyr nú maður mann: »Hvaða mánaðardagur er í dag?« Og þá er oftast farið og »gáð í Almanakið«, því nú kunna fáir að finna sunnudagabókstaf og telja á fingrum sér. Er svo um það, sem margt annað, að vitið er horfið úr höfði fólks í hálærðar bækur. Það köllum við mentunarframfarir. Sunnudagsbókstafur (eða stafir) hvers árs stendur að vísu í Almanakinu; árið 1915 er hann C. En fæstir vita hvað það C merkir, og er þó ofur einfalt mál.

Sunnudagsbókstafirnir (vikustafirnir) eru sjö:

A B C D E F G
1 2 3 4 5 6 7.

Við byrjum á Nýársdag — byrjum á A — og höfum upp þessa 7 stafi, upp aftur og aftur, árið á enda, einlægt í sömu röð: A B C D E F G. Janúar byrjar þá á A, október líka, en Maí fær B að upphafsstaf, Ágúst C, Febrú-

ar, Marz og Nóvember D, Júní E, September og Desember F og Apríl og Júlí G.

Í Fingrarími Jóns Árnasonar varð eg að læra 12 vísur til að muna þetta[1]) — en nú hefi eg gert mér þessi stef:

Janúar og Október
A-ið fá í lið með sér,
Maí einum B ið ber.

C-ið Ágúst eignum vér,
í áttir þrennar D-ið fer:
Febrúar, Marz og Nóvember.

Júní fengið E-ið er,
F-ið lendir segi eg þér
í September og Desember.

G-ið hleypur — heyrðu mér —
hleypur Apríl — gáðu að þér —
inn í Júlí ætlar sér.

Ekki er nú lipurt þó kveðið sé, en þar með er vandinn leystur: Á hverju ári falla allir Sunnudagarnir vitanlega á sama staf, nema hlaupár sé, þá er einn stafur fyrir Sunnudagana til febrúarloka en annar (næsti á u n d a n í stafaröðinni, þannig: B A; D C; F E; A G; C B; E D; G F) fyrir hina alla sem eftir fara. Núna 1915 er Sunnudagsstafurinn C; þá veit eg að 3. janúar er Sunnudagur, því eg tel á fingrum mér

A B C
1 2 3;

og eg veit þá líka að t. d. 4. apríl er Sunnudagur, því upphafsstafur aprílmánaðar er G; tel eg því:

G A B *C*
1 2 3 *4*;

og þá veit eg að 5. er mánudagur, að 11. er aftur Sunnudagur o. s. frv. — Þetta gæti hvert barnið lært, ef reynt væri

[1]) Fgr. bls. 161—63.

að kenna[1]). Árið 1912 var hlaupár og sunnudagsstafirnir G F; hvaða dagur viku var þá 4. apríl? G gildir til febrúarloka, F úr því; apríl á G að upphafsstaf (sbr. vísuna »G-ið hleypur — — —«); eg tel þá:

G A B C D E *F*
1 2 3 4 5 6 7

og finn að 7. apríl er sunnudagur, og þá er 4. apríl fimtudagur. Þetta er barnaleikur — ef maður veit rétt sunnudagsbókstaf ársins, sem um ræðir. En Almanökin okkar hafa stundum verið rugluð í ríminu; eg hef ekki leitað, en rekist á þessar skekkjur: Árið 1881 segir Almanakið sunnudagsbókstafi D C — átti að vera B; árið 1882 segir alm. gyllinistalið X — átti að vera II; árið 1888 gleymdu þeir hálærðu herrar sumaraukanum!; það var þó leiðrétt næsta ár. »Sjálfs er höndin hollust«.

Til að finna samfarir vikudaga og mánaðadaga í gamla og nýja stíl, þarf það eitt til að hafa upp á sunnudagsstaf ársins, sem um er fengist. En viti maður sunnudagsstafinn, þá er þar að auki auðfundin sumarkoma og vetrarkoma bæði í gamla stíl og nýja stíl. Þess vegna verður mér svo skrafdrjúgt um þetta meginatriði í tímatalsfræðum okkar.

**Fundinn sunnudagsbókstafur.** Í þeirri ágætu bók Dr. Jóns Þorkelssonar, Ártíðaskránum, er skrá yfir sunnudagabókstafi í gamla stíl, alla leið frá 1000 til 1699[2]). Í Fingraríminu er skrá yfir sunnudagabókstafi í nýja stíl frá 1600 til 2000[3]). Í því kveri er líka ágæt aðferð til að finna stafina á fingrum sér, og er það íslenzk aðferð, sem Jón biskup fann upp[4]). Í gamla stíl var vandinn miklu minni, því að þá komu stafirnir sífelt í sömu röð á hverjum 28 árum, og var það nefnd »sólaröld«. En nú í nýja stíl tekur hver stafarás yfir 400 ár; það kallar Jón biskup sólaröld stærri.[4])

---

[1]) sbr. Fgr. VI. og VIII. kap.
[2]) Árt. bls. IX.
[3]) Fgr. bls. 200—217.
[4]) Fgr. IV. kap.

Fingrarím hans er enn víða til; þar geta menn lært konstina að finna sunnudagsbókstafi í nýja stíl á fingrum sér.

Hér set eg t a l n a f o r m á l a sem eg hefi samið mér; þeir eru fljótlærðir og auðreiknað eftir þeim.

1) *Gamli still:* $S = 10 - \left\{ \frac{X + \left\{ \frac{X}{4} \right\}_h}{7} \right\}_a$

S = S u n n u d a g s t a l i ð 1—7 (= A—G), sbr. bls. 267.

x = á r t a l i ð,

h = h e i l a ú t k o m a n, t. d.: $\left\{ \frac{19}{4} \right\}_h = 4$;

$\left\{ \frac{1913}{4} \right\}_h = 478$ ɔ: afgangi s l e p t ef nokkur er.

a = a f g a n g u r i n n, t. d. $\left\{ \frac{19}{7} \right\}_a = 5$;

$\left\{ \frac{28}{7} \right\}_a = 0$; $\left\{ \frac{9}{7} \right\}_a = 2$ ɔ: h e i l u útkomunni er slept, en tekinn a f g a n g u r i n n, ef nokkur er.

D æ m i: Árið 1000; x = 1000 og þá er

$$S = 10 - \left\{ \frac{1000 + \left\{ \frac{1000}{4} \right\}_h}{7} \right\}_a^{*)} = 10 - 4 = 6 = F$$

*) 4) 1000
250
7) 1250
178
4 afgangs.

En árið var hlaupár (4 gengu upp í 1000) svo að janúar og febrúar höfðu 7 (= G), því sunnudagast. g a n g a j a f n a n í ö f u g r i r ö ð.

Árið 1000 hafði því G F. Formálinn segir seinni stafinn, ef hlaupár er. Þetta er lauflettur brotalaus reikningur.

Annað dæmi: Árið 1241

$$S = 10 - \left\{\frac{1241 + \left\{\frac{1241}{4}\right\}h}{7}\right\}^{*)}_{a} = 10 - 4 = 6 = F$$

og árið ekki hlaupár, því 4 gengu ekki upp. Árið 1241 hafði því **F.**

*) 4) 1241
+ 310 (1 afg. slept.
7) 1551
221
4 afgangs.

Nú var Snorri Sturluson veginn 23. sept. 1241; hvaða dag viku var það? »F-ið lendir, segi eg þér, í september og desember«; september á F að upphafsstaf; 1. sept. 1241 var þá sunnudagur, úr því að sunnudagsbókstafur ársins var F, og 1 + 7 = 8, 8 + 7 = 15, 15 + 7 = 22; 8., 15. og 22. sept. voru líka sunnudagar; 23. sept. var því mánudagur. Ef fermingarbörnin okkar geta ekki áttað sig á svona auðveldum reikningi, þá eru þau ekki fermingarfær.

2.) *Nýi still.* Úrfelling hlaupársdaga á aldamótum gerir vikureikninginn durlítið umsvifameiri.

$$S = 20 - \left\{\frac{X + \left\{\frac{x}{4}\right\}h}{7}\right\}a + (c - 16) - \left\{\frac{c - 16}{4}\right\}h$$

c = aldatalið (núna 19); önnur tákn söm og í gamlastíls- formálanum.

Dæmi: Árið 1879;

$$S = 20 - \left\{\frac{1879 + \left\{\frac{1879}{4}\right\}h}{7}\right\}^{*)}a + (18 - 16)^{**)} - \left\{\frac{18 - 16}{4}\right\}^{***)}h$$

$$= 20 - 3 + 2 - 0 = 19.$$

*) 4) 1879
+469 (3 afg. slept)
7) 2348
335
3 afgangs.

**) 18—16 = 2.

***) $\left(\frac{2}{4}\right)h = 0$

Úr þessum 19 varpa eg 7 burtu, og tekst 2var; 19 — 14 = 5 = E, sem þá er stafur ársins 1879. Þegar útkoman verður hærri en 7, skal jafnan deila henni með 7 og marka afganginn.

Nú dó Jón Sigurðsson 7.

des. 1879. Hvaða dag viku var það? Vísan segir að desember eigi F að upphafsstaf; cg tel

F G A B C D E
1 2 3 4 5 6 7

og finn að 7. des. var sunnudagur. Jón forseti andaðist sunnudaginn 7. des. 1879. Mér dettur ekki í hug að gá í almanakið frá því ári; þessi einfaldi reikningur er óyggjandi.

Þessir formálar eru líka miklu fljótlærðari en gömlu aðferðirnar í rímbókunum okkar. Þess vegna hefi eg tekið þá upp, enda þótt eg hafi aldrei gleymt gömlu þulunni: Bestar Ástir Greiðir Friðar Engill« o. s. frv. — og öllu sem þar til heyrir.[1])

Hér lík eg máli mínu um útlenda tímatalið í gamla stíl og nýja stíl, eða »Almanaksárið«, sem við nú segjum. Gyllinitölin, tunglkomureikningar og Páskareikningar eiga ekkert skylt við forna íslenzka tímatalið og þarf því ekki hér að greiða sundur alla þá flækju.

**Islenzka tímatalið.** Við Íslendingar búum enn í dag við tvennskonar tímatal: Almanaksárið og okkar forna misseristal, og teljum þá jafnan í vikum, en ekki mánuðum; höfum við 26 vikur í hverju misseri, sumri og vetri, og verður því árið okkar 364 dagar ($7 \times 52 = 364$); en sólárið er 365 dagar 5 st. 48 mín. 46 sek., sem fyr var sagt; bætum við hallann með því, að auka viku við sumarið okkar, ýmist með 4 eða 5 ára millibili; þá viku köllum við sumarauka.

Almanaksárið er líka of stutt; það er 365 dagar; það er leiðrétt með hlaupársdögunum, er degi bætt við 4. hvert ár, en sú viðbót þó feld niður 3var á hverjum 400 árum (í nýa stíl) og því áður lýst. Í 400 »almanaksárum« verða þá dagarnir $400 \times 365 + 100 - 3 = 146097$, en það eru 20871 vikur og verða úr því 400 íslenzk ár (52 vikna)

---

[1]) Fgr. bls. 111—117.

+ 71 vika. Þess vegna höfum við nú komið því lagi á, að hafa 71 sumarauka á hverjum 400 árum og láta ýmist líða 5 ár í milli (45 sinnum) eða 4 ár (26 sinnum).

Þetta viknatal höfum við enn í dag í almanökunum okkar og eftir því er enn farið í öllum búskaparháttum.

Í okkar íslenzka ári er nú um þrent að ræða: 1) vikur — 2) mánuði — 3) misseri.

**Íslenzka vikan.** Flestar — eða allar — fornþjóðir höfðu tekið upp 7 daga vikuna, langa löngu fyrir Íslandsbygð. Á Bretlandseyjum var hún þá gamalkunn og þaðan kom fjöldi landnámsmanna og þeir margir af keltnesku kyni, en Keltar höfðu verið kristnir öldum saman áður Ísland bygðist.

Við búum enn í dag við þrenns konar vikur: 1) sunnudagsvikur, sem allar byrja á sunnudegi, — 2) sumarvikur, sem byrja á fimtudegi, og — 3) vetrarvikur, sem byrja á föstudegi, að alþýðutali, en á laugardegi í Rímbeglu og hennar börnum, »rímunum« og »almanökunum«. Og þetta veldur engum vandkvæðum og hefir aldrei gert; þjóðin hefir lifað við þessar þrenns konar vikur, svo lengi sem elztu menn muna, svo langt sem sögur ná. Við vitum engar sönnur á því, að sunnudagavikurnar hafi verið ókunnar hér á landi í heiðni; en allar líkur benda til þess að þær hafi verið hér alkunnar frá því á landnámstíð, því það er víst, að allmikill fjöldi af því fólki, sem hingað fluttist hefir alist upp við sunnudagavikurnar.

Mönnum hefir orðið tíðrætt um nöfnin á vikudögunum.

Það er víst að elztu mentaþjóðir höfðu í upphafi engin nöfn á vikudögunum, kölluðu þá blátt áfram fyrsta, annan, þriðjadag o. s. frv. En snemma var tekið að kenna þá við merkistjörnur (Sól, Tungl, Marz, Merkúr, Jupiter, Venus, Saturnus) eða goð þau, sem þær voru eignaðar.

Það er nú víst að germanskar þjóðir tóku margar upp þennan sið -- eftir Rómverjum, segja menn — en þær eignuðu þá dagana s í n u m goðum. Hitt er óvíst hversu s n e m m a sá siður barst á N o r ð u r l ö n d, að gefa ö l l-u m vikudögunum nöfn. Við vitum e k k i hvort þeir höfðu nokkur nöfn eða engin í Noregi á landnámstíð, en það er víst, að þá höfðu þeir hlotið skírnina á Bretlandseyjum. Þau fornu dagaheitin haldast enn í öðrum málum (ensku, norsku, dönsku o. fl.) og eru þessi:

| | Enska: | Norska og Danska: |
|---|---|---|
| Sunnudagur | Sunday | Söndag |
| Mánadagur | Monday | Mandag |
| Týsdagur | Tuesday | Tirsdag |
| Óðinsdagur | Wednesday | Onsdag |
| Þórsdagur | Thursday | Torsdag |
| Frjádagur | Friday | Fredag |
| Laugardagur | Saturday | Lö(ve)rdag. |

En við vitum e n g a r sönnur á því, að öll þessi daganöfn hafi borist hingað með landnámsmönnum, eða síðar á öldum; það má vel vera að alþýða manna í Noregi hafi ekki tekið þau fyr en e f t i r Íslandsbygð, og þá gátu þau orðið alsiða þ a r án þess að ganga í tízku h é r; við vitum engar sönnur á því að T ý s d a g u r, Ó ð i n s d a g u r eða Þ ó r s d a g u r hafi verið a l g e n g heiti h é r á landi þegar Jón biskup á Hólum Ögmundsson (1106—1121) bannaði þá hindurvitni að kenna dagana við heiðin goð[1]. Þessi þrjú nöfn sjást e k k i í í s l e n z k u m sögum eða lögum, en þau koma fyrir í N o r e g s konungasögum og n o r s k u m fornlögum.

Elztu í s l e n z k u daganöfnin, sem við vitum, eru þessi:

S u n n u d a g u r, D r o t t i n s d a g u r.
A n n a r d a g u r (v i k u), M á n a d a g u r.
Þ r i ð j i d a g u r (v i k u).
M i ð v i k u d a g u r.

---

[1]) Aþ. 1914, bls. 121.

Fimti dagur (viku).
Frjádagur.
Laugardagur, Þvottdagur.

Þetta eru okkar fornu dagaheiti, þau elztu sem við vitum um hér á landi; þau ganga ljósum logum í íslenzkum fornritum.

Nú er það ætlan mín, að eftir kristnitöku hafi Íslenzkir menn tekið upp á því, sumir hverjir, að kalla þriðja dag Týsdag, Miðvikudag Óðinsdag og fimta dag Þórsdag — að dæmi annara þjóða, en þá hafi okkar góði biskup tekið í taumana og bannað þá tilgerð og menn svo látið af því nýjabrumi. Við vitum engar sönnur á því, að alþýða manna hafi nokkurntíma kallað sunnudaginn drottinsdag, eða laugardaginn þváttdag. En það er víst að föstudagsheitið er frá klerkum komið og harla líklegt að sá dagur hafi áður heitið frjádagur hér í alþýðutali, því að frjádagsheitið hélst langalengi eftir daga Jóns Ögmundssonar þrátt fyrir boð hans og bann; það finst t. d. í Sturlungu oftsinnis.

**Islenzkir mánuðir.** Framan í hverju íslenzku almanaki segir svo um íslenzka tímatalið: »Í yzta dálki til hægri handar stendur hið forna íslenzka tímatal. Eftir því er árinu skift í 12 mánuði þrítugnætta og 4 daga umfram, sem ávalt skulu fylgja þriðja mánuði sumars; í því er aukið viku 5. eða 6. hvert ár í nýja stíl; það heitir sumarauki eða lagningarvika« (Almanak 1915, 4. bls.).

Þetta er bókmál, komið úr gömlum rímtölum. Það er ekki alþýðutal, það er ekki tímatal íslenzku þjóðarinnar, og hefir aldrei verið. Eg gat aldrei komið þessum 30nættu mánuðum inn í mitt alþýðuhöfuð á unga aldri. Og nú er mér orðið ljóst að þeir hafa aldrei verið annað en dauður bókstafur hér á landi[1]) —

[1]) Prófessor E. Briem styrkti mig svo í þeirri trú, að eg gat ekki stilt mig um að „rannsaka ritningarnar“.

kenning lærðra manna, kenning, sem íslenzk alþýða hefir alla tíð virt að vettugi. Þeim er lýst í Rímbeglu og það í elzta kafla hennar, sem ritaður er um 1200; þeirra er getið aftan við eitt handrit af kristnirétti forna — eitt af mörgum. Það handrit er frá 13. öld. Í Snorra Eddu koma loks nöfn á þeim öllum, en flest þau nöfn hafa aldrei fest rætur[1]). Ari fróði minnist og á þrítugnættamánuði, sem síðar mun sagt.

Lítum í skjöl og skrif að fornu og nýju, lagaboð, sögur, árbækur, annála og ártíðaskrár, og við finnum þess alls engin dæmi að nokkur viðburður sé kendur við 15. dag Þorra, 16. dag Góu, 17. dag tvímánaðar, 18. dag Skerplu, 19. dag Hrútmánaðar, 20. dag Gormánaðar eða 30. dag Ýlis. — Slíkt tímatal hefir aldrei verið notað hér á landi; þess eru alls engin dæmi, mér vitanlega. Það er bersýnilegt, að þessir 30-nættu mánuðir eru uppfundning okkar vitru og margfróðu kennimanna á 12. og 13. öld; þeir hafa ekki séð sér fært að kenna íslenzkri alþýðu að nota »kirkjumánuðina« (janúar, febrúar o s. frv.), sem voru og eru afar ruglingslegir; hefir svo hugkvæmst að prýða gamla íslenzka tímatalið (misseratal og viknatal) með þessum skipulegu 30-nættu mánuðum; þeir hafa eflaust fundið þeirra getið í fornritum, því bæði Persar og Egiptar höfðu tíðkað 30-nætta mánuði[2]) og aukanætur. Og svo skrifuðu þeir ósköpin öll um þessa mánuði sína (Rímbegla). En íslenzka þjóðin lét sér fátt um finnast. Hún hélt trygð við sitt gamla tímatal, misseratal og vikna, en lærði þó brátt í viðbót messudaga af klerkunum, og tók í bréfum og öðrum skrifum að miða við þá, en ekki mánuðina, hvorki þá »meiri« (Jan.—Des.) né þá »minni« (þá 30-nættu). En í lögum og landsvenjum hélst viknatalið óbreytt, og helzt að mestu leyti enn í dag. Þess vegna ættum við að stryka yfir þennan »yzta dálk til hægri handar« í Almanakinu okkar. Hann er einkis nýtur og hefir alla tíð verið svo.

[1]) Aþ. 1914, bls. V.—VII; þar eru allar nafngiftirnar.
[2]) G. Br., bls. 170 og 176.

Lítum í okkar fornfrægu lög (Grágás); þar má sjá »hið forna íslenzka tímatal«; þar er alt miðað við vikur og misseri og sjaldan minst á mánuði og þá bersýnilega ávalt átt við 4 vikna mánuði. Og flettum »fornbréfasafninu« okkar (Diplomatarium Islandicum); þar sjáum við að allur fjöldinn af íslenzkum fornbréfum er dagsettur eftir messudögum[1]) örfá eftir kirkjumánuðum (Jan.—Des.) og enginn »11. dag Einmánaðar« eða því um líkt.

Og þetta hélzt langt fram yfir siðaskiftin. Þjóðin tók aldrei upp 30-nættu mánuðina, og kirkjumánuðina (almanaksmánuðina) lét öll alþýða manna ónotaða fram á 18. öld.

Engu að síður hefir íslenzka þjóðin á öllum öldum kunnað að nefna mánuði. Það er enn í dag alsiða hér á landi að kalla 4 vikur mánuð, og 2 vikur hálfan mánuð, og það hefir verið íslenzkur þjóðar siður frá öndverðu, líklega síðan á landnámstíð.

Í fornu og nýju íslenzku tímatali (alþýðutali) eru 4 vikur kallaðar mánuður — íslenzkur mánuður. Þessir íslenzku 4 vikna mánuðir blasa við manni í elztu löggjöf landsins. Og þeir eru enn á hvers manns vörum, þrátt fyrir rímbeglu, rímin og »almanökin«. Þegar við segjum »mánaðartíma«, þá skilur hver maður, að átt er við 4 vikna tíma, og eins að átt er við 2 vikur, ef sagt er »að hálfum mánuði liðnum«. Þetta er enn föst landsvenja.

En lítum nú í lögin fornu, á fáein dæmi:

1) Ef menn eiga skóga saman og vill annar skifta skóginum »þá scal hann fara til heimilis þes manz, er

---

[1]) t. d.: „11 nottum epter Laurencius Messo“ (1282), DI. II$^{339}$; midvikudag hin nesta epter Michaelis messu (1371), DI. III$^{272}$; „Jacobsmessu aptann“ (1405), DI. III$^{703}$; „Drottinsdaginn næstan epter allra heilagramessu“ (1426) DI. IV$^{340}$; „Midvikvdagenn i nivvikna favstv“ (1437), DI. IV$^{566}$; „Næsta dag epter allra heilagra messv“ (1510), DI VIII$^{332}$; „Inventio sancte crucis um vored“ (1521), DI. VIII$^{787}$; „Krossmessu um haustið“ (1521), DI. VIII$^{828}$.

hann vill scoge scipta við, oc finna hann at male x i i i i n o t t o m fyrr, oc nefna ser vatta at því, at hann stefnir honom heim .N ọ á v i c o f r e s t e til scogar sciptis þa er i i i j v i c o r e r o a f s u m r i eða fyrr«. Dragist skiftin fram yfir þennan tíma, þá skulu þau bíða hausts »oc scal eigi fyrr þa scipta scogenom en eftir helge þa e r i i i j v i c o r l i f a s u m a r s aðr«[1]).

2) »Ef menn eigo ij eða flere afrett saman, oc scolo þeir reka fe sitt í afrett e r v i i j v i c o r e r o a f s u m r e«[2])

3) »Þat er oc at menn scolo einkynt hafa fe sitt alt nema hros þ a e r v i i j v i c o r e r u a f s u m r e«[3])

4) Eigi scolo rettir fyrr vera e n i i i j v i c o r l i f a s u m a r s«[4]).

5) »Varþing scolo þeir eigi eiga síðarr en v i v i c o r s e a f s u m r i er lokit er sócnarþingi Várþing scal e i g i f y r r vera e n n i i i i s e a f s u m r i er þeir coma til«[5]).

6) Um a l þ i n g i segir svo:

»Goþar allir scolo koma til þings V. d a g v i k u, e r X. v i k u r e r v a f s u m r i«, og »þingheyiendr scolo koma enn v. d a g v i k v til þings[6])

7) »Lögsogo maðr a up at segia . . . m i s s e r i s t a l, oc sva þat e f m e n n s c o l o c o m a f ý r r t i l alþ i n g i s e n n x. v i c o r e r o a f s u m r e, oc tina imbrodaga halld oc fösto iganga, oc skal hann þetta allt mæla at þinglavsnum«[7]).

8) Um leiðarþingin segir svo:

»L e i ð scal eigi vera síðarr enn drottins dag þann er laugardaginn aðr l i f a v i i i v i c o r s u m a r s, enda skal eigi leið vera fyrr enn x i i i i n æ t r e r o f r a a l þ i n g i.

---

1) Sthb. Landbrigðaþ. XXXV.

2) Sthb. Landbr. XXXVII. Það er enn í héraðslögum víða á landi hér, að reka skal geldfé á afrétt þegar 8 vikur eru af sumri.

3) Sthb. bls. 479.

4) Sthb. Landbr. XXXIX. 5) Kgb. I. 96.

6) Kb. I. bls. 43—44

7) Kb. I. bls. 209.

En leið scal engi vera scemr enn dagstundar leið, oc eigi lengr en ii nátta leið«[1]).

9) »En fimti dagr vikv scal vera fyrstr í sumri; þaþan skal telja iij m a n u ð r x x x. n á t t a oc nætr iiij til miðsumars En fra miþio sumri skal iij manuþr xxx natta til vetrar. Lavgar dagr scal fyrstr vera í vetri; enn þaþan fra scolo vera vi. manuðr xxx natta til sumars; enn x vikvr scolo vera af sumri er menn koma til alþingis«[2]). — Þessi ummæli um 30 nátta mánuði standa aftast í kristinna laga þætti í konungsbók. En næst þar á undan er grein, sem heitir: »18. N y m æ l i. k u a n f a n g m a n n a«. Síðasta greinin heitir svo: »19. M i s s e r i s t a l«. Hún stendur e k k i í neinu öðru handriti af kristinna laga þætti, og eru þó mörg til.

Af þessu tvennu er augljóst að greinin um misseristal er v i ð b ó t og hefir e k k i staðið í kristnirétti Þorláks og Ketils, elstu uppskriftum af honum. Nú er hvergi annarsstaðar minst á þessa 30 nættu mánuði í Grágás — bara á þessum eina stað, í viðbót aftan við þetta eina handrit af kristinnalagaþætti. Og hvergi nokkursstaðar er lagasetningin miðuð við þessa xxx nættu mánuði, svo að ótvírætt sé. Þess vegna vitum við engar sönnur á því, að þetta tímatal — 30 nættir mánuðir — hafi nokkurn tíma verið leitt í lög á landi hér á þjóðveldistímunum; en sjáum allar líkur benda til þess, að það hafi e k k i verið lögboðið, hafi aldrei verið annað en fræðikerfi lærðra manna, og ekki komið upp fyr en e f t i r daga þeirra Þorláks († 1133) og Ketils († 1145). Nú vitum við að á 12. öld voru uppi ýmsir ágætir tölvitringar hér á landi; má þár til nefna Sæmund fróða († 1133), Ara fróða († 1148), Bjarna tölvísa († 1173) og Stjörnu Odda (uppi á 12. öld). Er þeim mönnum trúandi til þess að hafa tekið upp þetta mánaðakerfi í stað kirkjumánaðanna í rímfræðum sínum. En frá þeim er komið alt það bezta í Rím-

---

[1]) Kb. I. bls. 111.
[2]) Kb. I. bls. 37.

beglu — alt það íslenzka. Víst er um það, að við vitum engar minstu líkur til þess, að 30 nættir mánuðir hafi komið til orða hér á landi fyr en á 12. öld. Þess er vert að minnast um *Stjörnu-Odda*, að próf. Eiríkur Briem hefir nýlega athugað »Oddatölu« og fundið, að athuganir Odda á gangi sólar eru svo réttar, að furðu vekur, og er þó mest um vert að Oddi hefir fundið sjónarþvermál sólarhvels mjög nærri sanni, en á öllum miðöldum var þvermál sólarhvels talið þrefalt meira en réttu gegnir[1]). Er Oddi þar langt á undan útlendum vísindamönnum og á sér — nú loksins — víst frægðarorð í sögu stjörnufræðinnar.

Dæmin úr Grágás bera ljósan vott um viknatalið. En af þeim má líka marka, að heildarbragur hefir verið á hverjum fjórum vikum, og þær þá nefndar mánuður, og er það í fullu samræmi við þá venju, sem enn helzt á landi hér. Við segjum »mánaðartíma« = 4 vikur, og »hálfsmánaðartíma« = 2 vikur. En við segjum að jafnaði »8 vikur af sumri«, eða »8 vikur af«, en miklu sjaldnar »mánuð af sumri« eða »2 mánuði af sumri«. Á eg hér við þær málsvenjur, sem eg ólst upp við í Norðurlandi.

Það kemur líka fyrir á stöku stöðum í Grágás, að nefndir eru »mánuðir«; og skyldi enginn ætla að þar sé átt við 30 nætta mánuði; þar er eflaust átt við þá gamalkunnu íslenzku mánuði — 4 vikna mánuði — eins og enn gerist og gengur í íslenzku alþýðutali.

10) »Ef menn eigo land saman, oc vill maðr orca landz deildar .... ef buar sia eigi logscipti með ocr inn V·ta dag, þann er iiii. vicor ero af sumre, oc garðlags ef hann vill þat láta fylgia«[2]).

»Ef maðr vill beiða garð lags annan, þa scal hann hefia vpp heimstefno .... A miðil anna

---

[1]) B. M. Ólsen: Um Stjörnu-Odda og Oddatölu í Afmælisriti fræðafélagsins til Dr. phil. Kr. Kålund. Kh. 1914. Sbr. einnig Rt. bls. 50, neðanmáls. Próf. B. M. Ó. ætlar Oddatal ritað um 1150.

[2]) Kb. II. bls. 86—87.

scal lög garð gerða; en vár avnn er til þess er manaðr er af sumre, en garð önn siþan ii. manaðr; þa er hey önn aðra ii manaðr, enn þa log garðz önn enn efsta manað sumars«[1]).

»Hvar sem maðr hittir fe annars manns ilande því er hann a at varðveita, oc scal hann sagt hafa monnom til a xiiii náttom enom næstom er hann veit. Ef hann hefir feet til þess er manaðr er af vetri eða lengr, þa skal hinn lata honom uppi fulgo slica sem bvar meta at vert er«[2]).

Það leynir sér ekki í þessum lagaboðum að »manaðr« merkir 4 vikur. Að vísu er augljóst að »váıönn, 4 vikur + garðönn, 8 vikur + heyönn, 8 vikur + loggarðsönn, 4 vikur, verða samtals 24 vikur og vantar þá 2 vikur upp á sumarið; þær tvær vikur ætla eg að sé »miðsumarsskeiðið«, sem bráðum kemur til tals.

Við vitum að nú á dögum hefir alþýða manna engin nöfn á þeim gömlu íslenzku mánuðum[3]), öðrum en »Útmánuðunum«; þá köllum við Þorra, Góu og Einmánuð. Tvímánuður er nefndur á stöku stöðum í fornsögum (t. d. Grettissögu og Harðarsögu). En þess sjást engin merki, að önnur mánaðaheiti hafi tíðkast í íslenzku alþýðumáli, hvorki að fornu eða nýju. Nú er það að vísu svo, að rímfræðingum hefir tekist á miðöldum að venja íslenzka alþýðu á það að telja þessa mánuði sína (útmánuðina) 30 nætta. En Rímbegla ber þess ljósan vottinn, að þeir hafa verið 4 vikna mánuðir að alþýðutali fram yfir 1300 ef ekki lengur, enda er svo enn í dag að aldrei er talað um annað en »1. viku þorra«, »miðgóu«,

---

[1]) Kb. II. bls. 89—91 og Sthb. bls. 450; í Sthb. stendur „garðlagsönn“. Er auðsætt að hér er ekki um mánaða-nöfn að ræða.

[2]) Kb. II. bls. 157, sbr. Sthb. bls. 232; í Sthb. stendur „ii manaðr“.

[3]) Hins vegar er það forn og ný íslenzk venja, að kenna ýmsa tíma árs við þau höfuðstörf sem þá eru unnin. Við segjum t. d.: „um sauðburðinn“, „um fardaga“, „um fráfærur“, „í kauptíðinni“, „um sláttinn“ („túnasláttinn“ og „engjasláttinn“), „um réttaleytið“, „um fengjutímann“, „á haustvertíð“, „vetrarvertíð“, „vorvertíð“ o. sv. fr.

»í 3. viku einmánaðar« o. sv. fr. Og í Rímbeglu segir á einum stað, þar sem verið er að lýsa »bókmánuðunum« — sem sé þeim 30 nátta:

»Manuder ero þeir nefnder, er efri ero i vetri: þori ok goi og einmanudur, enn þeir ero eigi samfærir halldner vid bokmanadi (ɔ: 30 nátta) enn adrer, er hier ero tallder«[1]) — vitanlega af því, að alþýða hefir þá haldið fast við forna venju, að telja 4 vikur í hverjum þessara þriggja mánaða.

Mjög margt fleira mætti til tína um íslenzku mánuðina. En þetta verður að nægja í svipinn — til umhugsunar.

Er þá loks að geta þess hvernig viknatalinu er háttað og mánaða.

Við segjum nú »í 3., 4, 13, 20., 24 viku sumars« eða »vetrar«. Þó segja margir enn í dag »þegar 3 vikur lifa sumars« »viku fyrir vetur«, »3 vikum fyrir sumarmál«; algengt mál er það, að segja »3 vikur af«, »12 vikur af«, »í 16. vikunni«; »miðvikudaginn 9 vikur af sumri«, »sunnudaginn í 11. viku vetrar«; við segjum enn »mánuð af sumri« og »mánuði fyrir vetur« (ekki »2 mán.«); við segjum »í 1.—2.—3. viku þorra, góu, einmánaðar«, »í miðþorra«, »í miðgóu« (ekki »í 14.—16 ... 26 viku vetrar«).

Fyr á tímum var það föst venja að helminga sumar og vetur og telja vikurnar í fyrra helmingi frá síðustu misseraskiftum, en til næstu misseraskifta úr því. Þá var sagt: »líðr á sumarit til átta vikna« (Njála) = þar til 8 vikur lifðu sumars; »var Rútr heima til sex vikna« (Njála), »er mánuðr lifir vetrar« (Grágás). En nú kemur að því, sem mér virðist vandast úr að ráða: Hér á landi hefir að fornu og nýju verið talað um »mitt sumar« og »miðjan vetur«, »hásumar« og »hávetur«.

Í fornritum koma einnig fyrir orðin »miðsumarsskeið«

---

[1]) Rt. bls. 139, sbr. Rymbegla. Havniæ 1780; þar stendur í fyrirsögn þessa kap.: „Um misseri islendsk, þria manaði sem eru islendskum egenlegi«“.

og »miðsvetrarskeið«. Þessi heiti: »miður vetur« og »miðsvetrarskeið« eru rjett á borð við »miður aftan« og »miðaftanskeið«.

Það er nú hugboð mitt af ýmsum ástæðum, sem hér er ekki rúm að ræða, að 13. og 14. vika sumars hafi borið nafnið mitt sumar eða miðsumarsskeið, en 13. og 14. vika vetrar heitið miður vetur, miðsvetraskeið, eða öðru nafni **jól**.

Víst er um það, að jól voru forðum (í heiðni) haldin síðar en nú gerist og stóðu hálfan mánuð, eða 13 daga (sjá t. d. orðin jól og hökunótt í orðabók Guðbrandar Vigfússonar). En þá verður alt skiljanlegra forna talið á vikum og mánuðum, ef svo hefir verið talið, sem hér er getið til og lagningarvikunni skotið inn »að miðju sumri«.

Hefir það þá verið þessu líkt.

*Sumar:*

| | | |
|---|---|---|
| 1. vika sumars | Vorannir (vårønn). | |
| 2. — — | | |
| 3. — — | | |
| 4. — — | | |
| Mánuður (4 vikur) af S. | löndum skift, skógi skift. | |
| 5. vika sumars | Várþing. | |
| 6. — — | | |
| 7. — — | Fardagar | |
| 8. — — | | |
| 2 mánuðir (8 vikur) af S | fé rekið á afrétt. | |
| 9. vika sumars | | |
| 10. — — | Alþingi til 999. | |
| 11. — — | | Alþingi frá 1000 »fyrri« vika. |
| 12. — — | | Alþingi frá 1000 »síðari« — |
| 3 mánuðir (12 vikur) af S. | | |
| »fyrri« miðsumarsvika (?) | Mitt sumar, miðsumarsskeið. (14 nætur). | |
| »síðari« miðsumarsvika (?) | | |

3 mánuðir (12 vikur) til vetrar (12 vikur lifa sumars).

| | | |
|---|---|---|
| 12. vika fyrir vetur<br>11. — — —<br>10. — — —<br>9. — — — | Leiðar-[1]) þing. | Heyannir. Slátturinn. |
| 2 mán. til vetrar (8 v. lifa sumars)<br>8. vika fyrir vetur<br>7. — — —<br>6. — — —<br>5. — — — | | Tvímánuður (= tveir mánuðir). |

Mánuður til vetrar.

| | |
|---|---|
| 4. vika fyrir vetur<br>3. — — —<br>2. — — —<br>efsta vika sumars | Réttir. |

*Vetur:*

1. vika vetrar
2. — —
3. — —
4. — —

Mánuður (4 vikur) af vetri.

5. vika vetrar
6. — —
7. — —
8. — —

2 mánuðir (8 vikur) af vetri.

| | |
|---|---|
| 9. vika vetrar<br>10. — —<br>11. — —<br>12. — — | (»Ýlir«). |

3 mánuðir (12 vikur) af vetri.

---

[1]) Engilsaxar kölluðu tvo sumarmánuðina líða (ærre líða, æftera líða).

| | |
|---|---|
| fyrri vika<br>síðari vika | Jól, miður vetur, miðsvetrarskeið. |

3 mánuðir (12 vikur) til sumars.

| | |
|---|---|
| 12 vikur til sumars<br>11 — — —<br>10 — — —<br>9 — — — | Þorri. |

2 mánuðir (8 vikur) til sumars.

| | |
|---|---|
| 8 vikur til sumars<br>7 — — —<br>6 — — —<br>5 — — — | Góa (Gói). |

(Einn) mánuður til sumars. (Jafndægur).

| | |
|---|---|
| 4 vikur til sumars<br>3 — — —<br>2 — — —<br>efsta (síðasta) vika vetrar | Einmánuður. |

**Islenzkt misseristal.** Það er misseristal að 2 misseri heitir ár; það er sumar og vetur.

Nú »varðar mest til allra orða | Undirstaðan sé réttleg fundin«. Og hér er undirstaðan skýr og glögg. Hún er sú, að Íslendingar hafa frá því er sögur hefjast miðað alla sína lifnaðarháttu og atvinnulöggjöf við viknatal, í sumri og vetri, og jafnan haft því sem næst mánaðarbil (í minsta lagi) milli jafndægurs á vor og sumarkomu.

Þetta má rekja í fljótu bragði:

Síðan nýji stíll gekk í lög (1700) hefir sumarkoman oltið á 19.—25. apríl. En jafndægur fellur á 21. marz. Milli jafndægurs og sumarkomu verða þá 28 nætur í minsta lagi, en í mesta lagi 34 nætur. Og sumarkoman er auðfundin, ef maður veit sunnudagsbókstaf árs-

ins og þá líka vetrarkoma, því að vetur kemur á sama dag í október og sumarið í apríl, nema þegar sumar er aukið, þá viku síðar. En hér er gert að vetur komi á föstudag.

Því var áður lýst hvernig finna má sunnudagsstafi. En eftir þeim fara nú — í nýja stíl — misseraskiftin, sem hér segir:

Misseraskifti í Nýja stíl.

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Sunnudagsstafir[1]) | F | E | D | C | B | A | G | A* | |
| Sumarkoma (á fimtud.) | 25 | 24 | 23 | 22 | 21 | 20 | 19 | 20 | apríl |
| Vetrarkoma (á föstud.) | 25 | 24 | 23 | 22 | 21 | 20 | 26 | 27 | október. |

Hér má sjá að sumarauki verður þau ár, sem hafa sunnudag á G.

Þegar stafurinn er A og hlaupár næsta ár (G F) þá er líka sumarauki (þá gildir A*); eru þau ár kölluð rímspillisár og verða ýmist 3 eða 4 á hverri öld í nýja stíl.

Mönnum hefir jafnan — mér og öðrum — hætt til að gleyma rímspillisárunum. Þess vegna hefi eg gert mér talnaformála til að finna misseraskiftin í nýja stíl og gamla stíl. Hefi eg rekið mig á það, að í nýja stíl er kominn upp nýr rímspillir, sem ekki ber að höndum nema einu sinni á hverjum 400 árum, sem sé þegar 99. ár aldar er með A, en 100. árið ekki hlaupár[2]); þá ætti að vera sumarauki (99. árið), af því 4 ganga upp í næsta ártali, en verður ekki, af því hlaupársdegi er þá slept, aldamótaárið (sbr. bls. 265). Þetta kom fyrir 1899, í fyrsta sinni, og ber ekki aftur við fyr en 2299. — Þá eru formálarnir:

$$Sm = 19 + \left[\frac{S+7}{7}\right]a$$

S m. = mánaðardag í apríl á sumardag fyrsta.

S = Sunnudagstalið, 1—7 (A—G).

[1]) Á hlaupárum er vitanlega farið eftir síðara stafnum (sbr. bls. 268).

[2]) hefir ekki G F, heldur G — og því sumarauka.

F y r s t a  d æ m i: Nú, 1 9 1 5, er S = 3 (C); þá er

$$Sm = 19 + \left[\frac{3+7}{7}\right]a = 19 + 3 = 22. \text{ apríl.}$$

A n n a ð  d æ m i: 1916; S = 1 (B A)

$$Sm. = 19 + \left[\frac{1+7}{7}\right]a = 19 + 1 = 20. \text{ apríl.}$$

Þ r i ð j a  d æ m i: 1917; S = 7 (G)

$$Sm. = 19 + \left[\frac{7+7}{7}\right]a = 19 + 0 = 19. \text{ apríl.}$$

V e t r a r f o r m á l i n n er umsvifameiri vegna »litla« og »stóra« rímspillisins.

$$Vt. = 19 + S + 7\left[\frac{\left[\frac{T}{4}\right]a}{3\ S}\right]h - 7\left[\frac{(T+1)\left[\frac{A+1}{4}\right]a}{300}\right]h$$

A = aldatal (núna 19).
T = tugatal (núna 15).
S = sunnudagstalið 1—7 (A—G).

F y r s t a  d æ m i: 1915; S = 3 (C);

$$Vt. = 19 + 3 + 7\left[\frac{\left[\frac{15}{4}\right]a}{3 \times 3}\right]h - 7\left[\frac{(15+1)\left[\frac{19+1}{4}\right]a}{300}\right]h$$

$$= 19 + 3 + 0 - 0 = 22. \text{ október.}$$

A n n a ð  d æ m i: 1911; S = 1 (A).

$$Vt. = 19 + 1 + 7\left[\frac{\left[\frac{11}{4}\right]a}{3 \times 1}\right]h - 7\left[\frac{(11+1)\left[\frac{19+1}{4}\right]a}{300}\right]h$$

$$= 19 + 1 + 7 \times 1 - 0 = 27. \text{ október.}$$

Þá var r í m s p e l l i s á r.

Þ r i ð j a  d æ m i: 1899; S=1 (A):

$$V = 19 + 1 + 7\left[\frac{\left\{\frac{99}{4}\right\}a}{3 \times 1}\right]h - 7\left[\frac{(99+1)\left\{\frac{18+1}{4}\right\}a}{300}\right]h$$

$$= 19 + 1 + 7 \times 1 - 7 \times 1 = 20 + 7 - 7 = 20. \text{ okt.}$$

Þá var »r í m s p i l l i s - s p i l l i r« — og verður nú útkoman af síðasta lið ávalt = 0 þangað til 2299, þá verður hann aftur = 7, og þar næst 2699 o. sv. fr.

Það má segja, að þessir formálar séu meira til gamans en gagns, en þó eru þeir fljótlærðari en Fingrarímsaðferðirnar.

Misseraskifti í gamla stíl.

Það er víst, sem síðar segir, að frá því á 12. öld fóru misseraskiftin eftir þessari reglu.

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Sunnudagsstafir | C | B | A | G | F | E | D | E* | |
| Sumarkoma (á fimtud.) | 15 | 14 | 13 | 12 | 11 | 10 | 9 | 10 | apr. |
| Vetrarkoma (á föstud.)[1] | 15 | 14 | 13 | 12 | 11 | 10 | 16 | 17 | okt. |

Hér má sjá að sumarkoman lék á 9.—15. apríl, en vetrarkoman á 10.—17. okt. (11.—18. ef vetur er talinn koma á laugardag). Þá var jafnan sumarauki þegar sunnudagur var á D, en líka (— Rímspillir —) þegar hann var á E og hlaupár (með D C) á eftir.

En hér er margs að gæta.

Það er þá fyrst, að í gamla stíl var jafndægrið á sífeldu undanhaldi, svo að bilið milli vorjafndægurs og sumarkomu fór sívaxandi — hægt og hægt. Um það er áður rætt (sjá bls. 265). Var þá sagt frá því, að 45 f. Kr. þegar gamli stíll hófst, var vorjafndægur 24. marz, en færðist aftur um full 2 dægur (sólarhring) á hverjum 128 árum. Má finna jafndægrið eftir þessum einfalda formála:

$$\text{Jd.} = 24 - \left[\frac{45 + x}{128}\right]; \ x = \text{ártalið. Dæmi:}$$

$$\text{Árið 723 var jd.} = 24 - \left[\frac{45 + 723}{128}\right] = 24 - 6 = 18.\ \text{marz.}$$

$$\text{Árið 1582 var jd.} = 24 - \left[\frac{45 + 1582}{128}\right]$$

$$= 24 - 12\ {}^{91}/_{128} = 11\ {}^{37}/_{128} = 11.\ \text{marz.}$$

Brotinu slept í þessum reikningi. Af þessu er ljóst, að frá t. d. 1107 til 1619 hefir bilið milli vorjafndægurs og sumarkomu aukist um 4 daga.

[1]) að alþýðutali — í Rímbeglu degi síðar (á laugardag).

Þá er annað: Við eigum ýms gömul rímtöl, sem til eru í handritum frá 13. og 14. öld; það elzta er talið skrifað um 1200 og er eitt af okkar allra elztu handritum. (Það er í Cod. 1812 4to. í Konungsbókhlöðu). Annað ber nafnið B l a n d a (A. M. 625 4to.); öllum hefir þeim snemma verið safnað í eina heild og kölluð R í m b e g l a. Er það sú ólæsilegasta bók sem til er á íslenzka tungu, endalaust sambland af viti og vitleysum, ágætum íslenzkum fróðleik og aumustu útlendum hindurvitnum; og í r í m r e i k n i n g u n u m æ g i r ö l l u s a m a n, g ö m l u o g (þá) n ý j u, ú t l e n d u o g i n n l e n d u.

Nú er ekki um að villast, að í þessari »Blöndu« er yfirleitt talað um misseraskiftin íslenzku á þann hátt sem hér var lýst, að sumarkoma leiki á 9.—15. apríl, en vetrarkoma á 11.—18. október — á l a u g a r d ö g u m. Og þaðan er komin sú kenning, að vetur hafi ávalt komið á laugardag, frá því í heiðni og fram undir 1500; þ á er getið um vetrarkomuna á f ö s t u d a g[1]). Nú stendur ýmislegt í þessum forna samtíningi, sem ekki kemur heim við þetta misseristal, sem eg ætla að kenna við eitt höfuðrímritið forna, B l ö n d u, og kalla »B l ö n d u t a l«. Hafa þau ummæli verið dæmd ómerk eða afbökuð[2]). Annað er það að íslenzk a l þ ý ð a h e f i r u n d a n f a r n a r a l d i r á v a l t t a l i ð v e t u r k o m a á f ö s t u d a g; og við vitum engar sönnur á því, að a l þ ý ð a n — þjóðin öll — hafi nokkurn tíma haldið vetrarkomu á laugardag; og við sjáum líka hversu ólíklegt það er að alþýðan hafi á miðöldum farið að flytja vetrarkomuna af laugardegi á föstudag, andstætt kenningum rímfræðinganna. Eg hefi oft átt tal um þetta við minn heiðraða vin, próf. Eirík Briem. Hefir hann brýnt fyrir mér, að það sé óhugsandi ef alþýða hefði til forna haldið vetrarkomu á laugardag, að

---

[1]) Aþ. 1914 bls. V.

[2]) Próf. B. M. Ólsen telur víst (í riti sínu til Kålunds, sem nefnt var), að höfundar þeirra rímrita, sem til eru, hafi haft fyrir sér eldri rímtöl, skrifuð á 12. öld. Rímreglurnar gátu breyzt.

hún þá alt í einu á miðöldum hefði hlaupið með veturinn á föstudag.

Nú hefi eg verið svo lánsamur, að rekast á sannanir, hverja af annari, fyrir því, að vetur var talinn koma á föstudag, jafnt af lærðum sem leikum, fram á 12. öld, og misseristalinu þá háttað nokkuð á annan veg en síðar gerðist. Er bezt að segja hverja sögu eins og hún gengur: Eg var að blaða í Rímbeglu og rakst á þessa setningu — í elzta handritinu (frá því um 1200):

I. *Iola dagr scal vesa i enne ellepto viko vetrar, hvernge dag sem hann er i viko, oc sua þa er rimspiller es.*[1]).

Eg sá að menn hafa kallað þetta vitleysu og vísað í miklu yngra handrit — í Blöndu; þar stendur:

Jola dagur skal vera i enne xi viko vetrar, hvenge dag sem hann er í viko, *nema hann se föstu dagh eða þvat dagh, þa er hann i tiundu viko*, ok sva þá er rimspiller er[2]).

Mér datt í hug að reikna; fann þá strax að þetta innskot er vitleysa: Jól eru á laugardag þegar sunnudagur er á C, en þá kemur veturinn eftir Blöndutali 16. okt. (á laugardag) og þá fellur 10. vika vetrar á 18.—24. desember, svo jól verða þá laugardaginn í 11. vikunni — ekki í »tiundu viko«. Hitt er þó rétt, að þegar jól falla á föstudag, er sunnudagur á D og vetur eftir Blöndutali 17. okt. og 10. vikan þá 19.—25. des. — jólin í 10. viku.

Þá tók eg til og reiknaði hvernig vetrarkomu yrði að vera háttað ef jól skyldu ávalt vera í 11. viku vetrar, eins og elzta rímtalið segir; fann þá, að það getur því að eins gengið, ef veturinn kemur á **föstudag** og leikur á 10.—16. okt. Af gömlum barnsvana var eg fljótur að finna á fingrum mér og í huga mínum, að

1) Rt. bls. 21.

2) Rt. § 29. í AM 625.

ætti þetta svona að vera, þá yrði rímspillingin að lenda á sumarkomunni, þá yrði hún að velta á 8.—15. apríl, og aukavikan þá koma — í reikningnum — framan við sumarið — þegar það kæmi 8. apríl. Og nú fann eg hverja »vitleysuna« á fætur annari, sem allar koma heim við þetta merkilega forna misseristal. Þetta hefi eg fundið:

Í elzta rímtalinu stendur á öðrum stað:

II. »Þat er misserestal at .ii. missere heiter ár, þat er vetr oc sumar. *Scal sumar koma eigi nęr Mario messo af fǫsto heldr en Xiiii nottom epter oc eigi fyrr en einni nott oc XX⁰, oc scal enn fimte dagr fyrstr i sumre*«[1]).

Maríumessa (nú kölluð Boðunardagur Maríu) er 25. marz, »14 nottom epter« verður **8. april**; »einni nott oc xx« eftir verður **15. april**. Kemur heim við Jólasetninguna. Það verður á hlaupári, þegar sunnudagur er á DC, þá verður Maríumessa á fimtudag ($^{25}/_{3}$) og þá »scal sumar koma« »14 nottom efter«, sem sé fimtudaginn 8. apríl; eg hefi fundið að þá kemur alt heim hvert ár við annað, ef svo er talið.

Þessi merkilega setning um sumarkomuna helzt óbreytt í Blöndu[2]). En í öðru handriti er XIIII breytt í 15[3]). Þá er enn eitt:

III. »*Viku skal þa vid sumar leggia er drottins dagr er á de ok Ions dagr a midviku degi i mitt þing nema hit 8. ar solar alldar, þa er drottins dagur er a 'e ok Jons messa er a þridia deigi viku, skal þa vid sumar leggia anat arit epter. Lidur Ions dagr ifer midviku dag a fimta dag viku ok skal Ions dagr þa vera i ondvert þing ok skal þa midvikudag a þing rida*«[4]).

Þetta er ein sú allra flóknasta rímregla sem til er

[1]) Cod. 1812, bls. 19.
[2]) Rt. § 26 í AM 625.
[3]) Rt. § 3 í AM 624.
[4]) Rt. § 133 í AM 624.

í íslenzkum rímtölum. Hún er bersýnilega afarforn; má vera að hún sé eitthvað afbökuð, en þó er það ekki víst.

Meginreglan er þessi: Þegar Jónsdagur (Jónsmessa — 24. júní) er »a midvikudegi i mitt þing«, þá skal leggja viku við sumarið. Þetta var heldur en ekki hæg regla fyrir lögsögumanninn, sem átti að segja upp misseristal að þinglausnum; og það kemur heim, að þegar sunnudagur er á D (»Drottins dagr er á de«) þá er Jónsmessa á miðvikudag, og þá kom sumarið 9. apríl í gamla stíl — líka eftir Blöndutali, og þá hófst alþingi fimtudaginn 18. júní (10 vikur af), svo Jónsmessa varð miðvikudag í mitt þing; og var þá hafður sumarauki — líka eftir Blöndutali.

En — svo kemur undantekningin frá reglunni og hún kemur ekki heim við Blöndutal; verður þá fyrst að líta á sólaldarár og sunnudagsstafi; sumarkoman var í gamla stíl þannig:

| | | |
|---|---|---|
| B A | 5. ár sólaldar | |
| G | 6. | — |
| F | 7. | — |
| E* | 8. | — |
| D C* | 9. | — |
| B | 10. | — |
| A | 11. | — |
| G | 12. | — |

Samkvæmt Blöndutali er sumarauki (— Rímspillir —) 8. ár sólaldar þegar stafurinn er E; kemur þá sumar $^{10}/_{4}$ en vetur $^{17}/_{10}$ (sjá bls. 288) og er Jónsmessa á þriðjudegi. En hér segir, að »skal þa vid sumar leggia anat arit epter«, sem sé 9. árið; fer þá svo: 8. ár: sumar $^{10}/_{4}$, vetur $^{10}/_{10}$; 9. ár: sumar $^{8}/_{4}$, vetur $^{15}/_{10}$. Það er undantekningin frá reglunni, því 9. árið er Jónsmessan ekki á miðvikudag í mitt þing, heldur á fimtudegi (hefir liðið yfir miðvikudag á fimta dag viku). Þetta kemur alveg heim við I) og II). En þá er endirinn eftir og kemur ekki heim ɔ: »ok skal Jóns dagr þa vera í öndvert þing og skal þa midvikudag á þing rida«. Jónsdagur er í öndvert þing eftir Blöndutali þegar sunnudagsbókstafur er D C, því sumar kemur þá eftir því tali $^{15}/_{4}$ og alþing hefst þá á Jónsmessudag $^{24}/_{6}$; en það var ekki siður að ríða á þing fyr en

fimtudaginn 10 vikur af (sbr. bls. 278). Annaðhvort er nú þessi endir yngri, ósamræm viðbót við það sem undan var sagt, eða þá að það hefir átt sér stað einhvern tíma í þessu forna tali að ríða ekki á þing fyr en miðvikudaginn í 11. vikunni (síðasta daginn — ekki fimtudaginn, fyrsta daginn) rímspillis árin þegar sumarið kom 8/4. Og þá er þetta alt keiprétt hvað við annað og öll setningin vönduð og mjög viturleg rímregla. En þessi síðasta skýring er laus tilgáta mín. Það er ein sönnunin fyrir sumarkomu 8. apríl, að

IV. Vallanesartíðaskrá telur að alþingi hefjist í fyrsta lagi 17. júní[1]), en það kemur heim við sumarkomu 8. apríl.

V. Í Helgafellsártíðaskrá stendur: apríl, »8. sumar«[2]).

Þá er enn eftir ein veiga mesta sönnunin fyrir þessu forna misseristali; hana hef eg fundið í Íslendingabók Ara fróða, og þess vegna hefir prófessor E. Briem ráðið mér að kalla það Aratal, og mun eg gera það úr þessu. Ari segir:

VI. »at rétto tali ero í huerio áre .v. dagar ens fiórþa hundraþs, (ɔ: 5 + 3 × 120) ef eigi es hlaupár, en þá einom fleira, *en at ǫro tali verþa* iiii; *en þá es aycsc at ǫru tali et siaunda huert at vico, en engo at hino. þá verþa* vii *ǫr saman iamnlöng at huǫrotueggia, en ef hlaupór verþa* ii. *á miþli þeira, es auka scal, þá þarf auca et sétta*«[3]).

---

[1]) Árt. bls. VI. og 133.

[2]) Árt. bls. V og 84.

[3]) Ib. bls. 8. NB. „siaunda (7.) huert" merkir að 5 ár skuli líða milli, og „et sétta" merkir að 4 ár skuli líða milli, þannig:

| ár: 1.—2.—3.—4.—5 —6.—7. | ár: 1.—2.—3.—4.—5.—6. |
|---|---|
| sumarauki (1.) … sumarauki (7.) | sumarauki (2.) … sumarauki (6.) |

Þannig töldu latínulærðir menn í þá tíð.

Þessi síðasta setning er full sönnun fyrir því, að *Blöndutal hefir ekki verið komið í tízku þegar Ari reit Íslendingabók, því að í Blöndutali verða einu sinni á hverri sólaröld 2 hlaupár milli sumarauka. En það kemur aldrei fyrir í því eldra talinu, þá er sumar valt á 8.—15. apríl*

*Á hverri* sólaröld (28 árum) í gamla stíl urðu sömu breytingar á vikustöfum og misseraskiftum. Þess vegna hefi eg gert mér sólaldarskrá og má eftir henni finna misseraskiftin í gamla stíl, bæði eftir Blöndutali og Aratali. En sólaldarár eru auðfundin: Árið 1 e. Kr var 10. ár sólaldar (sunnudagur á B); þessvegna er sólaldarárið = $\left[\frac{x+9}{28}\right]a$. *Dæmi*: árið 1000; ⊙ ár = $\left[\frac{1000+9}{28}\right]a$ = 1. ár sólaldar.

## Íslenzk misseraskifti í gamla stíl.[1])

| | | Aratal. Fram á 12. öld. | | Blöndutal. Frá því á 12. öld. | |
|---|---|---|---|---|---|
| sól-öld. | sunnud. stafir | sumar í apríl á fimtud. | vetur í okt. á föstud. | sumar í apríl á fimtudag. | vetur í okt. á laugard. |
| 1. ár | G F | 11 | 11 | 11 | 12 |
| 2. | E | 10 | 10 | 10 | 11 |
| 3. | D | 9 S | 16 | 9 S | 17 |
| 4. | C | 15 | 15 | 15 | 16 |
| 5. | B A | 13 | 13 | 13 | 14 |
| 6. | G | 12 | 12 | 12 | 13 |
| 7. | F | 11 | 11 | 11 | 12 |
| 8. | E* | 10 | 10 | 10 SR | 17 |
| 9. | D C* | 8 SR | 15 | 15 | 16 |
| 10. | B | 14 | 14 | 14 | 15 |
| 11. | A | 13 | 13 | 13 | 14 |
| 12. | G | 12 | 12 | 12 | 13 |
| 13. | F E | 10 | 10 | 10 | 11 |
| 14. | D | 9 S | 16 | 9 S | 17 |
| 15. | C | 15 | 15 | 15 | 16 |
| 16. | B | 14 | 14 | 14 | 15 |
| 17. | A G | 12 | 12 | 12 | 13 |
| 18. | F | 11 | 11 | 11 | 12 |
| 19. | E | 10 | 10 | 10 | 11 |
| 20. | D | 9 S | 16 | 9 S | 17 |
| 21. | C B | 14 | 14 | 14 | 15 |
| 22. | A | 13 | 13 | 13 | 14 |
| 23. | G | 12 | 12 | 12 | 13 |
| 24. | F | 11 | 11 | 11 | 12 |
| 25. | E D | 9 S | 16 | 9 S | 17 |
| 26. | C | 15 | 15 | 15 | 16 |
| 27. | B | 14 | 14 | 14 | 15 |
| 28. | A | 13 | 13 | 13 | 14 |
| 1. | G F | 11 | 11 | 11 | 12 |
| 2. | E | 10 | 10 | 10 | 11 |
| 3. | D | 9 S | 16 | 9 S | 17 |

[1]) S = sumarauki; SR = sumarauki, rímspillir.

Hér má nú sjá að Aratal og Blöndutal eru nauðalík. Höfuðmunurinn er þessi, að 8. ár sólaldar er Rímspillisár í Blöndutali en ekki í Aratali; í því er 9. ár sólaldar

rímspillisár[1]) og það ár kemur blessað sumarið 8. apríl, en alþingi hefst þá 17. júní, ef það er hafið fimtudaginn 10 vikur af sumri. Þá er það annað, að í Aratali er vetur talinn koma á *föstudag* og veltur vetrarkoman á 7 dögum (10.—16. okt) en ekki 8 dögum eins og í Blöndutali (11.—18.) okt.); þar af leiðir, að í Aratali verða jólin *ávalt* í 11. viku vetrar, »og svá þá er rímspillir er«; en í Blöndutali verða þau í 10. vikunni þegar sunnud. er á D (sbr. bls. 290); í Blöndutali fellur rímspillingin á vetrarkomuna (8. ár aldar), en í Aratali á sumarkomuna (9. ár aldar). *Í Aratali verða aldrei tvö hlaupár milli sumarauka — eins og Ari segir.* En í Blöndutali verða einu sinni á hverri sólaröld 2 hlaupár milli sumaraukanna, sem sjá má af töflunni, því að í Blöndutali er sumarauki 8 ár aldar og næst 14. ár aldar og þá *tvö* hlaupár milli (ɔ: 9. og 13. ár aldar), og Ari fróði er sá íslenzkur fræðimaður, sem við vitum spakastan. Í Aratali ganga árabilin milli sumaraukanna í þessum skipulegu lotum: 5—4—5—4—5 | 5—4—5—4—5 o. s. frv. Í Blöndutali eu loturnar þannig: 4—5—5—4—5 | 4—5—5—4—5 o s. frv.[2])

---

[1]) Eg hef rekið augun í þá tilviljun að dánarár Ara fróða, 1148, var rímspillisár — eftir Aratali.

[2]) Eg hef gert mér talnaformála til að finna misseraskifti eftir Blöndutali og Aratali — *utan bókar*; set eg þá hér handa þeim sem hafa gaman af reikningi.

*Aratal:*

$$\text{Sm.} = 9 + \left(\frac{S+10}{7}\right)_a - 7\left[\frac{\left(\frac{T-1}{4}\right)_a}{3+\left(\frac{S+11}{7}\right)_a}\right]_h$$

$$\text{Vt.} = 10 + \left(\frac{S+9}{7}\right)_a$$

*Blöndut.:*

$$\text{Sm.} = 9 + \left(\frac{S+10}{7}\right)_a$$

$$\text{Vt.} = 11 + \left(\frac{S+9}{7}\right)_a + 7\left[\frac{\left(\frac{T}{4}\right)_a + 7}{10+\left(\frac{S+9}{7}\right)_a}\right]_h$$

Surtstal: Aratal er ekki elzta skipulega misseristalið hér á landi. Á undan því gekk Surtstal, og er þá úti um gamla stíl.

Ari fróði segir um forfeður okkar á miðri 10. öld: *»þat vas oc þá, es ener spöcostu menn á landi hér hugþo tal í tueim misserom fióra daga ens fiorþa hundraþs*, þat verþa vicor .ii. ens sètta tegar, en mǫnoþr .xii. þritøgnattar oc dagar .iiii. umbfram, *þa mercþo þeir at solargangi, at sumar munaþi aptr til vars, en þat cunni engi segia þeim at degi einum vas fleira, an heilom vicom gengdi, i tveim misserom*, oc þat olli. En maþr hét *Þorsteinn Surtr* . . . . *leitaþi hann þess ráþs at lögbergi, at et síaunda huert sumar scyldi auka vico, oc freista, hvé þá hlýddi* . . . . . . *vas þa þat þegar i lög leitt* at ráþi Þorkels mána oc annara spacra manna«[1]).

Þetta er okkar elzta skipulega misseristal — Surtstalið. Hér ber þess að gæta að Ari segir skýrum orðum að »spöcosto menn« á 10. öld hafi ekki þekt hlaupársreikninginn (»gamla stíl«), en hann eignar þeim alls ekki að þeir hafi skift íslenzka árinu í »mǫnoþr xii þritøgnattar oc dagar iiii umbfram«. Það eru skýringarorð hans sjálfs, og sanna það að íslenskir fræðimenn hafa fengið vitneskju um þann forna reikning Persa og Egipta áður en hann skrifaði Íslendingabók (sbr. bls. 279). Frásagan um sumaraukann ber þess ljósan vott, að 7 daga vikur og viknatal og misseristal hefir verið þjóðkunnugt hér um miðbik 10. aldar, og virðist auðsætt, að svo hafi verið frá landnámstíð — allir lifnaðarhættir lög og venjur miðað við viknatal — sumar og vetur (sbr. bls. 277). En þá urðu menn líka að gæta þess, að bilið milli vorjafndægurs og sumarmála skektist ekki að stórum mun; þeir hafa hlotið að auka árin sín við og við; annars hefði alt farið öfugt á skömmum tíma; hefði engir ársaukar verið fyrir daga Þorsteins Surts, þá hefði sumrinu munað aftur til vorsins um 35 daga á 28 árum (28 × 365 + 7—28

---

[1]) Ib. bls. 7—8 Endirinn á umræðu Ara er hér að framan á bls. 293).

× 364 = 35); þetta er óhugsandi; þess vegna augljóst að Íslendingar hafa haft sumarauka frá upphafi, en ekkert skipulag á þeim og má vera oft valdið ágreiningi á Alþingi (eftir 930) hvort auka skyldi eða ekki, því ávalt hafa menn merkt af sólargangi að sumrinu miðaði aftur til vorsins. Þá er það að Þorsteinn Surtur ber upp þetta nýmæli sitt, að koma föstu skipulagi á sumaraukana — auka viku við »siaunda hvert sumar« (sbr. bls. 293).

Við höfum sögur af mjög margs konar tímatali í fornöld meðal mentaþjóða heimsins;[1]) en ekkert þeirra er eins einfalt og skipulegt eins og okkar elzta íslenzka tímatal, Surts tal.

Við vitum ekki með vissu hvenær sumarauki var í lög tekinn. Guðbrandur Vigfússon ætlar það hafi verið »um 955«. Það vitum við að Þorsteinn Surtur druknaði 960.

En nú kem eg að því, sem undarlegast má þykja. Þegar eg hafði fundið Aratal og tók að hugsa um Surtstalið, flaug mér þetta í hug: Við Íslendingar höfum allir tekið okkur það bessaleyfi að reikna út sumarkomuna og alþingissetningu kristnitökuárið — 1000 — eftir Blöndutali! — eftir þeim reglum sem við finnum í Rímbeglu; okkur hefir alveg láðst að gæta þess að sumarkoman árið 1000 fór ekki eftir gamla stíl sem þá var ókominn hingað, heldur eftir Surtstali. Mér hnikti við. Þá hugsun hefi eg nú elt út í æsar og farið þessa leið:

Eg geri ráð fyrir að forfeður okkar hafi í heiðni haft þrenns konar vikur í huga eins og við (sbr. bls. 273) og svo mikil voru mökin við önnnur lönd, að það má telja víst að »sunnudagavikurnar« hér hafi fallist í faðma við sunnudagavikur Breta og annara kristinna þjóða í þá tíð, þeirra, sem höfðu tekið upp Júlíusar-tal (gamla stíl).

En samkvæmt gamla stíl var sunnudagur á G F árið

---

[1]) G. Br. Í þeirri fróðlegu ritgerð er all ítarleg lýsing á tímatali allra helztu fornþjóða.

1000. Og samkvæmt Blöndutali hefði sumarið þá átt að koma hér á landi fimtudaginn 11. apríl.

En þá var farið eftir Surtstali. Og við vitum ekki nema sumarið kunni að hafa komið fimtudaginn 4. apríl eða fimtudaginn 18. apríl — eftir Surtstali, sem þá réð misseraskiftum. Og hvaða ár eftir sumarauka var árið 1000 — eftir Surtstali? Ef við vissum fyrir víst hvenær sumar kom árið 1000 og ef við vissum hvaða ár það var eftir sumarauka — að Surtstali, þá gætum við dagsett öll íslenzku misseraskiftin á síðari hluta 10. aldar — dagsett þau eftir Júlíusartali (gamla stíl).

»Vi er Tanker, Du skulde tænkt os,
Pusselanker du skulde skænkt os«,

kvað Ibsen. Okkur hefir láðst að hugsa þessar hugsanir og koma þeim á fót.

Það eru átta hugsanir, sem hugsa þarf: 1) að sumarið hafi komið 4 apríl og haft sumarauka; 2–7) að sumar hafi komið 11. apríl og verið 1, 2., 3, 4. eða 5. ár eftir sumarauka — eða í 6 lagi haft sumarauka; 8) að sumarið hafi komið 18. apríl og þá verið 1. ár eftir sumarauka. Því ekki fleiri hugsanir? Af því, að bilið milli vorjafndægurs og sumarmála hefir hlotið að vera áþekt í heiðni því sem það var eftir kristnitöku og hefir verið fram á þennan dag.

Í skrá þeirri, sem hér fer á eftir, hef eg varðað þessar 8 leiðir handa sagnfræðingum okkar um að velja.

## Hugsaðar sumarkomur eftir Surtsfali

[Tölurnar merkja mánaðardaga í apríl. Feit tala merkir, að viku skuli við sumar leggja].

| | | I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 952 | D C | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | **15** | 22 | 15 |
| 3 | B | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 21 | 21 | |
| 4 | A | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 20 | 20 | 20 | |
| 5 | G | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 19 | 19 | 19 | |
| 956 | F E | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | 17 | 17 | |
| 7 | D | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | 16 | **16** | 16 |
| 8 | C | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | **15** | 22 | 15 |
| 9 | B | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 21 | 21 | 14 |
| 960 | A G | 12 | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 19 | 19 | |
| 1 | F | 11 | 11 | 11 | **11** | 18 | 18 | 18 | 18 | |
| 2 | E | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | 17 | 17 | |
| 3 | D | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | 16 | **16** | 16 |
| 964 | C B | **7** | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 21 | 14 |
| 5 | A | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 20 | 20 | 13 |
| 6 | G | 12 | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 19 | 19 | |
| 7 | F | 11 | 11 | 11 | **11** | 18 | 18 | 18 | 18 | |
| 968 | E D | 9 | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | 16 | |
| 9 | C | 8 | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | **15** | 15 |
| 70 | B | **7** | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 21 | 14 |
| 1 | A | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 20 | 20 | 13 |
| 972 | G F | 11 | 11 | 11 | 11 | **11** | 18 | 18 | 18 | |
| 3 | E | 10 | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | 17 | |
| 4 | D | 9 | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | 16 | |
| 5 | C | 8 | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | **15** | 15 |
| 976 | B A | **6** | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 20 | 13 |
| 7 | G | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 19 | 12 |
| 8 | F | 11 | 11 | 11 | 11 | **11** | 18 | 18 | 18 | |
| 9 | E | 10 | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | 17 | |
| 980 | D C | 8 | 8 | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | |
| 1 | B | 7 | **7** | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 14 |
| 2 | A | **6** | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 20 | 13 |
| 3 | G | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 19 | 12 |
| 984 | F E | 10 | 10 | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | |
| 5 | D | 9 | 9 | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | |
| 6 | C | 8 | 8 | **8** | 15 | 15 | 15 | 15 | 15 | |
| 7 | B | 7 | **7** | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | **14** | 14 |
| 988 | A G | **5** | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | **12** | 19 | 12 |
| 9 | F | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | **11** | 18 | 18 | 11 |
| 90 | E | 10 | 10 | 10 | 10 | **10** | 17 | 17 | 17 | |
| 1 | D | 9 | 9 | 9 | **9** | 16 | 16 | 16 | 16 | |
| 992 | C B | 7 | 7 | **7** | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | |
| 3 | A | 6 | **6** | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | **13** | 13 |

| | | I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 4 | G | 5 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 19 | 12 |
| 5 | F | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 18 | 18 | 11 |
| 996 | E D | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 16 | 16 | 16 | |
| 7 | C | 8 | 8 | 8 | 8 | 15 | 15 | 15 | 15 | |
| 8 | B | 7 | 7 | 7 | 14 | 14 | 14 | 14 | 14 | |
| 9 | A | 6 | 6 | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 |
| 1000 | G F | 4 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 18 | 11 |
| 1 | E | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 17 | 17 | |
| 2 | D | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 16 | 16 | 16 | |
| 3 | C | 8 | 8 | 8 | 8 | 15 | 15 | 15 | 15 | |
| 1004 | B A | 6 | 6 | 6 | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | |
| 5 | G | 5 | 5 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 |
| 6 | F | 4 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 18 | 11 |
| 7 | E | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 17 | 17 | 10 |
| 1008 | D C | 8 | 8 | 8 | 8 | 8 | 15 | 15 | 15 | |
| 9 | B | 7 | 7 | 7 | 7 | 14 | 14 | 14 | 14 | |
| 10 | A | 6 | 6 | 6 | 13 | 13 | 13 | 13 | 13 | |
| 1 | G | 5 | 5 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 |
| 1012 | F E | 3 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 17 | 10 |
| 3 | D | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 16 | 16 | 9 |
| 4 | C | 8 | 8 | 8 | 8 | 8 | 15 | 15 | 15 | |
| 5 | B | 7 | 7 | 7 | 7 | 14 | 14 | 14 | 14 | |
| 1016 | A G | 5 | 5 | 5 | 12 | 12 | 12 | 12 | 12 | |
| 7 | F | 4 | 4 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 | 11 |
| 8 | E | 3 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 10 | 17 | 10 |
| 9 | D | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 9 | 16 | 16 | 9 |
| 1020 | C B | 7 | 7 | 7 | 7 | 7 | 14 | 14 | 14 | |

Hér gefur á að líta og ber margt fyrir augu:

1) Surtstalið hefir þann galla, að meðalárið verður of stutt og munar degi á 12 árum (andspænis gamla stíl); 12 Surtsár = 12×364 +14 (2 S au.) = 4382 dagar; en 12×365+3 (hlaupársdagar) = 4383 dagar.

2) Á síðari hluta 10. aldar féll vorjafndægur á 16. marz; því er áður lýst, að bilið milli jafndægurs og sumarmála hefir þá hlotið að vera mjög áþekt því sem síðar gerðist — um það bil mánuður (4 vikur) í skemsta lagi. Ræður af líkum að flutning alþingistímans árið 999 hafi stafað af því, að menn merktu þá að sumrinu var að miða aftur til vorsins, enda hafði því þá miðað aftur um nærfelt 4

daga frá því er sumarauki var lögtekinn. Mér virðist nú V. leiðin langsennilegust; hefir þá sumar komið 11. apríl árið 1000, eins og við höfum reiknað — í athugaleysi; og þá hefir árið 1000 verið 4 ár eftir sumarauka.

3) Nú má telja líklegt, að það sumar hafi verið aukið, er sumarauki var i lög tekinn; sé V. leið farin, þá hefir það verið 954 (eða 960) og kemur það vel heim við ummæli Guðbr. Vigfússonar. Hefir þá í upphafi Surtstalsins sumarið leikið á 13.—19. apríl; en frá $^{16}/_{3}$ til $^{18}/_{4}$ eru að heita má 4 vikur (27 nætur); nú 28, frá $^{21}/_{3}$—$^{19}/_{4}$.

4) Þá er eftir að vita hvenær Surtstal var leiðrétt eftir kristnitökuna. Það getur vel verið, að aldrei auðnist að leysa úr því. En ekki kemur mér til hugar, að það hafi verið gert á alþingi árið 1000. Virðist miklu líklegra að Surtstalið hafi haldist óbreytt alllengi fram yfir kristnitöku, því »ung var ný trúan« og fáir klerkarnir í fyrstu. Ef V. leið er fetuð áfram, má geta sér til að breytingin hafi orðið 1013 — þá aukið sumarið eftir 4 ára bil í fyrsta sinn; eða þá ekki fyr en 1019.

5) Af hinum leiðunum hefir mér einkum orðið starsýnt á þá VI. og ætti þá sumarauki að hafa gengið í lög 953 eða 959 og Surtstal haldist framyfir 1030, þar til er sumarkoman var hopuð á 8. apríl. Útleiðirnar I og II og VII og VIII geta naumast komið til mála.

6) Hvað sem nú ofan á verður um miðleiðirnar hver þeirra líklegust þykir, þá stendur svo á um mörg árin milli 960 og 1000 — alls 20, að óhætt mun að ætla þeim þær sumarkomur, sem merktar eru í aftasta dálki.

»En huatki es missagt es i fræþóm þessom, þá es scyllt at hava þat heldr, es sannara reynisc«.

Á langa frjádag 1915.

## Athugasemd.

Mér hefir verið gefinn kostur á að sjá framanskráða ritgerð um íslenzka tímatalið og þykir mér hún stórmerkileg, auk almenns fróðleiks þá eru þar röksemdir teknar fram fyrir því að tímatalið eftir 12 þrítugnættum mánuðum með aukanóttum, sem lýst er í Rímbeglu, hefir aldrei verið alment notað hér á landi og að það hefir ekki annan rétt til að heita íslenzkt tímatal en að það er fundið upp hér á landi á 12. öld. Í sambandi við þetta stendur það, að veturinn hafi áður komið á föstudag, eins og vitanlegt er að almenningur um alt land taldi fram yfir miðja næstliðna öld. Röksemdirnar fyrir þessu eru svo sterkar, að mér er ekki sýnilegt að þær verði hraktar, og væri því ástæða til að sem fyrst yrði slept að prenta 12 mánaða tímatalið í aftasta dálki almanakanna þegar það er ljóst orðið, að það er tímatal, sem aldrei hefir verið farið eftir, og jafnframt ætti þá að fara aftur að telja vetrarkomuna á föstudag.

Merkileg söguleg uppgötvun er og það, að á dögum Ara fróða hafi rímspillirinn 28. hvert ár komið þannig fram, að sumarkoman en ekki vetrarkoman hafi leikið á 8 dögum og virðast full rök sýnd fyrir því að svo hafi verið. Enn fremur er og bent á fleira sem vert er að athuga, t. d. það sem höfundurinn segir um miðsvetrar- og miðsumarsskeiðið. Yfirhöfuð sýnist mér ritgerð þessi miklu merkilegri en nokkur önnur ritgerð er rituð hefir verið um hið íslenzka tímatal.

*Eiríkur Briem.*

---

# Rousseau.

Í skógarins ilmandi laufgrænum lund,
um lífið 'ann hugfanginn dreymdi,
og ásthrifinn hélt 'ann með heiðlóum fund,
— en hégóma-prjálinu gleymdi.

Hann stökk upp á fjallstind og stóð þar og sá,
hve storðin var inndæl og fögur,
og himininn töfrandi, hafaldan blá
svo heillandi' um voga og ögur.

Hann teygaði ilminn úr angandi rós
og óminn af fossanna gígjum.
Hann tilbað hið blessaða, blikandi ljós,
sem brýzt fram úr kolsvörtum skýjum.

Á alstirndan himin um heiðskíra nótt,
'ann hrifinn og forviða starði, —
hve ótölu-hnettirnir óðu fram skjótt,
en afllögum hver annan varði.

Hann titraði' af virðing í tröll-hamra-sal,
hann taflið sá ægis og stormsins,
og þórdunur heyrði 'ann hrynja í dal,
og hugsar með lotning — til ormsins.

Og eldkrafta-jötuninn jafnvel hann sá
og jörðina kippast og stynja,
og kolsvartan gosmökk, er birtunni brá,
og borgirnar sökkva og hrynja.

Hann sá þau hin óbrotnu, eilífu lög,
sem aldrei af dutlungum breytast, —
hve náttúran listfeng, á lagasmíð hög,
er ljúf því, er elskar hún heitast.

Hann heyrð' að í lóunnar léttstíga óð
var laðandi sakleysis hreimur.
Þar tíst' engin skjálfandi tilgerðar hljóð,
sem tízkunnar valdbýður heimur.

Hann fann það, að ilmur úr inndælli rós
var okruðu smyrslunum mærri.
Hann sá það, að brjóstfögur dalanna drós
var »drotningum« borganna skærri.

Hann sá, — þegar titraði tröllaukin höll
og teygðist í fjörbrotum hauður,
og stormurinn æddi og ólguðu föll,
— hve örlítill var hann og snauður.

Hann sagði: »Ó, alt er það gullvægt og gott,
sem guðshöndin einsömul lagar.
En mannanna hégómi, hroki og spott
þau handaverk smánar og bagar«.

Hann kendi: »Ó, lærðu að lifa á jörð
því lífi, sem náttúran kennir!
Ef eltirðu tízkunnar hégóma-hjörð,
á heimskunni líf þitt þú brennir«.

**Ort í marz 1914.**

*B. Þ. Gröndal.*

---

# Alþýðukveðskapur.

Erindi flutt á Eyrarbakka og við Þjórsárbrú veturna 1913 og 1914.

Nl.

Flestir eiga fagrar vonir, þegar þeir kveðja æsku sína og hefja gönguna út í lífið. Þeim finst framtíðin brosa móti sér, hvert sem þeir líta, og þeir ætla mikið að gera. Sumum rætast vonirnar, öðrum bregðast þær. Lífið verður öðruvísi heldur en vonirnar höfðu spáð. Eða svo hefir honum — eða henni — fundist, sem þessa vísu kvað:

Margt er klungrið mæðunnar
meira en ungur hyggur,
einhver drungi ömunar
á mér þungur liggur.

Og þegar dögunum fjölgar og þeir verða að árum, án þess að nokkuð rætist fram úr, þá hætta vonirnar smám saman að gera vart við sig og kvíðinn fyrir komandi degi læðist að:

Veröld fláa sýnir sig,
sú mér spáir hörðu;
flestöll stráin stinga mig
stór og smá á jörðu.

(Lausavísa).

Og eftir því sem lengra er haldið verður vegurinn ógreiðari. En vegfarandanum kemur það ekki á óvart. Hann er farinn að venjast því, þótt út af bregði því, sem vonirnar sögðu í öndverðu. Hann veit að brekkan verður brattari, steinarnir stærri og hrufóttari og máttur hans fer óðum þverrandi:

Alt af bætist raun við raun
réna gleðistundir;

það er ei nema hraun við hraun
höltum fæti undir.
(Erlendur Gottskálksson, Garði í Kelduhverfi).

Enda hverfa þær nú með öllu — týnast og sjást ekki framar, æskuvonirnar mörgu og björtu, sem brosað höfðu móti og lokkað hugann forðum daga — og myrkrið sígur yfir:

Léleg reynist lukkan mín
— lífið gengur svona —
eg sé það nú varla, er sólin skín,
og svo er eg hætt að vona.

En þótt þær vonir, er lofuðu þessa heims gæðum í ríkum mæli, hverfi og týnist, deyja þær þó ekki með öllu, heldur geta þær af sér aðrar vonir og aðrar þrár. Því aldrei deyr hún, vonin, er sagði: »Öll él birta upp um síðir!«. Í skjólin hérna megin er fokið. En handan við gröf og dauða — hinum megin við landamærin — hvað tekur þar við? Myndi þar ekki bjartara um að litast, mýkra undir fæti og sælan meiri? Og til þess að friða sjálfan sig, vonar maður, að svo verði, og þráir nú ekkert heitara en að kanna þá ókunnugu stigu. Og vonin og þráin fæðir af sér trúna:

Angurs stranga leið er löng,
lengi þrengist mæðan ströng,
mig langar þangað, geðs um göng,
sem gengur að mengi engin þröng.

Þannig kvað Vatnsenda-Rósa eða Skáld-Rósa í einverustundunum. Hún trúði því, að þar — handan við landamærin — fengist allra meina bót. Og svo munu fleiri gera. —

En mennirnir eru misjafnir og alþýðu-hagyrðingarnir líka. Til eru þeir, sem ekkert bugar. Þeir eru rólegir, hversu sem lífið leikur þá, örvænta ekki og leggja aldrei árar í bát:

Þó að öldur þjóti kífs
og þrautafjöld mér bjóði,
móti göldum glaumi lífs
geng eg með köldu blóði.
(Jón Ásgeirsson, Þingeyrum).

Allir vita að versti óvinur þunglyndisins er léttlyndið. En þunglyndið er það, sem leiðir menn til að örvænta og örvæntingin er þyngsta lífsbyrðin. Því er um að gera að vera léttlyndur í lengstu lög — vera vongóður:

Beri maður létta lund
linast rauna tetur,
eigi hann bágt um eina stund
aðra gengur betur.
(Jón Sigurðsson sýslumaður[1]).

Þetta er nú einn strengurinn á hörpu alþýðuskáldanna, og má vel vera, að hann sé viðkvæmastur. Um það skal þó ekki deilt. En hitt er víst að fleiri á hún strengina viðkvæma, harpan þeirra, og leynir sjaldnast hljóðinu, ef rétt er á þeim gripið!

— — —

Ég sagði áðan, að mennirnir væru misjafnir — hugsuðu ýmislega — væru ólíkir, og það er satt. Þó hafa menn komið sér saman um ein lög, er gilda skyldu, þegar um helztu gleði alþýðumanna vorra væri að ræða. Og þessi lög hafa geymst í fjórum hendingum og er oft til þeirra vitnað:

Að fara á skíðum styttir stund,
stúlku fríða spenna mund,
sigla' um víði húna hund,
hesti ríða slétta grund.

Vísan er eftir Júlíönu Jónsdóttur skáldkonu, sem einu sinni gaf út «Stúlku«. Og hún mun vera kveðin annað hvort í Eyjafjarðar- eða Þingeyjarsýslum. Því norður þar eru beztir skíðamenn.

En núna ekki alls fyrir löngu hefir komið fram breytingartillaga við þessi lög. Hún er upprunnin á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, en þar mun fátt um skíðamenn; hún fer líka fram á, að skíðin séu strikuð út, en annað upp tekið, sem víðar eigi við. Hún segir gleðina í því fólgna:

---

[1]) Jón Sigurðsson, Gíslasonar Dalaskálds, var sýslumaður Dalasýslu 1712—1717. Vísan er í mansöng fyrir Tímarímu.

Hesti góðum hleypa um grund,
hlunna- renna -svíni.
Syngja ljóð um silki-hrund
og *súpa á brennivíni.*

Hann heitir Bjarni Björnsson, bóndi á Vatnshorni, sem kveðið hefir vísuna.

Vitanlega hefir brennivínið verið áður nefnt, sem sjálfsagt, er um gleðskap alþýðunnar væri að ræða. Enda hugguðu sig við *það*, þeir sem ekkert áttu af hinu: konuna, hestinn eða skipið:

Vinsemd hýrga verður svip
og *vínið* kæta sinni,
því hvorki stúlku, hest né skip
hef eg í eigu minni.
(Ólafur Briem, timburmeistari á Grund).

Engu skal um það spáð, hvort hún muni ná samþykki, þessi breytingartillaga, sem eg nefndi — hvort vísan muni lærð og rauluð um landið. En verði það ekki, má víst aðflutningsbanninu um kenna, að enginn geti framar glatt sig við flöskuna. Og er þá hér talinn einn af ókostum þeim, er banninu fylgja — og alveg nýr —, er gamlar og gildar alþýðustökur verða að týnast og falla í gleymsku, vegna þess að gleðiaflvakinn mikli er útlægur ger úr landinu!

Því hvað sem sagt verður um Bakkus gamla, hefir hann þó — þrátt fyrir alt — fært mörgum ánægjustund og ekki sízt á hestbaki. Enda hafa þeir ekki allsjaldan *tvíment* hagyrðingurinn og Bakkus. Og þess vegna er líka einn strengurinn á hörpu alþýðuskáldanna helgaður *Bakkusi* og *hestinum* og hann er ekki síztur, strengurinn sá.

— — —

Það léttir yfir flestum, þegar þeir stíga á bak gæðingnum sínum, ríða eitthvað út í buskann með fjörugum félögum og vita af vegaglasinu í barminum. Og sá, sem ekki kastar fram »einni ferskeyttri« þá, hann er ekki hagorður.

Nú skal strjúka ekru um
á spormjúka fákinum,
pytlu ljúka lekanum
og láta fjúka í kviðlingum,

kvað Brynjólfur gamli frá Minnanúpi, endur fyrir löngu. Og þegar spretturinn hefir staðið nokkura stund, er áð og hestinum lofað að kasta mæðinni. Og þá liggur nú vel á mönnum! Þá er sungið og hlegið — og kveðið — meðan flaskan gengur á milli félaganna:

Nú er hlátur nývakinn,
nú er grátur tregur.
Nú er eg kátur, nafni minn,
nú er eg mátulegur!

(Ókunnugt er mér um höf. þessarar ágætu vísu, og væri því þökk á, ef einhver gæti frætt mig um hann).

En það þarf ekki alt af ölteiti samferðamannanna til þess að seiða fram stökuna. Sumar beztu stökurnar eru, ef til vill, kveðnar þegar alþýðuhagyrðingurinn var einn á ferð og fjarri mannabygðum. Honum leiddist ekki. Vegapelinn hans var drjúgur og hesturinn ágætur. Og milli sprettanna — milli þess sem hann náði því bezta úr hestinum, sem hann hafði sjálfur tamið, sjálfur gefið og sjálfur alið upp að öllu leyti — raulaði hann fyrir munni sér:

Lyngs við byng á grænni grund
glingra' eg og syng við stútinn.
Þvinga eg slyngan hófahund
hringinn í kring um Strútinn!

Þessa vísu vilja bæði Norðlendingar og Sunnlendingar eigna sér. Höfundinn hefi eg aldrei heyrt nefndan, hagorður hefir hann verið[1]).

[1]) Strúturinn er fjall á heiðunum milli Borgarfjarðar- og Húnavatnssýslu, því þykir líklegt, að annaðhvort Norðlendingur eða Borgfirðingur muni hafa kveðið. En „Strútur“ heitir líka fjall á afrétti Rangvellinga og Skaftártungumanna, en það er á syðsta fjallabaksveginum. Þess vegna ætla Sunnlendingar, að vísan sé þar kveðin. Gaman væri, ef einhver gæti sagt hið sanna um faðerni þessarar stöku. Svo er hún mörgum kunn og vel kveðin.

— Oft hefir þetta þrent farið saman: hagyrðingurinn, hestamaðurinn og drykkjumaðurinn. Sambandið milli mannsins og hestsins verið svo innilegt. Sá, sem gefinn er fyrir hesta, sýnir reiðhestinum sínum alla nærgætni. Honum er það nautn að hugsa sem bezt um hann, láta honum líða svo vel sem föng eru á, gefa honum það bezta úr stálinu, því hann veit að hesturinn man það og þakkar. Enda eru dæmi þess, að margur drykkjumaður hefir átt lífið að launa reiðhestinum sínum. Og það hefir ekki þurft drykkjumann til.

Í hríðum og náttmyrkri hefir húsbóndinn oft á tíðum orðið að treysta á vegvísi hestsins, fótfimi hans og hraustleika. Í vötnum og ótal hættum hefir það verið hesturinn, sem bjargaði húsbóndanum. Þetta finna þeir báðir, maðurinn og hesturinn, því »milli manns og hests og hunds hangir leyniþráður«, og eftir því sem þeir eru lengur saman, verður vináttan innilegri. Og hagyrðingurinn þreytist aldrei á að lofa hestinn sinn, hvort sem hann er einn á ferð eða fleiri saman. Hann gleymir sjaldan, hve mikið hann á undir honum:

> Mesta gull í myrkri og ám
> mjúkt á lullar grundum,
> einatt sullast eg á Glám
> og hálffullur stundum.
>
> (Lausavísa).

Mælt er að »þegar ölið er af könnunni sé vináttan úti«. Er þar víst átt við samdrykkju í húsum inni. En slíkt hið sama má víst á stundum segja um drykkju úti á víðavangi. Maður var eitt sinn á ferð og slógust nokkurir til fylgdar við hann, sem vildu vera vinir hans. Flaska var með í förinni og átti hann hana. Var hún lítt spöruð og þvarr því vínið. Þá vildu hinir ekki lengur ríða. Maðurinn þeytti þá frá sér tómu flöskunni, stökk á bak hestinum sínum, reiðskjóta ágætum, og kastaði fram þessari stöku:

> Brestur vín og brotnar gler
> bregðast vinir kærir.

En á Blesa eru mér
allir vegir færir!

og skildi þar með þeim.

— Þeir hafa líka gaman af því, hagyrðingarnir, að segja öðrum, er meta kunna og vit hafa á, frá kostum hesta sinna. Því varð Páli Ólafssyni einu sinni að orði um reiðhryssu, sem hann átti, metfé hið mesta, er vinur hans spurði um kosti hennar:

Hleypur geyst á alt hvað er,
undur reist að framan,
þjóta neistar þar og hér,
— þetta veiztu' er gaman!

Fáir hafa heldur tekið Páli fram um að kveða hestavísur, enda var hann hestamaður með afbrigðum. Átti gæðinga marga, hvern fram af öðrum. Hann kunni líka að fara með þá, gaf þeim vel, og lét sér ant um þá á alla vegu. Einu sinni var hann á ferð og þurfti að flýta sér — eins og raunar oftar — og yrðir þá á hestinn:

Vertu hress þótt ,öng sé leið,
láttu sjá hvað getur.
Fyrir þessi förin greið
færðu strá í vetur.

Og það efndi Páll.

Og þegar sá hestur varð að falla sökum elli, orti Páll eftir hann margar vísur, og mintist þá yngri ára hans með þessari stöku:

Folinn ungur fetaði létt
fjallabungur, grundir,
fen og klungur fór á sprett,
fjöllin sungu undir!

— En hagyrðingurinn er líka fljótur til svars, ef reiðhestinum hans er niðrað, eða þá ekki lofaður eins og honum þykir hann verðskulda. Jón á Þingeyrum átti hest sem hann nefndi »Létti«, reiðskjóta ágætan, og hafði hann miklar mætur á honum. En Jón var vínhneigður og reið oft ógætilega, er hann var við skál. Einhverju sinni segir maður við Jón, en hann var þá nokkuð drukkinn og

reið hart: »Nú dettur »Léttir!« Jón tók upp þykkjuna fyrir hestinn, og svaraði samstundis:

Það er mas úr þér, vinur,
þetta: „Léttir dettur!“
Aldrei rasar reiðskjótur
rétt á sprettinn settur!

Og er þess ekki getið, að Léttir hafi dottið í það skifti.

En þegar hagyrðingurinn hefir orðið að sjá á bak reiðhestinum, sem hann unni mikið og taldi beztan allra hesta, er hann þekti, er sízt að furða þótt honum þyki vandfylt skarðið hans við stallinn. Og þótt hann eignist aftur hest, finst honum sá aðeins svipur hjá sjón, er hann rifjar upp fyrir sér samverustundirnar forðum daga og honum verður hugsað til allra þeirra kosta, er »gamli klárinn« hans hafði til að bera:

Áður var eg fyrða fremst,
framreiðar er gaman semst,
nú í fari hinna hemst
og hvergi þar úr sporum kemst.
(Ágúst Jónsson homöopati á Ljótstöðum í Vopnafirði.)

Og þegar þess er gætt, hve maðurinn og hesturinn eru í nánu sambandi, gefur að skilja, að manninum falli þungt, þegar hjólið snýst þannig, að hann einhverra hluta vegna verður að selja reiðhestinn sinn. Og að honum verði meira um skilnaðinn, ef hann getur að einhverju leyti kent sér um. Páll Ólafsson neyddist einu sinni til að farga hesti, sem hann unni mikið:

Eg hefi selt hann yngra Rauð,
er því sjaldan glaður;
svona er að vanta veraldar auð
og vera drykkjumaður.

Og það eru fleiri en Páll, sem neyðst hafa til hins sama, þegar skuldirnar kreptu að.

En hitt er og auðskilið, að sá sem skuldirnar greiddi, án þess að láta hestinn sinn, sé léttur í huga, og geti því kveðið fullum rómi:

Hugarglaður held eg frá
húsum mammons vina.
Skuldafrí eg skelli á
skeið um veröldina!

Þannig kvað Jón á Þingeyrum, sem fyr er nefndur.

— — — —

En þeir koma víðar við, alþýðuhagyrðingarnir, og fleira er efni vísna þeirra, en nefnt hefi eg.

Einn strengurinn í hörpu þeirra er helgaður landinu. Hann er stundum þýður, getur líka verið kaldranalegur. Það fer eftir veðráttunni og árstíðunum. Hann á líka fleiri hljóð, strengurinn sá. Minningar æskustöðvanna vilja eiga hann óskiftan, en þær geta það ekki, af því að hann verður að vera bundinn við þann og þann staðinn, er sá stendur á, er til hans grípur. Og daglegum störfum og mörgu öðru er ofið inn í þennan streng. Þá er hann ekki hjáróma, sé hann hreyfður réttilega.

Unglingurinn í ókunnu sveitinni hugsar heim í dalinn sinn. Honum leiðist, þar sem hann er. Það er eitthvað svo undarlegt í nýju vistinni, öðruvísi en heima, þar sem hann var borinn og barnfæddur. Og í einverunni fyllist hugur hans ljúfum minningum æskuáranna, og harpan er tekin, strengurinn stiltur og minningarnar falla í stuðla — verða að vísu, sem hann raular og flytur hann heim:

Oft mig dreymir dagana,
dali, gil og bala,
þar sem heima um hagana
hljóp eg til að smala.

Þegar vordísin kemur

„með sól í fangi, blóm við barm
og bros á vanga norður í heiminn“

liggur vel á skáldunum, og þá er nú ekki legið á liði sínu með að dásama Fjallkonuna. Og harpan er gripin og fegursti hátturinn þreyttur og þau orð valin, er hættinum eru samboðin, og leika við rímið:

Grundin vallar glitruð hlær
glóir á hjalla og rinda,

Sólar halla blíður blær
blæs um fjalla tinda.
(Stgr. Th.).

Og um Jónsmessuleytið, þegar sólin er hæst á lofti og gleymir að renna til viðar, er hvíslingaleikur söngs og ljóða um alla náttúruna. Hálfkveðnar vísur og hendingar líða um loftið og finna bergmál í brjóstum þeirra, er úti vaka í næturkyrðinni og horfa á miðnætursólina vagga á haföldunum. Sunnanblærinn læðist upp með vanganum og alla setur hljóða. Því sunannblærinn er vorsöngur. Hann er ljóð skáldsins, útlagans suður við Eyrarsund, sem alt af er með hugann heima:

Á um njólu aldinn mar
út hjá póli gaman,
árdags sól og aftan þar
eiga stóla saman.
(Þorsteinn Erlingsson[1]).

Og alþýðuhagyrðingurinn velur einnig fegursta háttinn, er hann grípur hörpuna til þess að dásama vorfegurðina og sumardýrðina:

Ársól gljár við unnarsvið
ofinn báruskrúða;
ræðir smára rjóðan við
rósin táraprúða.
(Halldór Friðjónsson frá Sandi).

En þegar sólin lækkar og fer að fela sig á bak við fjöllin, saknar maður hennar. Það var svo bjart og hlýtt og lífið svo yndislegt meðan hún var altaf á loftinu. Og þráin vaknar, þráin að sjá sólina — mega vera nálægt henni, og hugurinn leggur af stað að leita hennar:

---

[1]) Þótt nokkrum skáldum okkar sé hér skipað á bekk með alþýðuhagyrðingunum, þá er það ekki sagt í þeim tilgangi, að draga úr áliti þeirra eða gera minna úr þeim, heldur er það gert til þess að sýna, að þeim þykir sumum enginn vansi að yrkja undir kvæðalögum alþýðunnar. Enda verða margar slíkar stökur þeirra almenningseign áður en nokkurn varir. Alþýðan finnur að þær eru sungnar út úr hennar eigin brjósti og smám saman renna þær inn í þennan fjársjóð hennar; stökurnar verða alþýðustökur.

Daggir falla, dagsól alla kveður,
en mig kallar einhver þrá
yfir fjallaveldin blá.

Þannig syngur Huldumærin þingeyska við sólarlagið. — Og þegar sumarið hefir kvatt og haustvindarnir boða komu vetrarins með kulda og hretum, breytist hljóðið í strengnum. Vorléttu tónarnir hverfa og kuldinn og kvíðinn læðist að. Þá velur hagyrðingurinn sama lagið, er hann kveður sumarið, eins og hann hafði fagnað því með — fegursti hátturinn á altaf við:

Frost á velli vinnur mein,
vetrar gellur þruma.
Bliknuð fellir blöð af grein
björkin ellihruma. (Lausavísa).

Það er óvanalegt, að fyrsta hretið standi lengi yfir. Þó fer nú svo á stundum, og fyllist þá hugur hagyrðingsins enn meiri drunga, en altaf getur hann þó raulað stökurnar sínar. Harpan hans er ekki hljómstolin og strengirnir hennar stirðna ekki, þótt kalt sé út að líta:

Blómin hrynja banasjúk,
brim við drynja strendur.
Það er kynja frost og fjúk,
féð í brynjum stendur.
(Baldvin skáldi Jónsson, Skagfirðingur, fór til Ameríku).

Og þegar skammdegið læðist að, og sólin fer að dvelja lengur og lengur á bak við fjöllin — dvelur þar dögunum saman, er harpan einnig gripin. Efnið er ólíkt því, sem Jónsmessuskáldið valdi sér, en hátturinn er hinn sami og hreimurinn, sé haglega farið um strenginn:

Girnast allar elfur skjól
undir mjallar þaki,
þorir valla að sýna sól
sig að fjalla baki.
(Síra Björn Halldórsson í Laufási).

En þrátt fyrir snjóinn og kuldann, mætir þó auganu margt, sem unað vekur: Fjöllin aldrei stórfenglegri né fegurri, og þótt sumarblómin séu dáin og snævi hulin, lítur þó hagyrðingurinn aðrar rósir, sem verða honum að yrkiefni:

Gluggar frjósa, glerið á
grefur rósir vetur.
Falda ljósu fjöllin há,
fátt sér hrósar betur.

Og svo getur honum orðið létt í huga, þótt mikil séu harðindin og grimdin, að hann grípi vonglaður til hörpunnar og syngi kuldann burtu úr huga sínum og vaggi sér dreymandi í fangi vordísarinnar:

Sunnanvindar fjöllum frá
fönnum hrinda síðar,
grænum linda girðast þá
grundir, tindar, hlíðar.

Báðar þessar vísur eru eftir Pál Ólafsson og er sagt hann hafi raulað þær einhverju sinni í grimdarfrosti.

En það er satt

Þorradægur þykja löng
þegar hann blæs á norðan.

Og svo getur veturinn harður orðið, að hagyrðingurinn neyðist til að kveða öðru vísi. Þegar frostið þrengir sér inn í hvern krók og kima og dimmviðrin hamast á degi hverjum, fær sá nóg að hugsa, sem líf sitt á undir því, að batinn komi áður en heyin eru uppgefin:

Dal í þröngum drífa stíf
dynur á svöngum hjörðum,
það er engum of gott líf
upp í Gönguskörðum.
(Baldvin skáldi Jónsson).

Og því er ekki að undra, þegar hlákan kemur og snjórinn bráðnar, þegar

Gægist fjalla fjöldinn þá
fram úr mjallar trafi
fyr sem stalla og hnjúka há
huldi alla í kafi —
(Karl H. Bjarnason prentari).

þó að hækki brúnin, því nú er batinn kominn. Vetrarharðindin gleymast. Fjármaðurinn reikar kringum féð sitt glaður í huga og ánægður, og lítur sigri hrósandi til

framtíðarinnar. Nú er honum borgið að sinni, og hann raular fyrir munni sér vonglaður:

Nú er úti hláka hlý
hiti, dögg og vindur,
jörðin verður fanna frí,
fyllast allar kindur. (Lausavísa).

Og hlákan heldur áfram starfa sínum að bræða snjóinn og búa náttúruna undir komu vorsins. Lækirnir vaxa og verða að ám, sem leita út í geiminn til þess að fagna vorinu. Og hugurinn vonglaður og síungur leggur af stað á eftir:

Fer á spretti fljót og á,
finst mér þetta gaman,
vængjaletta von og þrá
vorið fléttar saman!
(Karl H. Bjarnason prentari).

Og svo kemur vorið!

Og sumardagurinn fyrsti rennur upp »með sólskini um víða völlu«:

Sumarhug og sumarþrá,
sumar vakna lætur,
sumar í auga, sumar á brá,
sumar við hjartarætur! (Lausavísa).

— — —

Þá hafa hagyrðingarnir kunnað að koma orðum að því, sæju þeir eitthvað sem miður færi, annað hvort í fari einstaklinganna eða þjóðarinnar yfir höfuð. Og smellnar eru þær margar stökurnar, sem geymst hafa í minnum manna.

Vil eg nefna fáeinar til gamans.

— Það hefir aldrei þótt prýði á neinum að vera málugur, og allra sízt verið talið með kostum kvenna. Natan Ketilsson kvað um unga heimasætu, sem þótti málug, en efnileg að öðru leyti:

Það er feil á þinni mey,
þundur ála bála,
að hún heila hefir ei
hurð fyrir mála-skála.

Vísan er kveðin við föður meyjarinnar, er hann var að hrósa dóttur sinni.

---

Maður þóttist hafa lesið Guðbrands-Eddu eða Steins. Mundi þó ekki með vissu, hvor þeirra það var. Þá kvað Jón á Víðimýri:

**Það kann verða mjög til meins,**
**menn þá skortir vitið,**
**Guðbrands-Eddu eða Steins**
**aldrei hefi' eg litið.**

---

Bóndi fjölgar fé sínu. Á margt sauða og græðir á tá og fingri, en þykir lítið gestrisinn. Nágranni hans reið þar einu sinni um, og varpaði þá fram stöku þessari:

**Jörðin þessi frjóvgað fær**
**féð hjá bónda kænum,**
**auðurinn vex, en grasið grær**
**á götunni heim að bænum!**

---

Manni varð á að fífla konu og var dæmdur til hýðingar. Það var nú á þeim dögum. Þá varð einhverjum að orði:

**Það á að hýða hann Þorgrím tröll**
**þungt og gríðarlega,**
**svo húðin níðist af honum öll**
**auðs- fyrir -hlíðar meydómsspjöll.**

Annars voru hýðingar einu sinni algengar og gáfu þær ekki ósjaldan hagyrðingunum efni í stökur.

Maður var hýddur — ókunnugt hvað hann hafði til saka unnið — en lét sér lítið segjast. Þótti hann jafnvel meiri á lofti eftir en áður og furðaði margan á því.

Þá var kveðið:

**Nú er v i r t u r njótur fleins**
**nauða- firtur -skorðum,**
**nú er skyrtan ekki eins**
**illa girt og forðum.**

---

Þá kunnu þeir og að bíta frá sér, þætti þeim gengið of nærri rétti sínum.

Jón Eldon — bjó um eitt skeið á Vegg í Kelduhverfi — lagðist veikur og var fluttur um tíma af bænum til lækninga. Þegar hann kom heim aftur, þótti honum sem kæmu ekki öll kurl til grafar, hvað búslóðina snerti.

Varð honum þá að orði:

Mínum sjúga menn úr legg
þá mergjarlaust er holið,
eins er nú á vorum Vegg,
þar verður ei lengur stolið.

---

Þá er vísa Bólu-Hjálmars um »spörðin« kringum — kirkjuna. Meinfyndin er hún og hefir að öllum líkindum »hitt« á sínum tíma:

Vel er alin herrans hjörð
— hérna liggur bevísið —
sómir vel, að sauðaspörð
sjáist kringum fjárhúsið.

---

Og vísa Indriða á Fjalli um manninn, sem steig ekki í vitið:

Maðurinn sem úti er
undrun vekur mína,
heilanum úr höfði sér
hann er búinn að týna.

Smellin er hún, þótt ekki sé hún dýrt kveðin.

Hnyttinn þótti og Skarða-Gísli og fæstum ofgott að verða fyrir barðinu á honum, þegar hann var í vísnahug, enda var hann flestum beiskyrtari. Einu sinni kvað hann um mann, sem flutti sig búferlum:

Burtu hrókur flæmdist flár,
forláts tók á bænum;
þó að klókur þerði brár
það voru krókódíla-tár.

---

Húsfreyja ein ættstór og vellauðug var ekki að sama skapi hjálpfús, enda þótti hún nirfill með afbrigðum. Þá var kveðið:

Auð sér hálan heldur við
harðlynd fálan bauga,

þrengra sál mun himna hlið
en hesti nálarauga.
(Sigurbjörn Jóhannsson, Fótaskinni).

---

Það er víst jafngamalt mannkyninu, að karl og kona dragist hvort að öðru. Því er það næsta undarlegt, að fólkið skuli enn vera að furða sig á slíku og stinga saman nefjum um það. Það virðist ekki til ofmikils mælst, að menn væri farnir að venjast við það öll þessi ár. En svona hlýtur það að vera, annars hefði þessi staka ekki verið kveðin, og það núna ekki alls fyrir löngu:

Margur er kátur maðurinn,
og meyja hneigð fyrir gaman,
en — svo er það helvítis heimurinn
sem hneykslast á öllu saman.

---

Þá eru gletnisvísurnar þeirra.

Alþýðuhagyrðingarnir draga ekki dul á það, sem þeim býr í brjósti, hver sem í hlut á, og ekki eru þeir í vandræðum að koma orðum að því, sem þeir meina.

Þegar ensku söðlarnir voru að ryðja sér til rúms hérna á árunum, kvað Sigvaldi Skagfirðingaskáld við stúlku, kvenkost mikinn, sem nýbúin var að fá sér einn nýja söðulinn:

Ef auðnan mér til ununar
eitthvað vildi gera,
klakkur í söðli Katrínar
kysi eg þá að vera.

---

Maður nokkur dró sig eftir konu, og hentu menn gaman að því, að hann myndi vinna ástir hennar með harmonikuspili.

Elskar mikið auðargná,
ei mun hvikull reynast sá
í hverri viku henni hjá
harmoniku spilar á.
(Guðm. Guðmundsson, Teigi í Fljótshlíð).

---

Manni leiddist á fundi — leiddist rifrildi manna —

Það var við Þjórsárbrú fyrir fáum árum. Vék hann sér þá að sessunaut sínum og hvíslaði í eyra honum:

Ill og köld er æfi mín
eins og fyr með köflum, —
skyldi enginn eiga vín
af öllum þessum djöflum?
(Einar Brynjólfsson).

Það fylgir með, að sessunauturinn hafi launað vísuna með góðri hressingu í koníaki.

---

Þeir sem setið hafa fyrir hjá ljósmyndara vita að platan, sem myndin var tekin á geymist og eftir henni er hægt að taka myndir aftur, óski menn þess.

En hitt vita menn ef til vill ekki, að hagyrðingurinn sem tók myndir af fólkinu — upp á sína vísu — býður sömu kostakjörin. Þetta er líka svo að segja ný uppfundning. Gísli heitir hann, og á heima norður í Húnavatnssýslu, sem býður þetta. Hann orti sér til gamans langa skammarímu um alla bændurna í sveitinni og klykkir svo út með þessari stöku:

Þá skal hætta þetta kvöld
þessi ljóð að binda,
en — platan geymist ef að öld
óskar fleiri mynda.

Það skal ósagt látið, hvort bændunum muni það mikið áhugamál að platan geymist. En hún geymist þessi staka, þótt allur skammabragurinn gleymist.

— — —

Þá eru og til margir samkviðlingar, stökur, er hagyrðingar köstuðust á, þegar fundum þeirra bar saman. Eru þeir á stundum tveir um sömu vísuna, einn byrjar, en annar rekur í botninn. Oftar er það þó þann veg, að hvor um sig kveður vísuna til enda og enda fleiri, séu þeir vel upplagðir og jafnvígir. Þótti þetta alla jafnan skemtun góð, er þeir leiddu þannig saman hesta sína, og smellnar eru margar slíkar stökur, sem þjóðin hefir verndað frá gleymsku.

Flestir muna víst eftir kveðjum þeirra Sigurðar Breiðfjörðs og Bólu-Hjálmars, er þeir skildu eftir síðustu samfundi sína.

Sigurður byrjaði:

Sú er bónin eftir ein,
ei skal henni leyna,
ofan yfir Breiðfjörðs bein
breiddu stöku eina.

En Bólu-Hjálmar tók þessu ekki alvarlega, þóttist engu vilja lofa og svaraði hlæjandi:

Ef eg stend á eyri vaðs
ofar fjörs á línu,
skal eg kögglum kapla-taðs
kasta að leiði þínu.

---

Vel þótti Sigvaldi Skagfirðingaskáld svara fyrir sig oft á tíðum er hann var ávarpaður með vísu eða vísuparti, og ekki er þess getið að honum hafi orðið orðfall. Einhverju sinni segir hagyrðingur við hann:

Segðu mér það Sigvaldi,
hvað syndir þínar gilda.

Sigvaldi varð við því og svaraði samstundis;

Það er undir áliti
alföðursins milda!

---

Einhverju sinni var það, og ekki all-langt síðan, að nokkurum hagyrðingum sló saman og fóru þeir að kveðast á. Botnuðu þeir á víxl hver fyrir öðrum.

Einu sinni byrjar einn svona:

Víða fjandinn ítök á
undir faldi sólar.

Svaraði þá annar samstundis:

Ekrur þessar yrkja og sá
allir presta-skólar.

(Jón Jónsson prentari og Jón S. Bergmann).

Guðmundur á Sandi getur þess í ritgerð þeirri, er eg nefndi hér að framan, að eitt sinn, er þeir hittust Siglu-

víkur-Sveinn og Sigurbjörn í Fótaskinni — en þeir voru báðir Þingeyingar — þá hafi Sveinn ljóðað á Sigurbjörn. Er sú vísa gleymd, en Sigurbjörn svaraði með þessari stöku:

> **Varla meina vil eg þér**
> **vísna greinir skorða,**
> **komdu að reyna móti mér**
> **mistilteininn orða.**

Þá kvað Sveinn:

> **Ekki bíður svarið Sveins,**
> **sízt eru hagir duldir,**
> **eg á ekki neitt til neins,**
> **nema börn og skuldir!**

»Svona var og er högum alþýðuskáldanna háttað — þetta er seinni hluti æfisögu almennings — þeirra manna, sem höfðu fleiri járn í eldinum en orfljáinn og prjónana«, segir Guðm. á Sandi.

— — —

Fleira mætti telja og fleira mætti segja um alþýðukveðskapinn, og fleiri mætti stökurnar nefna en þær, sem komnar eru. En einhverntíma verð eg að hætta, og það sem sagt er, læt eg mér því nægja að þessu sinni.

> **— Eg á ekki neitt til neins,**
> **nema börn og skuldir!**

Og þó hafa þessir menn látið eftir sig mikinn auð, sem vér höfum erft. Og þessum auði getur hvorki mölur né ryð grandað.

Þessi auður eru stökurnar þeirra — vísurnar, sem þeir ortu á einverustundunum til þess að friða sjálfa sig. Vér lærðum margar þeirra endur fyrir löngu, en höfum þó ekki gleymt þeim, og síðan hafa aðrar bæzt við og vér raulum þær svo að segja daglega, enda verða þær ekki tölum taldar ánægjustundirnar, sem þær hafa veitt oss.

Hvar sem maður er staddur, hvað sem maður er að starfa, og í hvaða stöðu sem maður er, þá bjóða þær öllum fylgd sína — bjóðast til að fylgja manni gegnum lífið og létta undir sporið — þessvegna getum vér aldrei þakkað

þeim nógsamlega, sem ortu þær, þeim, sem gáfu oss slíka gimsteina.

— Þegar skáldinu leiðist tómleikinn í stofunni sinni í skammdeginu, og því finst sá eldur dauður, er áður hitaði því bezt á einverustundunum, andvarpar það og segir:

Loks á Byron engan yl,
ekki Njála heldur.

En þá koma þær léttfættar, laðandi og fanga huga hans:

Upp úr gleymsku gægjast þá
gamlar rímnastökur.

Og skáldið finnur leiðindin hverfa. Þetta eru gamlir kunningjar, sem eru á ferðinni. Og þótt þær séu ekki allar efnismiklar þessar stökur, finnur þó skáldið sætan höfga síga yfir sig með svo einkennilegri og unaðsblandinni ánægju:

Þær eru margar lærðar lítt,
leita skamt til fanga,
en þær klappa yndisþýtt
eins og börn á vanga.

Þannig kveður Þorsteinn Erlingsson. Hann hefir fundið hvílíkt dýrmæti þær væru, alþýðustökurnar, að »þær klappa yndis þýtt, eins og börn á vanga«, þessvegna ber oss að varðveita þær og forða þeim frá gleymsku. Vér tókum þær að erfðum frá liðnum kynslóðum og vér eigum að sjá um að þær glatist ekki, svo eftirkomendurnir geti notið þeirra. Því er það skylda vor að raula þær við börn og unglinga, svo þau læri þær líka, og kenna þeim að meta dýrmæti þeirra.

*Einar E. Sæmundsen.*

---

VI. kafli um mannaforráð og landsforræði (bls. 73—79). Er þar vikið að ólíkri tilhögun á forræði í ýmsum landshlutum í Noregi.

VII. kafli heitir hernaðurinn og stjórnmálin (bls. 80—95). Vegur höf. þar að kenningum Gustavs Storms og enn að Yngvari Nielsen, og er allharðhendur á þeim, en margt raka færir hann fram fyrir sínu máli. Lýtur þessi kafli einkum að Hafursfjarðarorrustu og samræmi írskra og íslenzkra frásagna um þetta efni.

VIII. kafli er um almenninga (bls. 96—109). Er þar samanburður á fornum lagafyrirmælum um almenninga á Norðurlöndum. Þar er og greint frá ýmsum gjöldum og tollum.

IX. kafli er um nefgildið (bls. 109—112). Telur höf. nefgildisskattana í Noregi munu verið hafa hoftolla.

X. kafli er um konungserfðirnar (bls. 113—116). Ber höf. þar hönd fyrir höfuð Haraldi konungi, það er tekur til skipanar þeirrar, er konungur gerði á ríkisstjórn í Noregi eftir sinn dag. Engi mun þó neita því, að ekki varð þessi skipan konungs happasæl Noregi, jafnvel ekki enn meðan konungur lifði sjálfur. Öllum hér er kunnur ferill Eiríks blóðöxar, Ólafs helga o. s. frv. Mundi sumum ekki þykja fráleitt að rekja að nokkuru leyti til skipanar Haralds konungs óöld þá, er var í Noregi að heita má alla tíð, til þess er Sverrir konungur, einn hinn mesti herforingi, er sögur fara af, braut Noreg undir sig.

XI. kafli heitir ámæli og ávirðingar (bls. 116—124). Ver höf. enn Harald konung, slíkt hið sama íslenzka sagnaritara fyrir áburði ýmsra um hlutdræga frásögn um Harald konung. Segir þar svo að niðurlagi um Harald konung: »Og eins og sagan ber með sér og sjá má af löggjöf og stjórnartilhögun Íslendinga til forna, er það einkum stjórnvizka Haralds konungs og stjórnmálastarfsemi, er haft hefir djúp áhrif á menn, enda mun óhætt mega fullyrða, að hann hann hafi verið stjórnmálamaður með afbrigðum, ekki síður en hann er einn í tölu ágætustu hershöfðingja veraldarsögunnar, auk þess sem hann var mikill hreystimaður sjálfur«. Yfirleitt þykir höf. að maklegleikum mikið koma til Haralds konungs og talar hvervetna um hann hlýlega. En þótt konungur væri mikilmenni, sem engi neitar, og tryggur vinum sínum og fylgismönnum, verður samt ekki fyrir það synjað, að margir landnámsmanna áttu um sárt að binda af völdum hans.

XII. kafli er um Ísland (bls. 124—139). Þar eru ýmsar góðar athugasemdir og fróðlegar. Ekki get eg fallist á þá tilgátu

höf., að »maðr« í Sturlunga sögu 31. kap. tákni formann eða fyrirliða. Þessi staður í Sturlunga sögu hljóðar svo: »En náliga var hverr maðr nokkut sár, sá er með Þórði hafði verit, en öll alþýða var lítt sár«. Það væri óneitanlega kynlegt og eigi alls kostar venjulegt, ef fyrirliðarnir í orrustunni hefðu verið meir sárir en óbreyttir liðsmenn, en svo hefði hlotið að vera samkvæmt skilningi höf. Ekki munu þær orrustur margar né mannskæðar, þar sem fyrirliðarnir einir berjast, en liðsmenn horfa á. Eg held, að á þessum stað sé að minsta kosti ástæðulaust að leggja þá sérmerking í orðið »maðr«, sem höf. vill. Mér þykir eðlilegust skýring á þessum stað, að frásögnin tákni það, að flestir (»náliga hverr maðr«), þeirra er í orrustunni voru, hafi orðið sárir að einhverju leyti, en meginhlutinn (»öll alþýða«) hafi að eins hrept smávægileg sár. — En hér er að eins um aukaatriði að ræða.

XIII. kafli heitir víkingaöldin (bls. 139—143) og XIV. kafli (bls. 143—148) niðurlag.

Yfirleitt er bók þessi fróðleg aflestrar. Hún hefir að geyma ýmsar markverðar og sjálfstæðar athugasemdir. En ekki er fyrir það að synja, að sumum kunni að þykja höf. allóvæginn í orðum við andstæðinga sína. Eiga hér einkanlega hlut að máli norskir rithöfundar. Því verður og eigi neitað, að frændur vorir, Norðmenn, hafa verið allásælnir í rit vor Íslendinga. Skirrast þeir eigi við sumir að kalla norsk þau rit, sem öllum má vitanlegt vera, að samin eru af Íslendingum. Svo hefir þetta verið alla tíð frá dögum Munchs. Það er altítt að sjá, að þeir segjast þýða sögur vorar úr »gammel norsk«; ekki mundu samt líklega þessir rithöfundar vilja kannast við það, að Ísland héti »gamle Norge«, sem þó væri ekki fjarlæg afleiðing þessa orðalags. Snorri Sturluson heitir hjá sumum norskum rithöfundum, er þeir hafa mikið við, »vor störste Historieskriver«. Þetta gæti að því leyti til sanns vegar færst, að Snorri hefir skrifað þeirra merkustu sögu, og ætti þá að skilja orðin eins og stæði: »Forfatteren af vor störste Historie«, en svo lesa að eins góðgjarnir menn. Aftur á móti segja sumir norskir rithöfundar, þegar þeim þykir eitthvað mishermt hjá Snorra eða öðrum fornritahöfundum vorum, að um íslenzka gönuhlaupshugóra sé að ræða; þá má Snorri gjarna vera Íslendingur. Mér finst Norðmenn vel mega sætta sig við dóm samlanda síns, Theodricus monachus, og una við þau fáu rit, sem þeir eiga sjálfir úr fornöld, þótt ekki leggi þeir undir sig rit annarra þjóða. Þeir geta miklast af því að eiga annað eins rit og Konungs-skuggsjá, eitt hið merkasta rit

frá þessum öldum. Og víst er um það, að eigi munum vér Íslendingar seilast til rita þeirra, er með réttu mega teljast norsk. Ekki ásælast Danir rit vor, og er þó mál vort í fornöld nefnt dönsk tunga. Þeir fara ekki lengra en svo að kalla íslenzku »Oldnordisk«. Slíkt hið sama er að segja um Þjóðverja, þótt raunar þeir, sem skýrar skilgreiningar þykjast þurfa að gera, minnist stundum á »Alt-west-norwegisch«. Mér finst frændur vorir á Norðurlöndum mega vel unna oss rita vorra og varðveizlu tungunnar, og mættu þeir þar vel fara að dæmi Englendinga og fræðimanna þeirra. Alt annað mál er það, að breytingar hafa nokkurar orðið í íslenzku frá fornöld, þótt eigi séu þær til muna, og sízt svo miklar, að sérstaklega þurfi að tala um fornislenzku og nýíslenzku, nema þegar um málfræðilegar greinagerðir er að ræða. Það verður ekki með sönnu sagt um þjóð, sem á Háttalykil Lopts ríka og annan merkan kveðskap frá 15. öld, en kvæði Jóns byskups Arasonar og annarra og Guðbrands biblíu frá 16. öld, að bókmentir hennar séu slitnar á þessum öldum eða hafi nokkurn tíma slitnað.

Lengra skal ekki farið út í þetta mál á þessum stað, en vera mætti eigi ástæðulaust að rekja alt þetta mál nokkuru gerr, ef tilefni bæri til framar en hér er um að ræða. En þessar hugleiðingar hafa sprottið af stöku stöðum í ritgerð Eggerts Briems og ummælum sumra rithöfunda, sem þar eru tilfærð, og annarra, sem eg minnist að hafa lesið annarstaðar.

**Páll Eggert Ólason.**

**Bjarni Sæmundsson: Continued marking experiments on Plaice and Cod in Icelandic Waters** (Meddelelser fra Kommissionen for Havundersögelser Serie: Fiskeri; Bind IV. Köbenhavn 1913).

Bók þessi skýrir frá mörkun á kola og þorski, er gjörð var á rannsóknarskipinu Thor. En fiskar eru markaðir til þess að komast eftir hve bráðþroska þeir eru á þeim og þeim stað og til þess að leiða í ljós hve víðförulir þeir eru. Þessi fræðsla fæst á þann hátt, að sjómenn, sem veiða merkta fiska, senda merkin til þeirra sem merkt hafa. Bjarni Sæmundsson hefur safnað merkjum þessum meðal þeirra, sem fiska við strendur Íslands.

Fiskamerking sú, er hér ræðir um, var framkvæmd 1904, 1905, 1908 og 1909. Það yrði oflangt mál að rekja þessar tilraunir nákvæmlega og læt eg því nægja að benda á það helzta, sem þær hafa leitt í ljós.

Koli, sem merktur var við suðvestur- og norðvesturströndina, það er að segja í Atlantshafssjó eða heitum sjó, var að mestu leyti kyr á staðnum. En koli, sem var merktur við norður- og austurströnd landsins, eða í köldum sjó, fluttist burt eða var farfiskur. Einnig kom það í ljós við rannsóknir þessar, að kolinn var meira bráðþroska í heita sjónum en kalda sjónum.

Alls voru merktir 1579 kolar og 1135 þorskar.

Um þorskinn er svipað að segja og kolann. Fiskar sem voru merktir í Faxaflóa héldu þar kyrru fyrir, að minsta kosti 14 mánuði, en fiskar sem merktir voru við Norður- og Austurland fluttust nokkuð, þótt margir væru þar kyrrir. Ungviðið heldur oft kyrru fyrir í kalda sjónum 3—4 ár, en leitar þaðan og í heita sjóinn, þegar fiskurinn er kominn á það þroskastig, að hrogn og svil eru fullþroskuð.

Þorskurinn er fljótari að vaxa í heita sjónum en í kalda sjónum eins og kolinn.

Þessar tilraunir hafa enn fremur leitt í ljós, að enginn fiskur, sem merktur hefir verið hér við land, hefir fundist annarstaðar, en það sýnir að þessir nytjafiskar eru tryggir við landið og leita ekki burt frá því.

**Helgi Jónsson.**

**Sólarljóð gefin út með skíringum og athugasemdum af Birni M. Ólsen.** (Safn til sögu Íslands og ísl. bókmenta V. Nr. 1.) Reikjavík 1915.

Mörgum er Sólarljóð les fljótlega í fyrsta sinn mun finnast þau vera eitt af auðveldari kvæðunum í fornbókmentum vorum. Orðin falla þar víða svo létt og eðlilega, spakmælin eins og nýmótuð mynt. En við nánari athugun verður margt þungskilið, samhengið laust og víða óljóst, textinn sumstaðar grunsamlegur, persónurnar með einkennilegum nöfnum, er gefa í skyn að þær séu ekki allar þar sem þær eru sénar. Og loks er efni kvæðisins »af tveimur heimum«, svo lesandinn þarf oft að átta sig til að vita hvar hann er staddur.

Úr öllu þessu greiðir nú hin ágæta, nýja útgáfa sem hér skal bent á. Þráður kvæðisins verður gleggri við það að útgefandinn hefir sett fyrirsagnir fyrir þáttum þess og köflum. Þá hefir hann á stöku stað lagfært textann, en sýnt þá neðanmáls hvað í hdrr. stendur. Flestar eru lagfæringar þessar svo eðlilegar, að lesandinn

felst ósjálfrátt á þær, og verður þó enn sannfærðari er hann les skýringar útgefandans á því hvernig textinn muni hafa aflagast.

Aftan við kvæðið eru svo athugasemdir og skýringar við hvert erindi í réttri röð. Eru þær, eins og vant er úr þeirri átt, skarplegar, lærðar og ljósar. Er þar víða brugðið nýju ljósi yfir efnið, en jafnframt vitnað til skoðana annara fræðimanna til samanburðar, einkum Norðmannanna Paasche's og Falk's. Með skýringunum fær lesandinn skilning á því af hvaða rótum kvæðið er runnið.

Niðurstaða útgefandans um Sólarljóð er í stuttu máli sú, að þau séu »eitt samstætt kvæði frá upphafi til enda, samið af einum og sama manni og laust við síðari íauka«. — »Höf. hefur orðið fyrir sterkum áhrifum af tveim kvæðum, sem setja fram heiðna lífsspeki, annað norræna, hitt klassiska. Þessi kvæði eru Hávamál og Disticha Catonis«.

Útg. sýnir að áhrifin frá Hávamálum komi fram bæði í formi, orðfæri og efnisskipan, og hann færir öflugar líkur fyrir því að Hugsvinnsmál (þýðingin á Disticha Catonis) séu eftir sama mann og Sólarljóð. Hyggur hann helzt að Sólarljóð séu frá lokum 13. aldar. Um þau segir hann meðal annars:

»Þó kvæðið sje ekki gamalt, er það einn af hinum skærustu gimsteinum bókmenta vorra. Í þeim gimsteini brotna ljósöldur útlendrar og innlendrar menningar, því að skáldið stendur með annan fótinn í kenningum kirkjunnar enn hinn í Hávamálum. »Röddin er Jakobs, enn hendurnar Esaús«. Hugsanir kvæðisins eru hákirkjulegar, rammkaþólskar, í besta samræmi við kenningar presta á dögum höfundarins, eins og Paasche best sínir, innfluttar frá Norðurálfu með kristninni. Enn búningur hugsananna, bragarhátturinn, orðfærið, í einu orði listin, er spunnin af rammíslenskum toga, sem á upptök sín lengst aftur í heiðni, í spakmælakveðskap heiðninnar, í Hávamálum. Fornskáldakveðskapurinn hafði þegar firir löngu gengið í þjónustu kirkjunnar, eins og sjest á hinum mörgu helgikvæðum. Nú, í Sólarljóðum, tekur kirkjan Eddukveðskapinn í þjónustu sína, því að Sólarljóð eru kristilegt Eddukvæði, kristileg Hávamál, og hefur kvæðið því ekki alveg ófirirsinju verið tekið inn i Eddukvæðaútgáfur«.

Útgáfa þessi er ljómandi fengur fyrir bókmentir vorar. Með henni getur þetta gullfagra kvæði orðið almenningseign. Gaman væri að mega eiga von á því að fá frá sömu hendi svipaðar útgáfur af merkustu Eddukvæðunum. Þær virðast einmitt eiga heima í »Safni til sögu Íslands og íslenzkra bókmenta«, og það því frem-

ur sem ritgerðir í því verða framvegis hafðar með sjálfstæðu blaðsíðutali, svo að þær geta jafnframt verið bækur út af fyrir sig.

Af Sólarljóðum hefir líka verið prentuð skrautútgáfa og er líklegt að bókavinir flýti sér að ná í hana. G. F.

**1889—1914. Náttúrufræðisfélagið tuttugu og fimm ára.** Rvík 1914.

Í afmælisriti þessu er fyrst saga »Hins íslenzka náttúrufræðisfélags« eftir dr. Helga Jónsson. Er hún ljóst og vel samin. Fyrst er skýrt frá því er stofnað var »Íslenzkt náttúrufræðisfélag« í Kaupmannahöfn 1887 fyrir ötula framgöngu Björns Bjarnarsonar fyrv. sýslumanns og Stefáns Stefánssonar skólameistara, er þá dvöldu í Höfn. Það félag leið undir lok er »Hið íslenzka náttúrufræðisfélag« var stofnað í Reykjavík 16. júlí 1889 fyrir forgöngu Stefáns Stefánssonar, er þá var kominn heim til Íslands. Erfði þetta nýja félag svo nafna sinn í Höfn og urðu gripir þeir, sem það hafði safnað, fyrsti vísir »Náttúrugripasafnsins«.

Höf. gerir grein fyrir stofnun félagsins, félagsmönnum, félagsstjórn, fjárhag, safninu og skýrslum þeim, sem félagið hefir gefið út.

Saga þessa félags er að mörgu merkileg. Hún sýnir hvernig eitt hið þarfasta safn vort hefir sprottið upp af hugsjón eins manns og dafnað í kyrþey fyrir ósérplægna alúð nokkurra manna, og þá fyrst og fremst forgöngumannsins og formannanna Benedikts Gröndals, Helga Pjeturss og Bjarna Sæmundssonar, sem um síðastliðin 8 ár hefir verið formaður félagsins og umsjónarmaður safnsins með miklum dugnaði. Í bókinni eru myndir af nokkrum aðalmönnum félagsins: Stefáni Stefánssyni, Birni Bjarnarsyni, J. Jónassen, Birni Jenssyni, Þorvaldi Thoroddsen, formönnunum þremur, og svo tvær myndir af Náttúrugripasafninu. Alþingi hefir styrkt félagið frá upphafi, fyrst með 400 kr., nú með 1000 kr. á ári. Gestir safnsins eru nú nær 4000 á ári.

Aftan við sögu félagsins er fróðleg ritgerð eftir Stefán Stefánsson skólameistara: Öspin í Fnjóskadalnum. G. F.

**Die Wunder in Schillers »Jungfrau von Orleans«, Inaugural-Dissertation .... vorgelegt von Alexander Jóhannesson aus Island,** 75 bls., 8 blbr., Halle a. S. 1915.

Fyrir lesendur Skírnis er rétt að geta með fám orðum, hver þessi jungfrú frá Orleans var. — Filippus fríði, konungur Frakka

gifti Játvarði II. Engla konungi dóttur sína, Isabellu. Sonur Filippusar, Karl IV, dó barnlaus. Í Frakklandi voru það lög, að konur máttu ekki erfa konungdóm, en í Englandi voru þær arfgengar til ríkis. Þegar Frakkar nú tóku til konungs Filippus VI. (1328), næsta frænda hins látna konungs, þá gerði Játvarður III. Engla konungur (1327—77), dóttursonur Filippusar fríða, kröfu til konungdóms á Frakklandi. En er menn vildu eigi verða við kröfu hans, þá fór hann með her á hendur Frökkum og lagði undir sig norðurhluta ríkisins. Varð af þessu langur ófriður milli landanna. Sonur Filippusar VI., Jóhann (1350—1364), þá Karl V. (1356—1380), þá Karl VI (1380—1422) réðu yfir suðurhluta Frakklands, en áttu jafnan í vök að verjast. Hinrik V. Engla konungnr þröngvaði Karli VI. til að gifta sér Katrínu, dóttur sína, og átti við henni son, en dó frá honum 8 mánaða gömlum. Setti hann Bedford til eftirlits með honum og skyldi hann vinna Frakkland alt til handa hinum unga konungi. En eftir Karl VI. dauðan kom sonur hans Karl VII. og tók konungdóm í Frakklandi. Átti hann í sífeldum ófriði við Engla, og gekk illa og lá við að hann veltist úr konungdómi. Var Frakkland þá hörmulega statt.

Þá varð smalastúlka Frakklandi til bjargar. Hún var úr þorpi því, er Domremy hét. Heyrði hún guðlegar raddir, er buðu henni að fara á konungs fund og láta krýna hann á löglegan hátt í Rheims. Jóhanna d' Arc hét hún. Þessi unga kona blés Frökkum hug í brjóst, og var sjálf í bardögum með þeim. Var hún jafnan fremst og bar merki sitt, er skaut Englum skelk í bringu. Leysti hún fyrst Orleans úr umsát og fór síðan sigurför um landið, þar til er hún hafði lokið ætlunarverki sínu og látið krýna Karl VII. í Rheims. En skömmu síðar náðu Englendingar henni á sitt vald og gerðust þau lítilmenni að brenna hana á báli í hefnd fyrir ósigur þann, er þeir höfðu beðið af hennar völdum.

Eitt af höfuðskáldum Þjóðverja, Friedrich Schiller (1759—1805) gerði sér yrkisefni úr þessari sögu og orti þar um leikrit það, sem Alexander hefir ritað bók sína um. — Menn hefir mjög greint á um þetta rit Schillers, einkum það, hvort hins yfirnáttúrlega gæti eigi ofmikið. Þetta hefir nú Alexander tekið sér fyrir hendur að skýra. En þótt þetta sé höfuðatriði, þá gerir hann og skýrt yfirlit yfir meðferð skáldsins á efninu og afstöðu meyjarinnar til guðs og umheimsins. Er þar margur fróðleikur í, einkum raktar ýmsar fyrirmyndir og endurminningar, sem vakað hafa fyrir skáldinu. Kaflinn um svarta riddarann er mjög fróðlegur. Er þar tíndur til

aragrúi af dæmum, þar sem beztu höfundar neyta yfirnáttúrlegra hluta. Þar á meðal eru tvö, sem kunn munu flestum Íslendingum: nornirnar í Macbeth og svipur konungsins í Hamlet. Liggur þá nærri að álykta að varla verði það mikill ókostur hjá Schiller, sem menn dásama hjá Shakespeare. Höf. segir oss og frá því, hvernig helztu höfundar, þeirra er um Schiller hafa ritað, skýra þetta atriði. Sjálfur leggur hann engan dóm þar á, en auðsætt sýnist að Schiller hugsi sér þar svip Talbots. Alexander leiðir ljós rök að því, að svipurinn í Hamlet hafi vakað fyrir Schiller, þegar hann samdi þetta atriði, sem svo mjög er þráttað um. — Þá er og fróðlegur kafli um það, hversu leikritaskáld hafi notað þórdununa og fer höf. þar víða og hefir jafnvel tekið gríska sorgarleiki til samanburðar.

Að lokum ritar Alexander um meðferð Schillers á þeim yfirnáttúrlegum viðburðum, sem hann sýnir. Kemst hann þar að þeirri niðurstöðu, sem er ótvíræðlega rétt, að svarti riddarinn sé hið eina, sem hann hefði komist af án, en hann telur það atriði þó mjög vel gert og fara eigi ver á því, en á samskonar svipum í verkum Shakespeares. Alt annað, sem yfirnáttúrlegt er í leiknum, var óhjákvæmilegt, eftir því sem honum var hagað frá upphafi og eftir efninu, segir höf. Er það vafalaust rétt.

Ritið er alt skýrt og yfirlætislaust og lýsir mikilli vandvirkni. Er auðsætt að höf. hefir lært af Þjóðverjum að vera vandvirkur og að lesa ofan í kjölinn. Þykist eg af þessari byrjun mega ráða, að þessi ungi doctor verði nýtur vísindamaður, ef fátæktin setur honum ekki stólinn fyrir dyrnar. Því fór það vel að Alþingi veitti honum lítilsháttar styrk um næstu tvö ár, til þess að hann gæti haldið áfram rannsóknum sínum og auk þess látið háskólann njóta þess, er hann hefir þegar lært.

Geta má þess, að Alexander hefir þýtt þenna sorgarleik Schillers á íslenzka tungu, og er vonandi að sú þýðing komi sem fyrst út. Því að fá rit eru hugnæmari en einmitt þetta.

Ekki veit eg til að neinn Íslendingur hafi fyrr orðið doctor í Þýzkalandi.

B. J. f. V.

**Jónas Jónsson: Íslandssaga handa börnum.** Fyrra hefti. Reykjavík 1915.

Þetta fyrra hefti skilur við Gissur jarl á grafarbakkanum. Heftið er á stærð við Íslendingasögu-ágripin, sem notuð hafa verið á skólum vorum til þessa, $8^1/_2$ örk í leturdrjúgu broti.

Ekki má það fæla menn, þó að kenslubókin stækki og verði um leið dýrari. Ef börn eiga að læra af bók, má hún ekki vera of stutt.

Það eru nokkurn veginn helminga skifti á tímanum, 500 árin fyrstu, og kann einhverjum til hugar að koma, að söguefnið hljóti þó að vera töluvert meira seinna missirið í þjóðlífi vor Íslendinga. Mun því vera að játa. En svo mun reynast hjá oss, að drjúgust verður gamla sagan. Þótt ekki bæri annað til en endursagnaránægjan — eftir söguritunum fornu.

Íslandssögu-ágripin eru nóg fyrir — að tölunni — en þessu nýja er þó vel að taka, sem barnaskólabók. Sagan þessi hjá Jónasi kennara frá Hriflu er margfalt meðfærilegri fyrir börn en eldri ágripin. Er því bezt lýst í nokkrum formálaorðum hjá höfundinum:

»Bók þessi er nokkuð með öðru sniði, en eldri kenslubækur í Íslandssögu. Kemur það af því, að hún er eingöngu ætluð börnum. Er því lítil áherzla lögð á stjórnarfarssöguna, tímabilsskiftingu, ártöl eða ættartölur, en meira sagt frá einstökum atburðum, er mega kallast sögulegir, og ýmsum atriðum menningarsögunnar. En af þessu leiðir, að efninu verður tæplega raðað í nákvæmt kerfi eftir tímaröð, eins og yrði að gera í sögubók handa unglingum og fullorðnum mönnum«.

Þetta veit alt í rétta átt til að búa börnum í hendur læsilega sögu. Helzt að hvað höfundurinn sleppir sér lítið og er enn sjálfur bundinn við gamla stýl.

Sögubrotin eru jafnmörg eða fleiri en síður eru í bókinni. Oftar nær yfirskriftin hinum sögulega atburði. Er hún góðra gjalda verð sú tilraun, að gjöra sögur úr sögunni, og vel efnir höfundurinn það, að koma að ýmsum atriðum úr menningarsögunni. Nokkrar yfirskriftir mætti þó nefna, sem heldur brjóta bág við þær lífsreglur, sem höfundurinn hefir sett sér við þessa barnabók. Nefni eg t. d.: »afreksmenn«, »kvenskörungar«, »ritöldin«, kirkjudeilur«.

Vænt þykir mér um tilvitnanir í söguútgáfur Sigurðar Kristjánssonar. Verður að ætla, að flest börn geti náð til þeirra. Eins færir það söguna nær, er fornir staðhættir eru leiddir til kunnra staða nútímans.

Magnús kennaraskólastjóri hefir samið alllanga leiðréttingarskrá við heftið, og þarf að fylgja við söluna, og kemur leiðrétt í 2. prentun. Ætti hennar ekki að vera lengi að bíða. Svo miklu notfærilegra er þetta ágrip en hin eldri.

Legg eg því hinar beztu óskir, að þessi Íslandssaga verði notuð um sinn við barnaskóla vora. En þess óskað um leið, að ekki líði á löngu áður en betri bók kemur, þar sem sögulegu atburðirnir fá að njóta sín í skemtilegri lesbók fyrir börnin.

En þakkarvert er hvert spor í rétta átt.

Þ. B.

Enn fremur hafa Skírni verið send þessi rit og verður sumra þeirra getið síðar:

Einar Arnórsson: Íslenzk þjóðfélagsfræði. Stutt ágrip. Gefið út af Sambandi Ú. M. F. Í. Rvík 1915.

Ágúst Bjarnason: Yfirlit yfir sögu mannsandans. Vesturlönd. Kostnaðarm. Sigurður Kristjánsson. Rvík 1915.

Ágúst Bjarnason: Drauma-Jói. Bókav. Sigf. Eymundssonar. Rvík 1915.

Halldór Briem: Kenslubók í flatarmálsfræði. 3. útg. endurbætt. Rvík 1915.

Gísli Guðmundsson: Ostagerð. Sérprentun úr Búnaðarritinu, XXIX. ár, 1915.

Hagskýrslur Íslands. 6. Búnaðarskýrslur árið 1913. Rv. 1915.

Tímarit kaupfélaga og samvinnufélaga. Ritstjóri Sigurður Jónsson. IX. ár. Akureyri 1915.

Úrvalsþættir úr Odysseifskviðu Hómers eftir þýðingu Sveinbjarnar Egilssonar. Með nokkrum athugasemdum og skýringum (eftir Þorleif H. Bjarnason). Bókav. Sigf. Eymundss. Rv. 1915.

Jón H. Þorbergsson: Kynbætur sauðfjár. Yfirlit og leiðbeiningar. Rvík 1915.

Raflýsing og rafhitun Akureyrarkaupstaðar. Eftir Fr. B. Arngrímsson. Akureyri 1915.

Hörpusöngurinn (Gróttusöngur). Leiðrétt hefir á fornízlenzku Fr. B. Arngrímsson. Ak. 1914.

Vísindin, kristnin og trúin á æðra (eða annað) líf. Eftir Fr. B. Arngrímsson. Ak. 1915.

Sigfús Blöndal: Island og Norden. Foredrag holdt den 19. Juli paa det 5. nord. Studentermöde ved Eidsvold. Særtryk af »Hovedstaden«. København 1915.

Bogtryk. Organ for de grafiske fag. Nr. 1.—5. 1915. Utgit av Hansen & Skotvedt. Kristiania.

Anders Hovden: Per Sivle. Ei livssogu. Oslo 1914. (Norske Folkeskrifter Nr. 24).

Halvdan Koht: Arbeidar-rörsla av 1848 i Noreg. Oslo 1914 (N. F. Nr. 60).

Oluf Kolskrud: Olavskyrkja i Trondheim. Oslo 1914. (N. F. Nr. 63).

Knut Liestöl: Norsk Folkediktning. Oslo 1914. (N. F. Nr. 62).

Mitteilungen der Islandfreunde. 1. Jahrg. Januar 1914. Heft 3. Verlegt bei Eugen Diederichs in Jena.

---

# Tvær þýðingar.

Eftir *Huldu.*

---

## I. Sigrún.

Sigrún litla, Sigrún góð! æ syngdu fyrir mig.
Sál mín reikar einmana hrjóstugan stig
og ávalt býr mér sorgin í sinni.
Sigrún litla, Sigrún góð, þín vísa er eins og vor,
hún vermir mig og huggar og léttir raunaspor,
svo birtir yfir hljóðri höllu minni.

Sigrún litla, Sigrún góð, æ, syngdu kvæðið þitt
að sönglaunum ég gef þér hálft kongsríki mitt
og gull og silfur alt í hárri höllu;
mín ósk er gull og silfur í hljóðri hugarborg
og hálfa konungsríkið: að bera með mér sorg, —
þú hræðist víst harminn mest af öllu.

* * *

Reyr, reyr, hvísla,
renn, bylgja blá.
Segið, hvert fór Sigrún ung
í sorghug og þrá? —

Hún kveinaði sem vængskotin önd, er sökk í sjó
í vor er laufið skreytti skóg.

Svo ilt og gramt var fólkið henni' í Austurárhlíð,
um gull og silfur stóð það stríð.

Svo ilt og gramt var fólkið, að ekki fyrir sást,
það stríð hún mátti þola fyrir sína æskuást.

Með þyrni þeir stungu augastein
og stráðu mold þá lilju, sem var daggar hrein.

Syngið, syngið sorgarlag
silfuröldur smá.
Reyr, reyr, hvísla
um raunir og þrá.
(Gustaf Fröding).

## II. »Home, sweet home«.

Þótt leið liggi' um borgir
með ljómandi skraut,
kýs heimkynnið hjartað,
og hvers, sem þar naut.
Sem himinkyrð helgað
alt hugljúft þar var
þó farið sé fjarri
það finst aðeins þar.
Heim, heim, hve ljúfan heim!
Ei átthögum líkist
neitt annað í heim'.

Eg útlægur unað
við fegurð ei fæ.
Ó, gef mér minn sólkyrra,
sveitlæga bæ,
þar smáfuglar sungu
án ótta sinn óð.
Hve elska ég, bernska,
þinn frið og þau ljóð.
Heim, heim, hve ljúfan heim!
Ei átthögum líkist
neitt annað í heim'.

# Skýrslur og reikningar
## Bókmentafélagsins 1914.

---

### Bókútgáfa.

Félagið hefir árið 1914 gefið út þessar bækur og félagsmenn fengíð þær fyrir árstillagið, 6 krónur:

| | | |
|---|---|---|
| Skírnir, 88. ár | kr. | 4.00 |
| Fornbréfasafn X. b. 2. h. | — | 4.00 |
| Sýslumannaæfir IV. b. 6. h. | — | 1.45 |
| Safn til sögu Íslands IV. b. 8. h. | — | 1.20 |
| Víkingasaga 1. h. | — | 2.35 |
| Samtals | kr. | 13.00 |

Reykjavík 17. júní 1915.

*Matthías Þórðarson*,
bókav. félagsins.

---

### Aðalfundur

Ár 1915, fimtudag 17. júní, kl. 9 að kveldi var aðalfundur Bókmentafélagsins haldinn í Iðnaðarmannahúsinu. Fundarstjóri var kosinn Lárus H. Bjarnason.

I. Forseti skýrði frá hag félagsins og mintist látinna félaga (Júl. Havsteens amtmanns, Halldórs Jónssonar bankagjaldkera, Þorsteins Erlingssonar skálds, Jóns Hjörleifssonar hreppstjóra, Guðjóns Sigurðssonar úrsmiðs, Jónasar Einarssonar cand. polit., Ólafs Árnasonar verzlunarstjóra og Jóns Á. Jónssonar verzlunarmanns) og mintust félagsmenn þeirra með því að standa upp. Í stað þeirra höfðu félaginu bæzt á árinu 90 félagar, og var félagatal nú 1100, meira en nokkru sinni áður.

Því næst skýrði forseti frá bókaútgáfu félagsins á þessu ári. Skírnir kæmi út sem áður, enn fremur seinna hefti af Víkingasögu Jóns próf. í Stafafelli, registurshefti við 4. bindi af Safni og ef unt væri 1. hefti af 5. bindi, lokahefti af Sýslumannaæfum og 23 arka hefti af Fornbréfasafni.

Síðan las forseti upp og skýrði fyrir félagsmönnum ársreikning og efnahagsreikning félagsins og bar þá saman við reikninga fyrra árs.

Forseti skýrði frá að fyrirhugað væri að gefa út minningarrit í tilefni af 100 ára afmæli félagsins á næsta ári.

Hannes Þorsteinsson skjalavörður, endurskoðandi félagsins, fór nokkrum orðum um reikningana og talaði um að skrá vantaði um seldar bækur félagsins, en erfitt mundi að líkindum að koma því í kring. Enn fremur gat hann þess, að kostnaður væri mikill við útgáfu Skírnis og hefti það nokkuð aðra bókaútgáfu. Loks skaut hann því til stjórnarinnar, hvort eigi væri hægt að losna við einhver af þeim dönsku skuldabréfum, er félagið ætti, en gæfu litla vexti, og nokkur fleiri atriði mintist hann á. — Forseti svaraði þessum athugasemdum nokkrum orðum og sömuleiðis bókavörður félagsins. Síðan var ársreikningur félagsins borinn upp og samþyktur í einu hljóði og sömuleiðis efnahagsreikningur og reikningur sjóðs Lehmann-Filhés, er forseti hafði áður lesið upp.

II. Endurskoðendur voru endurkosnir í einu hljóði Klemens Jónsson landritari og Hannes Þorsteinsson skjalavörður.

III. Eftir samhuga ályktun fulltrúaráðsins stakk forseti upp á að kjósa prófessorana Adolf Noreen og Gustaf Cederschiöld heiðursfélaga og voru þeir báðir samþyktir.

Fundarmenn þökkuðu stjórninni frammistöðuna síðastliðið ár með því að standa upp.

Fundarbók samþykt.

Fundi slitið.

*Lárus H. Bjarnason.*

J. Jónsson.

---

## Reikningur

### yfir tekjur og gjöld Hins íslenzka Bókmentafélags fyrir árið 1914.

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 2. Eftirstöðvar frá árinu 1913: | | | | |
| a. Veðdeildarbréf Landsbankans . . | kr. | 19000 00 | | |
| b. Dönsk verðbréf . . . . . . . | — | 8000 00 | | |
| c. Peningar í sparisjóði . . . . . . | — | 5877 12 | | |
| | | | kr. | 32877 12 |
| 2. Styrkur úr landssjóði . . . . . . . . . . . | | | — | 2000 00 |
| 3. Fjórtánda greiðsla fyrir handritasafnið . . . . . | | | — | 1000 00 |
| 4. Greidd tillög meðlima . . . . . . . . . . . . | | | — | 5841 57 |
| | | Flyt | kr. | 41718 69 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | | Fluttar | kr. | 41718 69 |
| 5. Fyrir Skírni og seldar bækur í lausasölu . . . . | | | — | 1118 36 |
| 6. Fyrir auglýsingar á kápu Skírnis 1914 . . . . | | | — | 70 00 |
| 7. Áunnið við útdregin veðdeildarbréf Landsbankans . | | | — | 120 00 |
| 8. Nafnverðslækkun keyptra veðdeildarbréfa . . . . | | | — | 60 00 |
| 9. Til jafnaðar móti gjaldlið 6. a. . . . . . . . . . | | | — | 1000 00 |
| 10. Ársvextir af: | | | | |
| a. 19000 kr. í veðdeildarbréfum Landsbankans . . . . . . . | kr. | 855 00 | | |
| b. 4000 kr. í kredítkassaskuldabréfum landeigna . . . . . . . . | — | 140 00 | | |
| c. 2200 kr. í húskredítkassaskuldabréfum . . . . . . . . . . | — | 88 00 | | |
| d. 1600 kr. í þjóðbankaskuldabréfum . . . . . . . . . . . . | — | 112 00 | | |
| e. 200 kr. í kredítbankaskuldabréfum jóskra landeigna . . . . . . . | — | 7 00 | | |
| f. Peningum í sparisjóði . . . . . | — | 144 34 | | |
| | | | kr. | 1346 34 |
| | | Samtals | kr. | 45433 39 |

Gjöld:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Bókagerðarkostnaður: | | | | |
| a. Skírnir: | | | | |
| 1. Laun ritstjóra . . . . . . . . | kr. | 500 00 | | |
| 2. Ritlaun og prófarkalestur . . | — | 1161 74 | | |
| 3. Prentun, pappír og hefting . | — | 1908 58 | | |
| | | | kr. | 3570 32 |
| b. Aðrar bækur: | | | | |
| 1. Ritlaun og prófarkalestur . . | kr. | 856 25 | | |
| 2. Prentun, pappír, hefting o. fl. | — | 2962 64 | | |
| | | | — | 3818 89 |
| 2. Kostnaður við endurprentun . . . . . . . . . . | | | — | 57 67 |
| 3. Fyrir að lita uppdrætti Íslands með landslagslitum | | | — | 79 65 |
| 4. Afgreiðslukostnaður: | | | | |
| a. Laun bókavarðar . . . . . . . . | kr. | 600 00 | | |
| b. Innheimtuþóknun til sama fyrir árið 1913 . . . . . . . . . . . | — | 135 85 | | |
| c. Burðargjald o. fl. . . . . . . . . | — | 699 32 | | |
| | | | — | 1435 17 |
| 5. Brunabótagjald og ýms gjöld . . . . . . . . . . | | | — | 139 05 |
| | | Flyt | kr. | 9100 75 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | Fluttar | | kr. | 9100 75 |
| 6. a. Keypt veðdeildarbréf Landsbankans . . . . . . . . . . . . . | kr. | 1000 00 | | |
| b. Greiddir áfallnir vextir af þeim | — | 12 88 | | |
| | | | — | 1012 88 |
| 7. Eftirstöðvar 31. desbr. 1914: | | | | |
| a. Veðdeildarbréf Landsbankans . . | kr. | 20000 00 | | |
| b. Kredítkassaskuldabréf landeigna . | — | 4000 00 | | |
| c. Húskredítkassaskuldabréf . . . . | — | 2200 00 | | |
| d. Þjóðbankahlutubréf . . . . . . | — | 1600 00 | | |
| e. Kredítbankaskuldabréf józkra landeigna . . . . . . . . . . . . | — | 200 00 | | |
| f. Peningar í sparisjóði . . . . . . | — | 7319 76 | | |
| | | | — | 35319 76 |
| | Samtals | | kr. | 45433 39 |

Reykjavík 24. apríl 1915.

*Sigurður Kristjánsson,*
pt. gjalderi.

Reikning þenna ásamt fylgiskjölum höfum við yfirfarið, og ekki fundið neitt athugavert.

Reykjavík, 14. júní 1915.

*Hannes Þorsteinsson. Kl. Jónsson.*

---

## Efnahagsreikningur

### Hins íslenzka Bókmentafélags 1. janúar 1915.

Eignir:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Samkvæmt ársreikningi 1914: | | | | |
| a. Í verðbréfum . . . . . . . . | kr. | 28000 00 | | |
| b. Í peningum í sparisjóði . . . | — | 7319 76 | | |
| | | | kr. | 35319 76 |
| 2. Forlagsbækur, samkvæmt skrá, virtar . . . . . | | | — | 20000 00 |
| 3. Ýmsir munir, samkvæmt skrá, virtir . . . . . . | | | — | 716 00 |
| 4. Útistandandi skuldir . . . . . . . . . . . . | | | — | 1838 80 |
| | Samtals | | kr. | 57874 56 |

Skuldir:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Suldlaus eign | | kr. | 57874 56 |
| | Samtals | kr. | 57874 56 |

Reykjavík 22. mai 1915.

*Sigurður Kristjánsson.*
pt. gjaldkeri.

Reikningur þessi er réttur.

Reykjavík, 14. júní 1915.

*Hannes Þorsteinsson.* *Kl. Jónsson.*

---

## Reikningur

### sjóðs Margrétar Lehmann-Filhés fyrir árið 1914.

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eftirstöðvar við árslok 1913: | | | | |
| Stofnfé: | | | | |
| a. Í Söfnunarsjóði | kr. | 5083 05 | | |
| b. Í innlánsbók Íslandsbanka | — | 14 60 | | |
| | | | kr. | 5097 65 |
| 2. Vextir 1914: | | | | |
| a. Í Söfnunarsjóði | kr. | 233 32 | | |
| b. Í innlánsbók Íslandsbanka | — | 78 | | |
| | | | — | 234 10 |
| | | Samtals | kr. | 5331 75 |

Gjöld:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eftirstöðvar við árslok 1914: | | | | |
| a. Stofnfé: | | | | |
| 1. Í Söfnunarsjóði | kr. | 5141 38 | | |
| 2. Í innlánsbók Íslandsbanka | — | 14 79 | | |
| | | | kr. | 5156 17 |
| b. Starfsfé: | | | | |
| 1. Í innlánsbók Íslandsbanka | | | — | 175 58 |
| | | Samtals | kr. | 5331 75 |

Reykjavík 17. apríl 1915.

*Sigurður Kristjánsson.*

Reikning þenna höfum við endurskoðað og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík, 8. júní 1915.

*Hannes Þorsteinsson.* *Kl. Jónsson.*

# Hið íslenzka Bókmentafélag.

VERNDARI:

**Kristján konungur hinn tíundi.**

STJÓRN:

**Forseti:** Björn M. Ólsen, dr. phil., r. af dbr. og dbrm.
**Varaforseti:** Jón Þorkelsson, landskjalavörður, dr. phil.

**Fulltrúaráð:**

Sigurður Kristjánsson, bóksali, r. af dbr., gjaldkeri félagsins.
Björn Bjarnason, kennari, dr. phil.
Jón Jónsson, docent, skrifari félagsins.
Guðmundur Finnbogason, bókav., dr. phil.
Einar Arnórsson, ráðherra, kjörstjóri félagsins.
Matthías Þórðarson, fornmenjavörður, bókavörður félagsins.

HEIÐURSFÉLAGAR:

Anderson, R. B., prófessor, Madison, U. S. A.
Briem, Eiríkur, prófessor, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Briem, Valdimar, vígslubiskup, r. af dbr., Stóra-Núpi.
Bryce, James, Right Hon., sendiherra Breta í Washington.
Brögger, W. C., prófessor við háskólann í Kristjaníu.
Cederschiöld, Gustaf, prófessor, dr. phil., Lundi.
Finnur Jónsson prófessor, dr. phil., r. af dbr., r. af St. Ól., Khöfn.
Gering, Hugo, dr. phil., leyndarráð, prófessor í Kiel.
Heusler, Andreas, prófessor, dr. phil., Berlín.
Kålund, Kr., bókavörður, dr. phil., r. af dbr., Khöfn.
Ker, W. P., prófessor við háskólann í Lundúnum.
Kristján Jónsson, háyfirdómari, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Matthías Jochumsson, uppgjafaprestur, r. af dbr. og dbrm., Akureyri.
Mogk, E., dr. phil., prófessor í Leipzig.
Noreen, Adolf, prófessor, dr. phil., Uppsölum.
Ólafur Halldórsson, konferenzráð, r. af dbr. og dbrm., Khöfn.
Ólsen, Björn M., prófessor, dr. phil., r. af dbr. og dbrm., Reykjavík.
Olsen, Magnus, prófessor við háskólann í Kristjaníu.
Poestion, J. C., hirðráð í Vínarborg, comm. af dbr.
Stephensen, M., fv. landsh. yfir Íslandi, stórkross af dbr. m. m.
Thoroddsen, Þorvaldur, prófessor, dr. phil., r. af dbr., Khöfn.
Wimmer, L. F. A., prófessor, dr. phil., stórkr. af dbr., Khöfn.

# FÉLAGAR.

## A. Á Íslandi.

**Reykjavík.**

Ágúst Bjarnason, próf., dr. '14.[1])
Alexander Jóhannesson '14.
Andersen, Ludvig, klæðsk. '14.
Arinbjörn Sveinbjarnarson, bókbindari '14.
Árni Jóhannsson, bankaritari '14.
Árni Jónsson, kaupm. '13.
Ásgeir Sigurðsson, konsúll, '14.
Ásgeir Torfason, efnafræð. '14.
Bartels, Martin, bankaritari '14.
Beck, Símon, trésmiður '14.
Benedikt Sveinsson, alþm. '14.
Benedikt Þórarinsson, kaupm. '14.
Bjarni Jensson, læknir '14.
Björn Bjarnason, dr. phil. '12.
Björn Björnsson, verzlunarm. '14.
Björn Kristjánsson, bankastj. '14.
Björn Sigurðsson, bankastj. '14.
Blöndahl, Magnús, kaupm. '14.
Blöndal, Ragnh., ungfrú '14.
Bogi Ólafsson, kennari '14.
Bókasafn K. F. U. M. '14.
Borgþór Jósefsson, bæjargjaldk. '14.
Briem, Eggert, skrifstofustj. '14.
Briem, Sigurður, póstmeistari '14.
Brynjólfur Björnsson, tannl. '14.
Brynjólfur H. Bjarnason, kaupm. '14.
Brynleyfur Tobíasson, kennari '13.
Böðvar Kristjánsson, adjunkt '14.
Claessen, Eggert, yfirréttarmálaflutningsmaðar '14.
Copland, G., stórkaupm. '14.
Eggert Snæbjarnarson, verzlunarmaður '13.
Eggerz, Sigurður, fv. ráðherra '14.
Einar Arnórsson, ráðherra '14.
Einar Gunnarsson, ritstjóri '14.
Einar Helgason, garðyrkjufr. '14.
Einar Hjörleifsson, rithöf. '14.
Einar Magnússon, bókh. '14.
Einar Magnússon '14.
Eiríkur Einarsson, stud. jur. '14.
Erlendur H. Guðmundsson, bréfberi '14.
Eyjólfur Jónsson, rakari '14.
Eyþór Guðjónsson, bókbindari '14.
Fjeldsted, Andrés, augnlæknir '14.
Fjeldsted, Lárus, cand. jur. '14.
Friðrik Benónýson '14.
Friðrik Klemensson '14.
Geir Sigurðsson, skipstjóri '14.
Georg Ólafsson, cand. polit. '14.
Gísli Guðmundsson, verksmiðjustj. '14.
Gísli Ísleifsson, fv. sýslum. '14.
Gísli J. Ólafsson, símstjóri '14.
Gísli Sveinsson, cand. jur '14.
Grímúlfur Ólafsson, ritari '13.
Gröndal, Ben. Þ., cand. phil. '13.
Guðgeir Jóhannsson, kennari '14.
Guðjón Rögnvaldsson, kennari '14.
Guðjón Sigurðsson, Hvg. 71 '15.
Guðm Ásbjarnarson, trésm. '14.
Guðm. Björnsson, landlæknir '14.
Guðm. Böðvarsson, kaupm. '14.
Guðm. Finnbogason, dr. phil. '14.
Guðm. Gamalíelsson, bóksali '14.
Guðm. Hannesson, prófessor '14.
Guðm. Helgason, præp. hon. '14.
Guðm. Kr. Guðmundsson, kaupm.'14
Guðm. Loftsson, bankaritari '14.
Guðm. Magnússon, prófessor '14.
Guðm. Magnússon, rithöf. '14.
Hafstein, Hannes, fv. ráðh. '14.
Halldór Daníelsson, yfirdómari '14
Halldór Kr. Þorsteinsson skipstj.'14.
Halldór Þórðarson, bókb. '14.

---

[1]) Ártölin aftan við nöfnin merkja að tillag sé afhent bókaverði fyrir það ár síðast.

Hallgrímur Benediktsson, umboðssali '14.
Hallgrímur Jónsson, járnsm. '13.
Hallgrímur Jónsson, kennari '13.
Hannes Þorsteinsson, skjalav. '14.
Hansen, Morten, skólastjóri '14.
Haraldur Gunnarsson, prentari '14.
Haraldur Níelsson, prófessor '14.
Haraldur Sigurðsson, verzlm. '14.
Helgi Helgason, verzlunarstj. '14.
Helgi Jónasson, verzlunarm. '14.
Helgi Jónsson, dr. phil. '14.
Helgi Jónsson, námsm. '14.
Helgi Péturss, dr. phil. '14.
Hjaltlína Guðjónsdóttir '14.
Hlíðdal, Guðm., verkfræð. '14.
Hólmfríður Árnadóttir, kensluk. '14.
Ingibjörg H. Bjarnason, forstöðukona '14.
Jakob Jónsson, verzlunarstj. '14.
Jensen, Thor, kaupm. '14.
Jóhannes Sigfússon, adjunkt '14.
Jóhann Kristjánsson ættfræð. '14.
Jóhann Þorsteinsson, præp. hon. '14.
Johnson Ólafur, konsúll '14.
Jónas Jónsson, kennari '14.
Jón Guðnason, cand. theol. '13.
Jón Helgason, prófessor '14.
Jón Hermannsson, skrifstofustj. '14.
Jón Hj. Sigurðsson, héraðsl. '13.
Jón Ívarsson, kennari '14.
Jón Jónsson, dócent '14.
Jón Kristjánsson, prófessor '14.
Jón Magnússon, bæjarfógeti '14.
Jón Ólafsson, alþm. '14.
Jón Ólafsson, skipstj. '14.
Jón Þórarinsson, fræðslum.stj. '14.
Jón Þorkelsson, dr., landskjalav. '14.
Jón Þorláksson, landsverkfr. '14.
Jörundur Brynjólfsson, kennari '14.
Kaaber, Ludvig, konsúll '14.
Kennarafélag Barnaskólans '14.
Klemens Jónsson, landritari '14.
Kolbeinn Þorsteinsson, skipstj. '14.
Krabbe, Th., landsverkfr. '14.
Kristján Kristjánsson, skipstj. '14.
Kristján Þorgrímsson, konsúll '14.
Lárus H. Bjarnason, prófessor '14.
Laxdal, Jón, kaupm. '14.
Laugarnesspítali '14.
Lestrarfélagið „Íþaka“ '14.
Lestrarfélag kvenna '14.
Leví, R. P., kaupm. 14.
Magnús Arnbjarnarson, cand. jur. '14
Magnús Benjamínsson, úrsm. '14.
Magnús Einarsson, dýralæknir '14.
Magnús Helgason, skólastj. '14.
Magnús Sigurðsson, cand. jur. '14.
Magnús Þorsteinsson, kaupm. '14.
M. Magnús, læknir '14.
Matthías Einarsson, læknir '14
Matth. Matthíasson, kaupm. '14.
Matth. Þórðarson, fornm.v. '15.
Nordal, Johannes, íshússtjóri '14.
Oddur Gíslason, yfirréttarmálaflutningsmaður '14.
Oddur Hermannsson, cand. júr. '14.
Ólafur Björnsson, ritstjóri '14.
Ólafur G. Eyjólfsson, skólastj. '14.
Ólafur Lárusson, cand. jur. '14.
Ólafur Ólafsson, umsjónarm. '14.
Ólafur Rósenkranz, kennari '14.
Ólafur Runólfsson, bókhaldari '14.
Ólafur Þorsteinsson, læknir '14.
Olgeir Friðgeirsson, samgöngumálastjóri '14
Óskar Halldórsson, búfræð. '14.
Páll Halldórsson, skó astj. 14.
Páll H. Gíslason, kaupm. 14.
Páll Jónsson, verzlunarm. '14.
Páll Stefánsson frá Elliðavatni '14.
Páll Stefánsson frá Þverá '14.
Pálmi Pálsson, yfirkennari '14.
Pétur Halldórsson, bóksali '14.
Pétur Láruss, prentari '14.
Pétur Zóphóníasson, gagnfr. '13.
Proppé, Carl, verzlunarstj. '14.

Richard Torfason, bankabókari '14.
Rögnvaldur Ólafsson, húsameist. '14
Samúel Eggertsson, skrautrit. '14.
Sighv. Bjarnason, bankastj. '14.
Sigríður Björnsdóttir '14.
S. Á. Gíslason, cand. theol. '14.
Sigurður Guðmundsson frá Hofdölum '14.
Sig. Guðmundsson, mag. art. '12.
Sigurður Jónsson, bókbindari '14.
Sigurður Kristjánsson, bóksali '14.
Sigurður Sigurðsson, ráðunautr '14.
Sivertsen, Sigurður, docent '14.
Smith, Paul, símaverkfr. '14.
Snorri Jóhannsson, bókhaldari '14.
Steingrímur Arason, kennari '14.
Steinunn Bjartmarsd., kensluk. '14.
Sveinn Björnsson, alþm. '14.
Sveinn Jónsson, trésm. '14.
Sæmundsen, Karl, kaupm. '14.
Sæm. Bjarnhéðinsson, prófessor '14
Thomsen, Ditlev, ræðism. '14.
Thoroddsen, Sigurður, adj. '14.
Thoroddsen, Skúli, ritstj. '14.
Thorsteinsson, Hannes, cand. jur. '14.
Thorsteinsson, Th., kaupm. '14.
Tr. Gunnarsson, fv. bankastj. '14.
Tulinius, Axel, málafl.m. '14.
Ungmennafél. Reykjavíkur '14.
Vigfús Einarsson, cand. jur. '14.
Vigfús Guðmundsson, Engey '14.
Zimsen, Knud, borgarstjóri '14.
Zoëga, Geir, cand. polyt. '14.
Zoëga, Geir, rektor '14.
Zoëga, Geir, verzlunarm. '14.
Þórður Erlendss., Rauðarárst. '14.
Þórður Sveinsson, læknir, Kleppi '13.
Þorfinnur Kristjánsson, prent. '12.
Þórhallur Bjarnarson, biskup '14.
Þorkell Þorláksson, ritari '14.
Þorlákur Vilhjálmsson, búfr. '14.
Þorleifur H. Bjarnason, adj. 14.
Þorleifur Jónsson, póstafgr.m. '14.
Þorsteinn Finnbogason, kennari '13
Þorsteinn Gíslason, ritstj. '14.
Þorsteinn Jónsson, bankarit. '14.
Þorsteinn Sigurðsson, skósm. '13.
Þorsteinn Þorsteinsson, cand. jur.'14
Þorst. Þorsteinsson, hagstofustj.'14.
Þorv. Guðmundsson, afgr.m. '14.
Þorvarður Þorvarðarson, prentsm., '14.

**Gullbringu- og Kjósarsýsla.**

Árni Þorsteinsson, prestur á Kálfatjörn '15.
Bræðrafélag Kjósarhrepps '14.
Einar Magnússon, kennari, Gerðum í Garði '13.
Finnbogi Lárusson, kaupm., Gerðum í Garði '14.
Guðm. Ragnar Ólafsson, Móakoti í Grindavík '15.
Heilsuhælið á Vífilstöðum '15.
Jóhann Eyólfsson, alþm., Brautarholti.
Johnsen, Sig. Þ., kennari, Seltjarnarnesi '14.
Jóna Sigurjónsdóttir, Keflavík '14.
Jón Jónsson, kennari, Hvammi '14.
Klemens Egilsson, óðalsb., Minni-Vogum '14.
Kolbeinn Högnason, kennari, Kollafirði '13.
Kristinn Daníelsson, prestur, Útskálum '12.
Lestrarfélag Keflavíkur '14.
Lestrarfélag Kjalnesinga '13.
Lestrarfélag Lágafellssóknar '14.
Lestrarfélag Seltirninga '14.
Magnús Bergmann Jónsson, Fuglavík, Miðnesi '14.
Sigurður Magnússon, læknir, Vífilsstöðum '14.
Stefán Sigurfinnsson, Bakkakoti, Leiru '14.

Sveinn Guðmundsson, járnsm., Vífilsstöðum '14.

Tómas Snorrason, kennari, Keflavík '14.

Þorgrímur Þórðarson, læknir Keflavík '14.

### Hafnarfjarðar-umboð.

(Umboðsm. Aug. Flygenring, kaupmaður í Hafnarfirði)[1]).

Árni Sighvatsson, kaupm.
Andrés Runólfsson, verzlunarm.
Einar Þorgilsson, kaupm.
Flygenring, Aug., kaupm.
Guðm. Eyjólfsson, verzlunarm.
Guðm Magnússon, skipstj.
Gunnlaugur Kristmundsson, kennari.
Ingvar Jóelsson, verkstjóri.
Janus Jónsson, præp. hon.
Lárus Bjarnason, kennari.
Lestrarfél. „Framför".
Magnús Jónsson, sýslum.
Oddur Ívarsson, póstafgr.m.
Ólafur V. Davíðsson, framkv.stj.
Salómon Runólfsson, bókhaldari.
Sigfús Bergmann, kaupm.
Sig. Kristjánsson, sýsluskrifari.
Sig. Sigurðsson verzlunarm.
Skinfaxi, bókas. skólapilta í Flensb.
Steingr. Torfason, bryggjuv.
Sveinn Jónason, sjóm.
Þórður Edílonsson, læknir.
Þórður Einarsson, verzlunarm.
Þórður Guðnason, skólastj.
Ögmundur Sigurðsson. skólastj.

## Borgarfjarðar- og Mýrasýsla.

Jón Sveinsson, prófastur, Akranesi '15.

Lestrarfélag Akraness '14.

Magnús Andrésson, prófastur, Gilsbakka '15.

Oddur Sveinsson, kennari. Akranesi '14.

Ottesen, Oddgeir P., hreppstj., Ytrahólmi '13.

Stefán Guðmundsson, bóndi, Fitjum '13.

Sumarliði Halldórsson, skógfræðingur, Akranesi '12.

Thorlacius, Einar, prestur, Saurbæ '14.

Tryggvi Þórhallsson, prestur, Hesti '15.

Ungmennafélagið „Haukur", Leirársveit '14.

### Borgarness-umboð.

(Umboðsm. Jón Björnsson, kaupm. Borgarnesi[1]).

Árni Þorsteinsson, bóndi, Brennistöðum.

Bjarni Bjarnason, bóndi, Skáney.

Björn Lárusson, bóndi, Heggstöðum.

Björn Ólafsson, steinsmiður, Kaðalstöðum.

Björn Þórðarson, sýslum., Borgarnesi.

Brynjólfur Bjarnason, búfræðingur, Deildartungu.

Bændaskólinn á Hvanneyri.

Davíð Þorsteinsson, Arnbjargarlæk.

Einar Sigurðsson, Stóra-Fjalli.

Fjeldsted, Sigurður, bóndi, Ferjukoti.

Geir Pétursson, Geirshlíð.

Grönfeldt, H. skólastj., Hvítárvöllum

Guðm. Árnason, bóndi, Álftártungu.

Guðm. Daníelsson, bóndi, Svignaskarði.

Hjörtur Snorrason, búfræð., Arnarholti.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1914.

Jóhannes Jónsson, gagnfræð., Efranesi.
Jóhann Magnússon, bóndi, Hamri.
Jón Björnsson, kaupm. Borgarnesi.
Jósef Björnsson, Svarfhóli.
Kristján Fr. Björnsson, bóndi, Steinum.
Kristján Sigurðsson, Bakkakoti.
Lestrarfélag Álftaneshrepps.
Lestrarfélag Borgarness.
Lestrarfélag Hraunhrepps.
Magnús Einarsson, Munaðarnesi.
Magnús Jónsson, kennari, Borgarnesi.
Ólafur Guðnason, Signýjarstöðum.
Páll Jónsson, búfræð, Hvanneyri.
Páll Zóphóníasson, kenn., Hvanneyri
Runólfur Runólfsson, bóndi, Norðtungu.
Sig. Þórðarson, sýslum., Arnarholti.
Sigurður Þórólfsson, skólastj., Hvítárbakka.
Stefán Jónsson, prestur, Staðarhrauni
Tómas Jónasson, Sólheimatungu.
Ungmennafél. „Dagrenning", Lundareykjadal.
Þorgeir Bjarnason, búfræð., Hvanneyri.

**Snæfellsness- og Dalasýslur.**

Benedikt Magnússon, kaupfélagsstj., Tjaldanesi '13.
Bergmann, Daníel, verzlunarstjóri, Sandi '15.
Kristján Kristjánsson, kennari, Rauðkollsstöðum '13.
Lárus Halldórsson, prestur, Breiðabólsstað '12.
Lestrarfél. Sandara '15.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1914.

Magnús Guðlaugsson, læknir, Bjarnastöðum '12.

Stykkishólms-umboð.

(Umboðsm. Hjálmar Sigurðsson kaupmaður)[1]).

Ágúst Þórarinsson, bókh., Stykkishólmi.
Ásmundur Sigurðsson, bóndi á Grund í Eyrarsveit.
Blöndal, Magnús, kennari, Stykkishólmi.
Bókasafn Vesturamtsins, Stykkishólmi.
Einar Vigfússon, Stykkishólmi.
Elías Kristjánsson, Arnartungu.
Gestur Þórðarson, Höfða.
Gísli Sigurðsson, Langadal.
Helgi Guðmundsson, Skógarnesi.
Hjálmar Sigurðsson, kaupmaður, Stykkishólmi.
Ingólfur Jónsson, verzlunarstjóri, Stykkishólmi.
Jón Sigurðsson, Hofgörðum.
Lestrarfélag Hvammssveitar.
Richter, Reinh., verzl.m., Stykkishólmi.
Sigurður Gunnarsson, prófastur, Stykkishólmi.
Sæm. Halldórsson, kaupm., Stykkishólmi.

Búðardals-umboð.

(Umboðsm. Bogi Sigurðsson, kaupmaður)[1]).

Björn Bjarnason, sýslum., Sauðafelli.
Bogi Sigurðsson, kaupm., Búðardal.
Jóhannes L. L. Jóhannesson, prestur, Kvennabrekku.

Magnús Vigfússon, verzlunarmaður, Búðardal.
Páll Ólafsson, kaupm., Búðardal.
Sigurður Sigurðsson, læknir, Búðardal.

### Barðastrandarsýsla.

Bjarni Símonarson, prófastur, Brjánslæk '14.
Bókasafn Flateyjar á Breiðafirði '14.
Bókasafn Vestur-Barðastrandarsýslu '12.
Jón Einarsson, trésmiður, Kletti í Geiradal '13.
Jón Jóhannsson, Mýrartungu í Reykhólasveit '14.
Jón Kristófersson, kennari, Brekkuvelli á Barðaströnd '14.
Jón Ólafsson, Króksfjarðarnesi '14.
Kristján Kristófersson, Haga '14.
Lestrarfélag Bílddælinga '14.
Lestrarfélag Breiðuvíkursóknar '12.
Lestrarfélag Geiradalshrepps '14.
Lestrarfélag Rauðsendinga '13.
Lestrarfélag Tálknafjarðar '14.
Magnús Sæbjörnsson, læknir, Flatey '13.
Ólafur Magnússon, Kaldabakka. '13.
Steinþór Oddsson, Miðhúsum '14.
Svafa Þorleifsdóttir, Bíldudal '14.
Þorbjörn Þórðarson, læknir, Bíldudal '14.
Þorvaldur Jakobsson, prestur, Sauðlauksdal '13.

### Ísafjarðarsýslu.

Bókasafn Hólshrepps, Bolungavík.
Guðm. Guðjónsson, sjómaður, Bolungavík.
Halldór Stefánsson, læknir, Flateyri '15.
Hjálmar Jónsson, bóndi, Höfða í Grunnavíkurhreppi '13.
Jón Hallgrímsson, kaupmaður, Flateyri '14.
Lestrarfélag Dalmanna, Önundarfirði '15.
Lestrarfélag Flateyrar '15.
Sveinn Halldórsson, kennari, Bolungavík.

### Dýrafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Jóh. Proppé, kaupmaður á Þingeyri[1]).

Andrés Kristjánsson, Meðaldal.
Björn Guðmundsson, kennari, Næfranesi.
Blaðafélagið „Dagvarður", Keldudal.
Böðvar Bjarnason, prestur, Rafnseyri.
Guðbrandur Guðmundsson, Þingeyri.
Guðm. Á. Guðmundsson, skipstjóri, Alviðru.
Guðmundur Jónsson, Granda.
Guðni Bjarnason, verzlunarmaður, Þingeyri.
Guðrún Benjamínsdóttir, kenslukona, Þingeyri.
Gunnlaugur Þorsteinsson, læknir, Þingeyri.
Kristinn Guðlaugsson, búfræðingur, Núpi.
Lestrarfélag Þingeyrarhrepps, Þingeyri.
Ólafur Hjartarson, járnsmiður, Þingeyri.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1914.

